Andlegar

# Hugvekiur

til

## Qvøld-lestra,

frá

## Vetur-nóttum til Lánga-føstu

og um serleg

## Tíma-skipti,

flestar fritt útlagdar eptir

## Christópher Christiáni Stúrm

af

## Markúsi Magnússyni,

Stipt-prófasti Skálholts-stiptis, Prófasti í Kialarness þíngi og Sóknar-presti til Garda og Bessastada.

---

I. Bindi.

---

Selst almennt innbundid 60 skildíngum.

---

Leirárgørdum vid Leirá, 1797.
Prentad ad bodi ens Íslendska Lands-Uppfrædíngar Fél. gs,
á kostnad Biørns Gottskálkssonar,
af Bókþryckiara G. J. Schagfiørd.

Th. v Thorkelsson



# Til Lesarans.

Hugvekiur þessar, fritt útlagdar eptir þess nafntogada Prédikara Christópher Christiáns Stúrms gudlegu Hugleidíngum dag hvorn í árinu, vóru einúngis ætladar til qvöldlestra í mínu húsi, án áforms ad leggia þær prentadar fyrir almenníngs augu; ad þær koma þad nú, er ad tilreikna þeim verdugu Födurlands elskurum Biskupinum sáluga Dr. Hannesi Finnssyni og Hra. Logmanninum M. Stephensen, sem hvorr fyrir sig gefid hafa óræk merki þess, hvorsu annt þeim var

 um

um Uppfrædíngu alþýdu í landi voru; ad þessara tilstilli vóru á Alþíndi vors loflega Lands-Uppfrædíngar-Fé-lags nærstlidid sumar undir álit teknar Hugvekiur þessar; skortur á skynsam-legum og almenníng uppbyggiandi húss-lestra bókum í landinu, sýndi øllum nauð-syn hvílíkrar uppbyggilegrar bókar til alls vetursins, en þeir, sem þecktu Rit-høfund þessara Hugvekia, tóku í eng-ann efa ad velia þær framar flestum ødrum, svo sem bædi uppbyggilegar og einfaldar, og því hentugari alþýdu.

A þýsku hefir Rithøfundurinn, er var Prestur í Hamborg og dó 1786 skrifad þessar Hugvekiur, sem sídan vóru á dønsku útlagdar 1778 og tvisvar á prent útgéfnar í Kaupmannahøfn, medteknar allstadar med almenníngs á-nægiu og hrósi. Hvad útleggíngu þess-ara Hugvekia á íslendsku vidvíkur, finnur

út.

útleggiarinn minna efni til affsøkunar hiá þeim lærdari, er þeckia þetta Stúrms verk á þýsku eda dønsku, fyrir þad, sem hér allvída afvikid er, ad meiníngu og ordalagi, í þeim einum tilgángi, ad giora efnid liósara og nær lagad einfaldrar alþýdu skilníngi, heldur enn fyrir hitt, sem enn kann áfátt ad vera í stýl edur talsháttum, verdi þesskonar misfellur fleiri og stærri, enn Hra. Løgmadur M. Stephensen fái vid þeim giørt, hvørtum þó er ad þacka verks þessa sídustu umbót. Hann hefir og valid til flest þau vers og nockrar af ritníngar-greinunum, sem eptir Stúrms máta standa framan vid hugvékiurnar; þau vers, sem ecki eru gømul, eru flestøll úr vorri nýiu allranádugast uppábodnu Messusaungs- og Psálma-bók, sem um skamt nun útkoma. Ný-giørdum missira og áraskipta samt stór-hátída hugvekium er inni aukid,

id, ſvo ad kaupendur framvegis megi án vera þeſs fánýta Miſſiraſkipta-offurs og annara jafn-magurra miſſira-leſtra í eldri bókum.

Hafi þetta I. Bindi verks þeſsa heppni þá ad gédiaſt vel alþýdu, eda þó heldur, nái alþýda heppni þeirri, ad ſiá og finna þeſs nót; má framhaldſins ſídarmeir vænta, hvar á medal eru föſtu-hugvekiur nockru lengri enn þeſſar, útaf Jeſú píníngar-hiſtoríu. Ad Leſarinn hafi ſomu nót og ánægiu af verki þeſſu, ſem útleggiarinn fundid hefir, er honum gledileguſt umbun fyrir þad ómak hann hér til varid hefir.

Gördum á Alptaneſi þann 1ta Maí 1797.

M. Magnúsſon.

I. Hug-

# I. Hugvekia.
## á sidasta Sumar-dag.

Fyrr enn fiøllin urdu og jørdin og veroldin var skopud; ertú Gud frá eilífd til eilífdar. — Vér framleidum vora áratølu sem æfintýri, Psálm. 90.

Sá, svo er því varid fyrir oss, ádur enn margann vardi, er hérverutíminn á enda. Upphaf og endir vorra lifsstunda, er hvørt ødru harla nálægt; lifsins fyrsta augnablik, minnir oss strax á þad sídasta, og lífid siálft er vegur til daudans. Hvørr tíminn eptir annann hverfur burt med sífeldum umbreytíngum, og ber oss med sér, allt eins og fossandi vatnsstraumur med óstødvanda flugi fram í eilífdarinnar grunnlausa haf; þessa lærdóma prédikar oss sérhvørt sólarlag, og þó enn framar sérhvør tímanna umbreyting, en o! hvørsu miklu heldur endir sérhvørs misseris, sem leidir oss svo miklu nær því fast ákvardada lífsins enda takmarki! en, máské vér aldrei ígrundad hof-

 um,



um, hvorsu skammvinnt þetta líf er, fyrr enn á þessum síðarsta Sumardegi. O! ad þessa hugleidíngar fengiu nú giørt oss vísari og dygdugri! þúsundsinnum erum vér hérum áminntir, og þúsundsinnum høfum vér því aptur gleymt, vér høfum giørt oss hégómlegar hugsanir um komandi tímana án þess ad hugleida, ad enginn er fullviss um ad fá lifad þad nálægasta augnablik; vér leidum oss ætíd í hug, ad vér enn munum eiga lángt líf fyrir høndum, en verdum þó ecki þess varir, ad hvørr dagurinn, hvør stundin, hvørt augnablikid, sannfærir oss um þad; ad vort líf sé fallvalt, og vor tíd stutt og flogin á burt; nú er því tími til ad siá ad sér, en ecki lengur tími til ad ala og enda lífid í þvílíkri blindni, þvílíkri fásinnu, ecki lengur tími til ad treysta óvissum og ókomnum æfistundum. O! ad þessi sídasti Sumardagur mætti nú vekia oss til ad hugsa alvarlega til siálfrá vor, svo vér ei framar drøgum oss á tálar med eginn hugarburdi, og hræsni vid siálfa oss. O minn Gud! hvorsu óverdugur er eg þess, má hvørr af oss segia, ad þú ecki fyrir laungu sídan hefir afskorid minn veika lífsins þrád, stytt mína

daga,

daga, og ryckt mér burt midt í mínum hégómlegu óskum! hvornin kunnum vér nóglega ad þacka þér, ad þú enn þá allt þetta Sumar út hefir síed ígégnum fíngur vid ofs med mikilli vægd og lánglundar-gédi, og látid sérhvorn aflidinn Sunnudag verda velferdar-dag í voru lífi! hvornig megum vér endurgialda þér alla þá velgiorninga, sem þín náð og óþreytanleg góðgirni hefir látid falla í vor skaut, á sérhvörium degi þess umlidna Sumars! o Gud! vér megnum ei annad enn ad medkénna allann vorn óverdugleika, og audmýkia ofs í duptinu fyrir þér. Medtak því, o vor Gud! í náð, í Jesú nafni þetta offur, frá vorum hrærdu og ydrandi hiortum. Líttú enn þá miskunsamlega nidur til vor, nú þegar vér á í hond faranda Vetri, felum ofs med lífi og sálu þinni varatekt, þinni trún vegleidslu, því grunnlausa afgrunni þíns kiærleika! haldt þú enn nú áfram med ad audsýna vægd og vorkun og lánglundar-géd ofs vesælum syndurum, sem uppá enga egin forþénustu hofum ad reida ofs, heldur leitum einúngis hælis hiá þér, setium einúngis allt vort traust á hid fullkomna forlíkunar offur, sem Jesús þinn Sonur hefir út-



lagt til betalíngs fyrir syndarana. Lát þína náð leida oss trúar-örugga í þínum kiærleika, svo ad vér huggun finnum í tíma og eilífd í þér og þinni miskun, sem þar eilíflega vara mun, hvar engin tíma-skipti Sumars og Vetrars verda framar. Amen.

## II. Hugvekia.
### á fyrsta Vetrar-dag.

Verid gladir af voninni, Róm. 12.

Aldrei fáum vér ímindad oss vort á-stand í heiminum óttalegra, heldur enn ef svo stædi á högum vorum, ad vér vogudum ecki ad vona, ad sá almáttugi og gædskuríki Gud, vildi framvegis vera vor Fadir, hvörs forsión, adstod og blessun vér afhenda þyrdum allt vort ráð. Tídin, sem opnast nú fyrir vorum augum, hvörsu armædu- og ángistar-full mætti hún ecki verda oss, ef ad sú huggun styrkti oss ecki, ad hann, hiá hvörium engin umbreyting er, mundi leida oss farsællega í gégnum allar tímans biltíngar? hvörr hefir nockurnveginn æfda þeckíngu á þessum alstiórnanda Drottni,

sem

sem ecki med lotníngu vidurkénni, ad veik manns-képna má hans nádar aldrei án vera, nockurn dag, nockurn tíma, nockurt augnablik? hvörsu ómøgulegra værí oss þá ecki ad afþreyia allann þennann Vetur, án þess ad mega reida oss uppá hans adstod? en, hvörsu innilegt hiartans þacklæti ber oss þá nú ad fæera vorum miskunsama Gudi fyrir þá huggun og ánægiu, ad vér vona megum, já, vita fyrir víst ad hans fødurleg forsion vakir yfir oss. J þeirri efalausu fullvissu, ad hann vegna síns Sonar Jesú vilji vera vor Gud og fadir, inngaungum vér hughraustir og óqvídnir þennann biriada Vetur; nogar høfum vér ad sönnu orsakir til ótta og óróseni, er vér setium oss fyrir sionir bædi drýgdar syndir, og þær sem vor breiskleiki, vort gáleysi, vorar girndir á honum leida kunna yfir vor høfud, þær freistíngar, sem oss á honum mæta munu, þann veikleika, sem á honum þiaka kann líkami vorn, þau margfoldu rauna-tilfelli þess mannlega lífs, sem alloptast samferdast því, ecki síst á þessu tímans skeidi. Þó vilium vér ecki láta hugfallast, heldur snúa vorum augum og von til hans, sem nefnist og

 er



er vor Gud, vor hiálpari og vor fadir; hiá honum er nád og mikil fyrirgéfníng, þegar ydrandi syndari leitar miskunar hiá honum, hann er sá sterki Gud, sem máttugur er ad útryckia oss af ellum háska og naud og freistíngum; hann einn má vernda og lækna oss af ellum veikleiká, og stiórnar án efa ellum vorum atburdum og tilfellum oss til besta. Vér skulum því ecki bera heidínglega áhyggiu fyrir þeirri ókomnu tíd, heldur svo sem kristnir varpa allri vorri áhyggiu uppá hann, sem svo vel nuun fyrir oss ellum umhyggiu bera, já, frambera fyrir hann allar vorar naudsynlar; mæti oss þá í nótt, þann dag, sem á morgun kémur, og allann Veturinn út, hvad sem helst mæta vill, hvort sem vér lifum þennann Vetur heilann eda hálfann, eda nockud lítid af honum vid heilsu edur vanheilsu, vid lucku edur ólucku, vid sorg edur gledi, svo verdi á oss hans vilji, sem ætíd vill oss hid besta og fullkreystum því, ad hvad sem hann lætur fram vid oss koma, er oss hid besta; ia máské oss audnist nú ecki næsta dags morgun-liós ad líta, enn sídur enda þess ný biriada Vetrar; máské vér deyia kunnum jafnvel

á þess-

á þessari nóttu, og eilífdarinnar morgun renni oss upp ádur enn nýr dagur, ellegar máské ný reynsla á nýium Vetri sé oss enn geymd; hvört heldur, sem er, erum vér gladir af voninni, fullvissir um, ad hvad hellst Gud lætur oss ad hondum bera, verdur oss fyrir bestu, ad hvört, sem vér lifum edur deyium á Drottinn rád á oss, og ad úr hans fodur hendi fær enginn oss slitid. Honum selium vér og øll vor efni, æ! virdstu nú, almáttugi Gud og Fadir! ad blessa og vardveita oss á komanda Vetri! undir þinni verud og blessun megnar engin ólucka par á móti oss, engin háskasemd ad forthna oss, enginn veikleiki ad raska vorri von, engin synd ad ofbióda né daudinn ad auka oss skélfingu. Vertu, ó Gud! vor Fadir og Gud, í medlæti og motlæti, í lífi og í dauda! Amen.

## III. Hugvekia.

Svo hátt sem himininn er yfir jordunni, svo máttug er Guds miskunsemi yfir þeim, sem hann óttast, Psálm. 103.

Ad vér ánægdir fáum nú endad þennann dag og væntum óqvidnir

 morg-



morgundagsins, er ávertur þess trúnadar-traustsins, sem vér berum til gædsku vors almáttuga Guds, hann einn hefir allt þad til ad bera, á hvoriu vér grundvalla megum alla vora von: hann einn þeckir grant og sier alla vora þorf og alla vora armædu, hann einn þeckir og velur þau bestu medel til ad aflétta þeim. Munum vér hans augum huldir vera, sem svo dásamlega skapadi, oss: nú nockud honum ókunnugt, af því sem kann ad gagna oss edur skada: vid þessa þeckingu, sem hann hefir á oss, og ollum hlutum, er sameinadur sá Guddóms máttur, hvorium enginn fær motstadid, hvorium oll náttúran verdur ad hlýda, eda mun ecki vor egin og hlutanna tilvera, sá þetta nóglega sanna: og hvorr fær hindrad Skaparans mátt, sem med einu ordi megnar ad géfa ádur óskoptum veroldum mind og tilveru: med því ad fulltreysta hans guddóms almætti fáum vér allt andstreymi yfirunnid, allar hindranir sigrad. Þó er oss eckert huggunar-ríkara enn ad vita nád og miskun vors Guds eins óendanlega og hans mátt og vitsku, og ad hann lángtum innilegar elskar oss, enn nockur módir

einka




einka barn sitt. Þad er hans gœdska, sem hrœrir hann til ad audsyna á oss almætti sitt og vidrétta vorn enndahag, og hversu glediandi, hversu fridandi má ecki sá þánki vera vorum sálum þegar vér yfirvegum, ad þessi gœdska, þessi máttur og vitska eru engum umbreytíngum undirorpin, heldur munu vara óumbreytt frá eilífd til eilífdar! já, Gud er og verdur æ megnugur ad uppfylla þad, sem hann hefir oss heitid, sífellt er hann fús ad giora oss gott, ef ad vér siálfir briótum ei af oss hans gœdsku. O! hversu farsæla megum vér þá prísa siálfa oss, þegar Gud Jacobs er vor hiálpari, og vor von grundvallast á honum, sem skapad hefir himin og jord, siófinn og allt hvad í honum er, á honum, sem heldur sín fyrirheit eilíflega! þared nú þetta trúnadar-traust, giorir oss svo farsæla, látum oss þá ætíd vardveita þann ásetníng oldúngis ad fulltreysta honum, látum þá jafnvel ecki þad bágasta ástand, né mótdrœgustu tilfelli vors lífs megna ad veikia vora von, heldur þegar vér forgéfins vœntum hiálpar af monnum, látum þá vort traust á honum vera því oruggara; en því oruggari, sem vor

 von



vou verdur á honum, því meiri ánægiu, því meiri rósemi finnur vort hiarta; þó allir vorir vinir yfirgéfi oss, er þó Gud vor eini óbrigduli og trúfasti vinur; verdi þá svo dymmt íkríngum oss, sem verda má, Drottinn er þó vort liós; umkríngi oss þá svo margar hættur og hæskasemdir, sem vilia, Drottinn er vor verndari og frelsari; verdi þá vor líkamans veikleiki svo mikill, sem má, Drottinn er vor styrkleiki, vor grædari, verdi daudinn oss þá svo bitur, sem hann verda má, Gud er vor lífs kraptur og vor sáluhiálp. Æ! vort líf mega þá hitta þau vandrædi, sem vér hvorki fáum fyrirséd, afstýrt né ágardad; því í sérhvörin ástandi vors lífs, og ollum þeim tilfellum er oss í því mæta kunna, er og verdur Gud vort hæli, vort hellubiarg, vor kastali uppá hvorn vér reidum oss, hann er vor Gud og fadir kiær, sín born aldrei forlátid fær. Med þessu hugarfari endum vér nú þennann dag og viliym uppbiria daginn á morgun, en bidium þig audmiúklega, miskunsami Gud! ad styrkia oss í því til enda vors lífs; unn oss med krapti þíns anda ad yfirvinna alla hiartans vantrú og óstod-

ug-




ugleika; já, unn oss med sáluhiálplegri von jafnan ad vænta alls góds af þinni miskun og náð; lát oss æ lifa þér til dírdar, svo vér æ megum lofa og vídfrægia þitt almætti, þína speki og þína gædsku vid oss. Amen.

## IV. Hugvekia.

Drottinn hatar þá, er temia sér vondt sinnislag, enn á þeim, sem framgánga á hans vegum hefir hann velþóknun, segir Salómon.

Vér qvídum máské þeim vegi, sem vér nærsta dag gánga skulum. Þad er allt offatt, ad oss fellur yfrid þúngbært ad fullnægia Jesú krofu til sinna eptirfylgiara, þeirri nefnil. ad afneita siálfum oss og vorum girndum, ad taka uppá oss Krists kross, og þannig fylgia honum eptir; enn látum oss, mín sál! ei skélfast af þeirri mædu, er mætir oss á þessum vegi; hvar fáum vid nockud veglegt ødlast eda áunnid í heiminum mædu- og ómaks-laust? hvörr fésiódur má afiast og vardveitast án umhyggiu? því ímyndumst vid þá, ad þad kosti ómak ad ødlast sanna farsæld? eda mun kannské meiri mædu og ómak þurfa til þess, ad

vera

vera sannkristinn, enn lastanna þræll?
Verum þó saman ad ødru leiti mædu og
erfidismuni þá, sem hafa þarf fyrir þessu
jardneska í lastanna þiónustu vid þad ó-
rissa, fáuýta, já, allopt hrædilega end-
urgiald, er þeir veita. Verum ad hinu
leitinu saman umhyggiu þá, er ockar vel-
ferd krefur, vid þau ómetanlegu gædi,
sem ockur eru víss í dygdanna skóla. Ecki
þarf lengi til þess ad leita ad vid verd-
um þess vísari, ad heimurinn aldrei um-
bunar ad fullu, og sialdan vel þeim hann
elska, né þá mædu, sem þeir niega fyrir
honum hafa; en þar á móti ad enginn
jøfnudur er á milli þeirrar mædu, þess
strids, þeirrar umhyggiu, sem vid hliót-
um ad hafa fyrir ockar velferd, og þeirra
verdlauna, sem ockur eru geymd í var-
anlegri gledi. Þyki vegferdin mædu-
søm og hladin mótlætíngum, látum ock-
ur þá til hugar koma, hvørsu mikla mædu,
hvørsu mikla baráttu, hvørsu bitrar písl-
ir þad kostadi ockar Jesúm ad leid-
beina ockur til eilífrar velferdar um þann
veg, sem vid nú egum eptir honum ad
feta; hvørsu lengi hlaut hann ecki ad
yfirgéfa sinnar guddóms dírdar samastad,
til þess ad sætta heiminn vid himininn,

og





og sigra helvíti en áfreka ockur eilífdar-
innar sælu? í hvílíkri fátækt og van-
virdu mátti hann ei lifa? med hvílíkum
óútsegianlegum píslum, mátti hann ei
daudans beiskiu smacka? skulum vid þá,
mín sál! mögla og qvarta, þar vegur-
inn er ockur ruddur og hinn mesti far-
artálmi eyddur, en von gefst ockur örugg
um ómetanlegt verdkaup ad endalokum?
nei, o Jesú! lengur skulu þínar endur-
leystu mannsképnur ecki qvarta yfir ad
torveldt sé ad hlýda bodum hins sanna
kristinndóms, lengur skal eckert undan-
draga vorn ásetníng ad fylgia þeim vegi
med glódu hiarta, sem þú hefir ofs búid,
engin mæda skal ofs frá því hræda trú-
arstyrkvir ad vinna þenna sæla sigur,
hvörs umbun er eilíft líf; hvörsu lítils-
verdt er ecki allt þad erfidi, öll sú mæda,
sem vér fyrir þad lída hliótum? sá beisk-
asti kaleikur, sem fyrir ofs kann ad á-
skeinkiast, er hvörgi nærri svo beiskur,
sem sá, er þú hlautst af ad súpa; eng-
in siálfs afneitan kann í nockurn sam-
jöfnud ad koma vid þína, þær súrustu
smánanir heimsins barna eru eckert ad
reikna móti þeirri vanvirdu, sem þú sak-
laus þola mýttir, og beiskia vors dauda

er



er eckert á móti þeirri daudans qvøl, sem þú leidst; já, hvørsu lángvinnt, sem vort andstreymi er, tekur þad þó um sídir enda; og þá høfum vér yfirunnid allann ørdugleika, þá er øll vor neyd á enda, og þá eru allar háskasemdir yfirunnar; þá leidumst vér inn í vort fyrirheitna fodurland til þess ad niota óumrædilegrar sælu, og hvørsu skiótt mun þá ecki gleymt, ad vér hér á jørdu þola máttum lítilsverdá og skammvinna mædu og erfidi til þess ad ødlast endalausa rósemd og gledi á himnum!

## V. Hugvekia.

Haldtú því, sem þú hefir ad enginn taki þína kórónu, Opinb. b. 3.

Þegar þannig er varid mannlegu ástandi, ad á hvøriu augnabliki má fyrir því óttast, ad rósemi og ánægia missist og vér jáfnvel lída kunnum tión á vorri egin sálu, virdist þad harla naudsynlegt, ad veria til náqvæmustu umhyggiu og vísustu varsemi í øllum efnum; skodum vér heiminn, sem vér lifum í med gløggvum augum, munum vér finna, hvørsu mikla þørf vér høfum á ad veria mestu árvekni og alúd til farsældar vorri sálu,

sálu, því af hvörn er heimurinn ríkari, enn sífeldum ginnandi og festandi tál-snörum, þó er eckert, sem optar og vold-ugar drottni yfir hiörtum vorum enn á-hyggia þessa lífs, audur og vellyst, og hindri oss svo tídum frá umhyggiu vorr-ar egin andlegu velferdar. Þegar vér géfum hiarta voru ad ollu leiti taum til jardneskra sorga og sýslana, berum vér þó eckert annad úr bítum enn óróseni og leidindi og hvörsu margfaldar eru ei þær orsakir, sem tendra líkamlegrar áhyggiu eld í spilltum manna-hiörtum; stundum sturlar þad umlidna oss, og vér unum því illa, ad Gud hefir leidt oss ødruvísi, enn vér óskad hefdum og heimskulega giort oss í lund ad betur fara mætti. Stundum erum vér hugsiúkir vegna kom-andi tímanna; nú er eg þegar, segir hinn veiktrúadi, svo naudstaddur og þurf-andi, hvadan mun eg nú odlast lífs upp-heldi hédan af? stundum erum vér óá-nægdir med yfirstandandi tíma, hvörsu mikid gott, hvörsu marga, hvörsu mik-ilvæga velgiörninga, sem Gud lætur oss í té, og hlotnast, erum vér þó ætíd óánægd-ir; hvörsu létta byrdi, sem hann leggur á oss ad bera, finnst oss hún ávalt ó-

bæri-



bærileg; en hofum vér þaradauki drottnandi og óstiórnlega tilhneigíngu til tímanlegra giæda og vellysta, villunst vér enn þá lengra, vor andlegu efni verda þá léttvæg í vorum augum, vorrar sáluhiálpar dýrmætustu lærdóma virdum vér þá lítils, og himin og helvíti, sem smámuni. En þegar svo lángt er komid, eru fá stig eptir ófarin til eilífrar glötunar; skyldum vér þá, í þessu ástandi, og í þessum heimi, sem þvílíkar tálsnörur hefir búnar hvörium af oss, framana þánkalausir? nei, þad sé fiærri! látum oss í kyrrdum og einrúmi ransaka nákvæmlega vort egid hiarta, og þann heim, sem vér lifum í; látum oss kappkosta ad vardveita hreint og óspiallad vort hvikula hiarta, sem hægt er ad leida afvega í heiminum, iá látum oss stadfastlega ásetia ad stiorna því og verka vora sáluhiálp med ugga og ótta! nóga orsök hofum vér til ad vera hugsiúkir vegna vors egin óstödugleika, sem svo audveldt veitir afvega ad leida, og hvörsu hastarlega látum vér ei af sérhvörri minnstu lockun og freistíngu sigrast, ef vér vogudum ad hætta oss útí heimsins tælandi vellystir treystandi einúngis vor-

unn




ann egin kroptum? hiá oss er eckert megn ad sinna til ad sigra heimsins vélabrögd né syndarinnar tillockanir. Vér bidium þig því, o! vor Gud! giör þú oss sterka til ad strída mót syndinni og hennar tillockunum. Vaktú siálfur yfir vorri sálu, ad hún ei afvega leidist og tapist med ollu. Sýndu oss þær heimuglegu tálsnorur, sem leggiast í veginn fyrir vorn góda ásetníng, og leid vorn fót frá neti því, sem vort sakleysi kynni ad festast í; þá fáum vér farsællega sigrad allar freistíngar, og þá mun vor ódaudlega sál frelsud, sem án þinnar hiálpar yrdi tortýnd. Æ! vardveittú oss, miskunsami Gud! vegna þíns Sonar Jesú Krists, og géfdú oss nád til ad strída því góda strídinu, svo vér verdugir finnast mættum ad odlast ad lokunum trúarinnar umbun, þad eilífa lífid! Amen.

## VI. Hugvekia.

Lát þig ei skélfa þad, sem þú lída átt: vertú trúr til daudans, og þú skalt odlast lífsins kórónu, Op.b. 2.

Vér qvortum svo tídum yfir lífsins mædu og þreyngíngum, yfir því

B strídi,



stridi, sem vér megum útstanda jafnvel einnig yfir þeim mótlætíngum, sem vér enn megum vænta, en hugleidum vér grandgiæfilega yfir hvoriu vér qvortum? er þá allt þad ógédfelda, sem vér finnum til, svo mikid í siálfu sér, ad þad verdskuldi þvílíkar umqvartanir, þvílíka sorg? metum vér þá og réttilega gledina, sem Gud unnir oss á móti þeirri sorg, sem hann stundum lætur oss til handa bera. Minnunst þó á mótlætis døgunum vorra medbrædra, sem þola mega þýngri mótlætíngar og meiri þiáníngar enn vér, sem ega ad beriast vid fátækt og forakt, baktal, ofsóknir, sóttir og siúkdóma; máské eg sé frí fyrir þessari þúngbæru reynslu, máské mínir brædur í heiminum, sem biúgir og ørmæddir stynia undir mótlætínganna þúnga, vildu gladir skipta sínum kiørum vid mig, og þó eg þola ætti allt, sem holdinu biturt og þúngbært er, máttu þó Jesú píslarvottar lángtum þýngra lída; þeir vóru í sífeldri daudans hættu, allt af undirokadir ógnarleguslu pintíngum og hørdustu ofsóknum. Fátækt og vanvirda, baktal og siúkdómar, allt þetta er þó ei annad enn smámunir á móti þeirra píslum, vid

hvørra





hvorrá eintómt nafn, mannleg náttúra titrar. O! hvad eru þó vorar, hvad eru allar píslarvottanna hørmúngar, á móti þeim, sem vor Endurlausnari þola mátti fyrir oss; hvornin má þeirra nockurn samjøfnud finna? þær syndir, sem oss ángra, særdu hann miklu meira; þann kaleik, sem vér einúngis smockum á, mátti hann í botn afdrecka med allri hans beiskiu. J øllum vorum tilfallandi eymdum, í øllum vorum stríduslu mótlætíngum hofum vér þó þá huggun, ad þær muni ecki lengi vara. O! hvílíka upphvatníngu finnum vér í Jesú þínu til ad bera vorar lídanir med því meira stødúglyndi! af hans dæmi siáum vér ad Gud er oss ecki svo strángur, þó hann leggi oss mótlætis byrdi á herdar, sem hann var sínum eginn Syni. Því skyldum vér ætlast til ad bada sífellt í rósum, fyrst Guds eingétinn Sonur mátti þyrnibroddanna kénna? þó vér lídum spott og smán, órétt og ofund, já, siálfann daudann, hvoria orsøk høfum vér samt til ad mogla? hefir ecki Sonur Guds lidid allt hid sama fyrir oss? lifum vér í fátækt og vanvirdu, æ svo minnumst á Jesúm, sem jafnvel þó hann væri í Guds



mind, tók á sig þións-mind; þó hann væri fullríkur, giördist fátækur vegna vor; verdum vér ránglega baktaladir og vanvirdtir, lítum þá til Jesú, hvörr svo miklu meiri vanvirdu þoldi fyrir sakleysi, fyrir gott. Séum vér staddir í sorgum, ángistum, eymdum og mædu, minnunst þá á vors Endurlausnara dáudans ángist, sem útpressadi hans bloduga sveita, til hans dauda á krossinum. Finnist oss tídin laung, uns vér hédan leysast fáum, rennum þá augunum til þeirra dírdlegu endaloka Jesú pínu, hennar vegna þorum vér sömuleidis ad vænta oss sáluhiálplegs og dírdlegs enda á öllum vorum þiáníngum. Ef vér kappkostum ad vardveita þessa þánka stödugt, kunnum vér med gladværd og ró taka sérhvöriu, sem ad höndum kémur.

## VII. Hugvekia.

Svo skulum lífid vanda vel, sem vildum óska ad hafa, þá oss hédan dregur dapurt hel Dómstól Guds fyrir himnum á.

Hvörsu þánkafulla mætti ei sú hugleidíng giöra oss, hvad sorlegur mun ei

ei morgum sá þánki, máské eg leggist nú í seinasta sinni í sæng mína í qvøld, máské eg á þessu qvøldi nióti í sídasta sinni gledilegrar umgengni med vinum mínum. Hvorsu sorglegur, sem nú þessi þánki vera má, er þó hans tilefni hvorki hégomlegt né ólíklegt; hvad er veik og forgengileg mannsképna annad enn affallandi laufblad, og visnandi blómstur? óteliandi tilfelli kunna til ad bera, sem orsaka daudann, og sérhvorium af oss er ókunnugt hvílíkur dauddagi enda giøra muni á voru lífi; máské eitthvort tilfelli, sem svíptir oss ræunmni rycki oss burt, strídur siúkdómur í skyndíngu svipti oss lífinu; mis-stígid spor, ófall, jafnvel kaldur vatns-dryckur, já, þúsund tilfelli, sem vér hvorki þeckium né siáum fyrir, kunna fyrr enn varir ad leggia oss í grøfina, því vor burtferdar tími er oss æ hulinn; enginn morgun géfur nockrum af oss þá fullvissu, ad vér til qvølds munum heilbrigdir lifa, og eckert qvøld ad á komandi nóttu grípi helsóttin oss ei; hvorr er sá, sem viti hvort hann géfa muni upp andann á medal vina edur óvina, kunnugra edur ókunnugra, í fátækt eda ríkdómi, í manna ná-



náveru ellegar einungu, í einu orði; allt styrkir þá vissu að skéð geti eg í síð-asti sinni sjái heimsins liós á þessum degi, og ef nú svo yrði, ef einhvörr af oss, héldi nú síðustu qvöldbæn í þetta sinn, kynnum vér þá ánægdir að mæta þeim tíma, sem apturlykti vorar varir í síð-asta sinni? æ! vor Gud! ef hvörr af oss deyia ætti svo undirbúinn sem nú, mundi skiótt útgiört um vora velferd. Því bidium vér þig, nádarfulli Gud! géfdu oss nád að tilreida oss med bæn og ár-vekni undir vorn sídasta burtfarar tíma, sem koma kann ad þegar vér síst vænt-um og fyrirbúunst. Máské þessi qvöld-bæn verdi vor sídasta, en því alvarlegri ætti hún ad vera; máské þessi verdi vor seinasti ólifadi qvöldtími, því einlægari veri sá ásetníngur ad brúka hann vel, og endurkaupa hvört forsómad augna-blik, med þeim ókomnu, þángað til það sídasta ad ber; máské vér í seinasta sinni sjáum vora vini og vandamenn á þessu qvöldi, því framar ber oss ad unna þeim, og því trúlegar ad taka vara á vorum skyldum vid þá; máské þessi verdi dag-urinn, sem vér seinastann egum ad bera heimsins mótlætíngar, því þolinmódari

skul-




skulum vér líða allt það, sem á móti blæs, og því stöduglyndari vera í hvörju því tilfelli, sem að höndum kémur. Um þína náð þar til biðium vér þig, kiærleiksfulli náðar-ríki faðir! komi þá dauðinn og yfirfalli oss, nær sem vill og hvar sem vera skal, vér munum óttalausir til hans tala: kom þú sæll, þegar þú vilt! og afhendum svo í Frelsarans Jesú nafni vora sálu með þolinmoðu og glöðu gédi í hans hönd, sem hana skóp og gaf.

## VIII. Hugvekia.

Það er gott að þacka Drottni og syngia þínu nafni lof, þú allra hæðsti, að kunngiöra þína miskunsemi á morgnana, og þinn sannleika á nóttunni, Psálm. 92.

Umskipti dags og nætur benda til veikleika og óstödugleika þessa heims, að sönnu er nóttin áqvörðuð til hvíldar og svefns, til að styrkia náttúruna og endurnæra líkamann og vora veika limi, en þar hiá er það merki til veikleika náttúru vorrar, og hennar forgengilegleika, að hún þarf slíkrar endurnæríngar við; en í himninum er ei þessa þörf, því himnabúarnir þreytast aldrei né veikiast.



Á medan vér búum í þessum heimi þrýtur dagsins erfidi þegar nóttin yfirfellur, en á himnum taka sælar sýslanir engann enda; þar gétur engin verkleysa, eckert vanmætti, engin ydiuleus stund verid til. Þegar næturtímunum í þessum heimi er eydt í ydiuleysi, finnast þeir lángsamir og leidinlegir á medan augun vaka og svefninn flýr oss. En oll vor dvøl í himninum er eintómt líf og liós; sífeld ánægiusom ydiusemi, gledi og varandi heilagleiki og fognudur. Á medan vér jardríkid byggium er oss tídum í náttmyrkrinu villuhætt á afvega slódir, en í ødrum heimi þarf enga þvílíka hættu ad óttast; allir himnar upplýsast af Guds nálægd; hvørt augnablik í þessu gledinnar landi, er eintóm ánægia og dagsins liós skín þar eilíflega yfir þeim, sem þar búa; þá nætur-myrkrin tilbyrgia dagsins lios hverfur vorum augum oll náttúrunnar prýdi á jørdunni; en í himninum fáum vér sífeldt ad siá uppliómandi dírdar glansa þess eilífa lífs; þeirrar Paradísar lióma skal oss aldrei hverfa, aldrei leidast þar ad siá og þar ad smacka þá sælu, sem eckert auga hefir sied, eckert eyra heyrt, og aldrei hef-

ei hefir í nockurs manns hug edur hiarta komid; o! hvörsu tídum dregur sáfræd-is og ugglensis myrkur fyrir skilníng og greind vorrar sálu, ámedan vér búum á jördunni! sialdan hofum vér þann and-ans fhrugleika til ad bera, sem Gudi er þócknanlegur; hvörsu kaldur og dofinn er ei vor kiærleiki til vors besta fodurs og Guds? hvörsu treg og hálfvolg elskan til Guds Sonar, sem þó elskadi oss svo heitt? en þá vér komnir erum í þad sanna far-sældar land, verdur vor ánægiufyllsta ydia, med andans gladværd ad siá, elska, dýrka og lofa Gud; engin tregda, dofinleiki eda sinnuleysi skal þá framar hindra vora helgudu krapta frá þessari farsældar ydiu. Loksins gefur oss hvör-su nótt, sem dregst yfir, umþenkíngar-verdá afmálun daudans; nótt og nætur-hvíld má álíta, sem einhvörn skamm-vinnann dauda, er umskiptist med marg-víslegum athofnum þeirra lifendu. En eins og í himninum engin svefn hefir stad, svo er þar hvorki daudi né nockur daudans ímind, því allt er þar einskiært líf og gledi. Allir kraptar eru ódaud-legir, allar lifandi verur eilífar; á allri þessari farsæld egum vér von, þegar sá



fagnadarfulli morgunrodi uppriſu-dagſins rennur upp yfir oſs; en á medan vér búa hliótum í þeſſum heimi, hvar dagur og nótt, liós og myrkur, erfidi og róſemi, ſífeldt ſkiptaſt um, vilium vér gladir í voninni vænta og bída þeſſarar farſælu umbreytíngar, og leitaſt vid med alvarlegri áſtundun ad giora oſs verduga þeirrar lucku, ſem um allar eilífdir bídur vor hiá Jeſú í dýrdinni.

## IX. Hugvekia.

Hvorr hellſt liúfann Gud lætur ráda, líka vonar á hann ætíd, vill þann Drottinn vernda og náda, víſt þó ádynji neyd og ſtríd; hvorr, ſem vid Gud ſér heldur tryggt, hús þeſs er ei á ſandi byggt.

Þad er hinn fyrſti tilgángur Guds fyrirætlunar med oſs, ad vér lifum ſamhlióda vors Skapara heilaga og góda vilia, og útvelium þau medöl, ſem þéna til þeſs, er hann vill; þéri ætti manneſkian, ſem ſkynſemdarfull ſképna ad líkiaſt Gudi, ſem þeſs vegna gaf ſálu hennar fríann vilia til ad útvelia og hafna, en, því midur! þeſſum víſdómi glötum vér optlega og því hnegiſt viliann opt til





ens verra, já, hvörsu opt verdum vér ei þessa varir, ef vér íhugum og ransökum vorar tilhneigíngar? hversu opt vesium vér ecki af heimsku þá hluti, sem vér fordast ættum, og þvert á móti hofum andstygd á hinu, sem vér ættum ad elska? þad, sem vér einatt siáum og reynum hafa hiá oss þá háskasomu verkun, ad nidurdempa tilhneigíngu til Guds ótta í sálu vorri, er einkum ríkdómur, virdíngar og vellyst; þetta eru þeir Gudir, sem menn tilbidia, og vænta sér rósemi og lucku af þeim, og þó vér einstökum sinnum vesium þad góda, er þad stundum framar til þess, ad fylgia annara dæmum, enn af egin laungun. O! hvorsu ólíkt er guddómlegum vísdómi varid, hvors mark og mid og tilgángur er jafnan hinn besti! o! hvörsu ólióst og ósinnanlegir eru oss þó tídum hans vegir, sem hann velur til framqvæmdar sínu alvísa rádi. Opt þykist skamsýn sérgædíngs mannvitska finna þad marklaust, já, heimsku, í hvörju þó ædsti vísdómur er fólginn; hvörsu opt lætur þó ei rádstöfun ens alvalda þornadann staf bera blómstur, hvörsu opt leidir hann skiæra vatns lind af hellunni, til endurnæríngar og svölunar ótelian-



ianlegum fiølda fólks? hans undrunar-verdi vísdómur lætur sig í lióst í allri hans stiórnun; følnud laufblød og blómstur falla af á haustum og verda ad dupti, svo ad á næsta vori framkomi í þeirra stad, græn og yndisleg og ylmandi blød og blómstur á ný, og hvørsu opt og margfaldlega má náttúrunnar adgætni skodari þreifa á þessum vors Guds ómurædilega vísdómi í náttúrunnar nidur-rødun, undir eins og þánkalaus heimskíngi finnur eckert athugaverdt! hvørsu audþecktur er ecki sami vísdómur í stiórnun þeirra tilfella, sem mønnunum mæta? rennum augunum til Jósephs, sem var besti sonur fødur síns, hans elli-stod og hans gledi, en vard þó mannsali seldur af svikafullum brædrum, til þess hann sídan vidhaldid fengi siálfum þeim, ollu hyski fødurs síns, já, ollu Egyptalandi í eydileggiandi hallæri. Rauda hafsins ólgu flódum má sinna, brúsandi bylgiurhiadna, hafid hrøckva til baka og standa sem múrveggur til beggia hlida, svo ad Israel fái ohulta braut yfrum þad, en sama hafid fellur aptur í þessa braut til þess ad framqvæma Guds strøffunardóm á forherdtum Pharaó og tortýna

hon-

honum og lidi hans; á seinni tímunum siáum vér Guds kirkiu opt adþreyngda á allar sidur, og manna hatur og grimd verda samtaka helvítis makt til ad hrista og skékia trúarinnar grundvoll, en þessar árásir orka ei par, heldur grundvalla hana og styrkia miklu framar. O! vór mildiriki Gud! þú, sem ert alvís í ollu þínu rádi, og nádugur í þínum verkum, vidhaltú þessum og þvílíkum huggunarríkum endurminníngum þinnar undrunarverdu stiórnunar í vorri sálu; innrættú hiá oss þá stodugu trú, ad hversu undarlegir og óransakanlegir, sem þínir vegir virdast oss, sé þó allt þad þú giorir vel giort, allt harla gott! Amen!

## X. Hugvekia.

Hvörium sem óttast Drottinn, mun hann vísa hinn besta veg, Psálm. 25.

Hví framar sem þú, mín sál! sannfærist um þennann sannleika, því meiri verdur þín ánægia og rósemi, og því óbifanlegra þitt trúnadar-traust á Gudi; haldtú þess vegna stadfastlega vid þenna sannleika og ad allir vegir þíns Guds eru ecki annad enn miskun og trú-



festi. Ef ad þú qvartar yfir litilsverd-
um mótdrægum tilfellum, sem auka þér
þó armædu í lífinu, þá láttú þér í hug
koma ad Gud hefir ecki heitid og áqvard-
ad þér farsæld og fullgiørda rósemi hér
á jørdu; þinn barns-grátur gaf þegar
vissu um, ad þín lífsins gledi mundi á
stundum blandast sorg á komandi døg-
unum. Spurdu ecki, því Gud ei hafi
giørt þig og heiminn enn þá fullkomn-
ari, enn þá audugri af varanlegri gledi;
engum nema óendanlegum vísdómi
Guds, er fullkunnugt, hvørs vegna allt
er skápad þannig og ecki ødruvísi, eda
mun honum bera ad giørá þér skil fyrir
øllum verkum sínum, vilia og tilgángi?
þér nægir ad vita hann þér nádugann
fødur, sem daglega úthellir yfir þig ó-
teliandi nýium og nýium velgiørdum,
fyrir hvøriar hann krefur þitt audmiúkt
hiartans þacklæti; þér nægir ad vita
hann heimsins alvalda Konúng, sem
krefur þína undirgéfnu hlýdni, og hvør-
ium skyldir þú vilia hlýda ef ecki svo
gædskurlkum Gudi, sem á hvøriu augna-
bliki sannfærir þig um þad, ad hann elsk-
ar þig, og elur fyrir þér ønn? hvørium
skyldir þú fulltreysta ef ei honum, sem
svo

svo opt, svo dásamlega, svo áþreifanlega, audsýnir þér sitt almætti, sinn vísdóm og sinn kiærleika? og þegar þú finnur þinn hag midur fullkominn, enn þú óskar, og heldur breytingum undirokadann, láttu þá þetta og sérhvört mótlæti, sem ad höndum ber, lífga þína von og fullvissu, ad kiærleiki þíns mildirika födurs hafi þér án efa geymt huggun og gledi og heillasamara ástand sídar meir. Hann, sem lætur frækornid þróast og friófgast í jördunni og á henni blómgast, hann, sem vardveitir orminn í jördunni, lætur hann umi-mindast og giörir loks fleygann, mun hann ecki unna manneskium ad ná fullkomnun þeirra edlis, og ödlast betra ásigkomulag enn þetta nærverandi? náttúrann leidir þig ad mörgum þeim leyndardómum, sem þín slióa skynsemi ei fær kanfakad og fullskilid, varastu því ad efa um Guds vísdóm og gædsku, og ad treysta um of þínum veika skilníngi, en reiddu þig uppá þá máttugu hönd, sem markadi stiörnunum veg, mældi sólarinnar skeid og samtengdi alls sköpunarverksins dásamlegu kédiu; hann mun og giörvöllu vidhalda í sinni fullkomnun, uns sólin sloknar, sem nú skiptir árinu í

sum-



sumar og vetur, vor og haust. Reiddu þig öruggt á Guds örlátu forsjón, sem bædi útbýtir oss ríkuglegri næríngu og breidir ánægiu og lystisemdir fram fyrir augu vor; og fel þig svo med gladværri rósemd vilia þeirrar veru, hvörrar ályktanir jafnan mida til farsældar, þó ad tilgángur þeirra sé oss hulinn. Látir þú, mín sál! þessi heilrædi vera þér hugfest, mun sérhvörr partur þinna lífdaga, sérhvörr dagur og stund af þinni Pílagríms ferd, géfa þér nóg tilefni ad prísa vísdómsfulla og nádar-ríka stiórnun þíns Guds. Adgiættu því náqvæmlega alla þá vegu, um hvöria Guds forsjón leidir þig, en voga aldrei ad dæma þá fyrir fram ámedan þú ecki þeckir Guds fullkomnad rád á þér. Þú veitst ënn þá ecki hvörr hans tilgángur vera kann med þig, en sídar meir verdur þad opinbert; vertú einúngis þolinmód, ætíd vongód og fulltreystu honum. Ad endadri vegleidslu Guds í þessu lífi, mun eilífdin fullkomlega í liós leida, hvörsu trúlega, hvörsu nádarsamlega, hvörsu fodurlega Gud leidir sína; látum því þá sannfæríngu nægia: vor Gud er einskiær gædska og trúfesti, hann leidir oss med sinni fodur-

urhendi alla vora æfi hér, en nun í himninum unna oss fyrirheitinnar gledi og sælu um eilífd.

## XI. Hugvekia.

—Dauda, eilífd og dóminn senn daglega þenkid á, nærsta miog þetta pálgast menn, naum er lífsstund og sá, lagi því hvørr svo lifnadenn, ad lendi hann Gudi hiá.

Hútmálanlega stór er mismunurinn á milli vors nærveranda og eptirkomanda ásigkomulags, á milli þessa, sem vér lifum í hér í tímanum, og hins, sem sídan er fyrir hondum í eilífdinni. Um þennann sannleika erum vér full-sannfærdir, og hirdum þó engu ad sídur lángtum minna um vora eilífu, enn vora tímanlegu velferd. Vissir erum vér um ad tímanlegt líf tekur brádum enda, og þó hofum vér sífellt svo mikid fyrir stafni, eins og því ætti aldrei ad linna, ellegar engin eilífd tæki þar vid, er þetta þrýtur; vér vitum víst ad sú komandi eilífd er endalaus, og þó er oss svo tregnúid til ad búa oss undir hana. Þad einasta, sem giörir oss svo óhulta og andvaralausa í þessu mikilvæga efni, er þad

 láuga



lánga bil, sem vér giörum oss í grun, og telium víst á milli nálægra tíma og vors komanda eilífa lífs. Allt af símindum vér oss þad, sem vér óskum, ad vor dauda-dagur, og sú eilífd, sem þareptir fyrir höndum er, sé enn þá fiærri. Ungdómsins blómstrandi aldur, heilbrigdi líkamans og vor smiadrandi von villir oss í þessari raungu meiníngu, svo vér á hvörium degi ætlum eilífdina oss fiarlæga, en millibilid, edur þad, sem eptir er lífsins og svo opt sviptir oss eilífdarinnar siónum, er enganvegiun svo stórt, sem vér giörum oss í hugarlund. Tilfellin, sem lífid mega stytta, eru ótelianlega mörg. Þegar vér telium frá þá mörgu tíma, sem eydast med svefni og ydiuleysi, edur ad minnsta kosti í andvaraleysi, verdur hitt tímabilid svo ysrid lítid, ad vort líf og vor daudi giöra tilsamans einúngis einn sár-lítinn púnkt; því skulum vér daglega gaumgæfa tídina, og þad því framar, sem styttra er eptir, og vér höfum fleiri ár aslifad, en tilhugsan eilífdinnar, skal þarámót verda oss því markverdari og umvardandi, sem vér daglega nálgunst hana meir og meir. Þessir skulu nú vorir þánkar á þessa dags

qvøldi,

hvoldi, og þessa þánka óskum vér æ ad vardveita, til vareygdar og gudræknis uppørfunar, á allri vorri vegferd í heiminum! o! ad tímans og eilífdarinnar tilhugsan mættu svo vakandi verda í voru hiarta ad vér alla vora daga létum oss aldrei úr minni lída, hvørsu tíminn er stuttur en eilífdin laung! o Gud! virdstu ad stadfesta og innrœta í vorum hiørtum þessa sáluhiálplegu hugleidíngu. Géf þú ad enginn munadur, engar ginníngar þessa lífs hindri oss frá því af øllum kroptum ad keppast eptir því ódaudlega og eilífa; lát vora gladværu von aldrei grundvallast á jardneskri og fallvaltri farsæld, heldur lypta sér hærra og festa siónir á þeirri óforgengilegu og eilífu, svo ad vér allar æfistundir verdum því ákafari, því ótraudari ad feta dygdanna veg og yfirvinna allann þann ørdugleika, sem oss á honum mæta kynni! Amen.

## XII. Hugvekia.

Seliast ecki tveir titlíngar fyrir einn smá-peníng? samt fellur enginn af þeim til jardar án ydar fodurs vilia. En fremur: øll ydar hofud-hár eru líka talin. Ottist þess vegna

 ecki!



ecki! þér erud meira verdir enn margir titlíngar, sagdi Jesús, Matth. 10.

Á hvørium degi siáum vér þá tilburdi á jørdu, sem ómótmælanlega sannfæra oss um ad Guds nádar-rík forsión vakir yfir øllum heiminum og einkanlega yfir oss mønnunum; sá mætti med ásettu rádi apturloka augum sínum, og of mótþróanlega þverskallast vid skilníngar-vitanna reynslu, og skynseminnar sannfæríngar, sem ei játar sig finna ótøluleg merki Guds nádar-ríku stiórnunar, nema hana sé med øllu tilfinníngarlaus. Med hvílíkum yfirburdum hefir Gud sæmt manneskiunnar líf, framar øllu sem vér þeckium! sí og æ sannfærumst vér fullkomlega um þád, ad vort líf er dýrmætt í Guds augum; má ecki hvørr og einn vidurkénna og segia: med fødurlegri umhyggiu vakir hann yfir mér; med mikilli trúfesti verndar hann mig af øllum háskasemdum, sem annars mundu skada mig; náqvæm og gædskurík er hans forsión fyrir minni næríngu; med guddómlegri nád, styrkir hann og endurnærir mitt veika líf! ef hans hønd ecki vardveitti mig, væri eg fyrir laungu

síd-

ſidan med ſólunni undirgenginn, ellegar nẏ ſorg og nẏ armæda rinni upp med ſérhvorri ſólu. Sérhvørr vidauki míns lífs, hefdi verid mér ſtraff, hefdi hann ecki látid ſína nád margfaldaſt vid mig eins og hann lét mína daga fiolga. O! hvorſu hughreyſtandi er þeſſi þánki, þegar eg yfirvega hans nád, ſem útbreidd er um alla verøld, og ad enginn ſá ſtadur er til, ſem ecki votti og ſẏni augliós kénnimerki Guds gædſku! hvort ſem eg fer og leita, leidir mig Guds nádar-rík forſión allſtadar; hún vakir yfir mér þegar eg ſef, hún ſkilur ecki vid mig þó eg ſé einmana; øll náttúran ſannar med mér forſión míns Guds, og ſtyrkir mitt trauſt á hans almáttugu gædſku; ſérhvørr fugl, ſem flẏgur í kríng eptir fædu, minnir mig á, ad himins og jardar almáttugi Skapari einnig forſorgi hann, og kémur mér til ad blygdaſt fyrir mína trúarleyſu. O! látum oſs þá med athygli ſkoda Guds undrunarverdu ſtiórnun; látum oſs glediaſt af þeirri lucku, ad vera undir veldi þeſs Guds, ſem ríkur er af vísdómi og nád! hvorſu ómetanleg er mér ſú lucka, ad eg má þora ad ſetia á hann mitt trúnadar-trauſt, og

 

vænta alls góðs af hans hendi. Hvørsu mikilsverdt má eg þad álíta, ad þessi Gud er minn fyrir Jesúm forlíktur fadir, hvøriumeg med sonarlegri diørfúng fela má øll mín efni á hendur! og hvørsu dýrmæt er ei sú huggun, ef eg hefi af yfirvegun hans eginlegleika? Gud er almáttugur: hans armleggur mun því aldrei vera ofstuttur til ad hiálpa mér og útryckia mér af øllum háskasemdum. Hann er alvís: hann veit því og þeckir øll þau bestu medøl og vegi, til ad efla mína luckn. Hann er allstadar nálægur: eg finn hann því hvar sem eg er, og í hvørium hellst kríngumstædum, sem eg er staddur, reyni eg hann ad vera máttugann hiálpara, sem bænheyrir mig. Hann er réttlátur, því lætur hann mér ei ólaunad, þegar eg med trúlyndu hiarta ástunda ad hlýda hans bodum. Hann er eilífur: því má eg á øllum tímum, setia óhult og óhvikult traust til hans. Eilíflega vertú lofadur, nádar-ríki Gud! fyrir þessar hugganir! leid þú mig æ fram í stødugri hlýdni vid þig, svo eg sífellt megi glediast vid þína Guddóms eginlegleika og fullvissuna um þína fødurlegu forsión; þad sé mín ánægia ad yfirvega þá, ad dást ad,

ad, og hughreystast af þeim og undir eins ad láta þá leida mig til dygdanna æfíngar! géf ad eg sífellt í öllum mínum athöfnum minnist þín og þinna bodorda, já, daglega minnist þinnar nádarfullu forsíónar og handleidslu á mér, og þarmed áfýsist ad géfa mig aldúngis í þína þiónustu svo eg verda mætti þín eginleg eign um alla eilífd. Amen.

## XIII. Hugvekia.

Nú Israel, sagdi Móses: hvad krefur Drottinn þinn Gud af þér, nema ad þú óttist Drottinn, gángir á öllum hans vegum, elskir hann og þiónir Drottni Gudi þínum af öllu þínu hiarta, og af allri sálu? 5. Mós. b. 10.

Varla er nockurr svo hardsvíradur og óbeigianlegur ad hann ecki hræra megi og vinna med velgiörníngum. Velgiördirnar mýkia jafnvel skynsemdarlaus dýr; en forherdtur syndari lætur einn ecki skipast vid nockra gædsku, ecki hræraft af nockurri vinsemd, ecki ladast af nockru fyrirheiti, ecki vinnast med nockurri gáfu, og ecki leidast til ad elska Gud, med nockurs slags vidleitni. Manneskian



ian er jafnvel enn óþacklátari vid Gud, enn vid sinn líka, hverium hún ætti eitthvad gott ad þacka. Madurinn þyggur fæduna af Skaparanum, sem nærir hann, nýtur jardarinnar á hverri hann gengur, liósins, sem lýsir honum, sólarinnar, sem vermir hann, og allra þeirra gæda, sem hann finnur í sér eda kríngum sig, engu ad sídur hatar hann sinn Skapara, og virdir lítils fyrir allar hans velgiørdir. Sierdu þig nú ei siálfa, mín sál! í þessum spegli? eda finnur þú þig enn nockud hrærda af velgiorníngum þíns Guds? ertú þá hlýdin hans røddu og þacklát fyrir alla hans gædsku? hafa þíns Guds velgiorníngar, og hans nýiar og nýiar nádar-veitíngar, á sérhvørium degi svo unnid á þínu hiarta, ad þú létir þarvid leidast til ad elska þennann mildirika Gud og þióna honum? o! hvørsu margir af þínum lífdøgum vitna nú á móti þér? hvørsu margir og miklir velgiørníngar hans mega láta þig blygdast þitt egld vanþacklæti? o! hættú, hættú nú lengur, ad breyta svo gálauslega; hættú vísvitandi ad módga þann framar, sem veitti þér svo margt og mikid gott, sem lét þér sína gædsku í té, eins ád-

ur

ur enn þú siálf hafdir vit edur orku til nockurs góds; hættú ad launa gott med íllu, kiærleika med hatri, umburdarlyndi med þverúd! Gud hefir allt þad veitt, er til þinnar sáluhiálpar vidþarf, hann hefir gefid þér allt, sem þér er hentugt til luckú, já, enn þá meiri og eilífa farsæld hefir hann þér fyrirbúid, en krefur þó eckert annad af þér enn kiærleika og þacklátsemi; mun þad heyrilegt ad neita honum um svo siálfsagda skyldu? mun þad heyrilegt ad láta hann jafnvel vanta þá þock, sem þú krefia mundir af ødrum fyrir veittann lítilsverdann velgiorníng? Því skyldir þú ecki elska hann, sem allt gott hefir til ad bera, og verdugastur er elsku af øllum? dagurinn, sem þú nú lifdir í dag, minnir þig á þessa inndælu skyldu, á kiærleikans og þacklátseminnar luckusælu skyldu; æ! láttu þig ei forgéfins hér um áminna, heldur uppvekia til ad elska nú héreptir, um fram allt þinn Gud, sem er vera verdugust elsku, og ad þacka þessum gódgiarnasta velgiørara! O Gud! fyrirgéfdu, ad eg híngad til hefi svo hyrdulaus verid um mínar skyldur vid þig; eg hefi ødrum framar audsýnt þér vanþock og kiærleiksleysi, en þad er

 nú



nú, minn einlægur áſetníngur ad elſka þig og þacka þér framar enn adrir. Eg vil láta mig ſannfæra af yfirvegun þíns kiærleika. Láttu ecki þad oþacklæti, ſem eg híngad til hefi í frammi haft vid þig, olla því, ad þú hér eptir ſviptir mig þínum velgiordum, heldur líttu í nád til þeſs áſetníngs, ſem eg um alla ókomna æfidaga ſkuldbind mig til ad framqvæma. Þad ſkal æ vera mín óriúfanleg ſkylda og inndæl gledi ad príſa þig med mínum líkama og med minni ſálu, og ætíd ad medtaka þínar velgiordir med þacklátu hiarta!

## XIV. Hugvekia.

Var eg í dag ſá vera ſkyldi? vitna þad mitt hiarta í qvøld! ávann óþreytt míns Guds mildi mig ad fordaſt glæpa vold? æ! eg blygdaſt, auga þitt, alſkigni! ſier dagfar mitt, æ því giorr þad yfirvega, æ því meir eg ſylliſt trega.

Í hvílíkri blindni hefi eg ecki híngad til lifad, undir hvílíkri yfirdrottnun minna tilhneigínga, hefi eg ei híngad til mátt andvarpa! en o! hvørſu farſæll hefdi eg þó verid, ef eg fyrr hefdi yfirvegad mitt auma áſtand og ſied hvar eg

var

var ad kominn; en, því midur! eg géck fram í dárlegri gledi, fann ecki til þeirrar samvitsku nøgunar, sem eg mátti búast vid, ecki til þeirrar eymdar, sem undirokadi mig, og gleymdi þeirri spillíngu og þeim voda, sem eg steypti mér í; þó eg enga lucku findi af lastanna æfíngu, leitadi eg þó med þeim farsældar, sem allt af flúdi mig; eg reyndi hvørsu fallvalt og skammvinnt allt útvortis eptirlæti var og þó leitadist eg vid eins ákaft ad ná því, og þó eg aldrei hefdi átt ad missa þad. O! ad þessi qvøld-stund yrdi mér sú lucku-stund ad eg tæki nú fyrir mig ad yfirgéfa lastanna veg, á hvørium eg híngad til forgéfins leitadi ad rósemi og lucku. O! ad eg lærdi ad þeckia ad vilji eg vera luckulegur á jørdu, verd eg ad elska og vardveita heiløg bodord míns Guds! o! ad hans Andi sannfærdi mig um þad, ad því framar, sem eg leita mér rósemis í løstunum, því framar eykst mín órósemi; því hvøria ánægiu má sú sála finna, sem vantar góda samvitsku, og sá er þo ávøxturinn af gálausu líferni? lát þér þad vel skiliast, sála mín! ad øll ólucka er í løstunum fólgin og øll lucka þar á móti í dygdanna æfíngu. Lát þad ei

villa



villa þig, ad þeim gudlausa lídur áſtund-
um vel. Þeſſi vellídan hans og munad-
ur hverſa ſkyndilega, af allri hans ánæg-
iu er, innan ſkamms eckert annad eptir enn
ángur og ørvínglan; o! hvørſu fráleitt,
hvørſu gagnſtædt er þar á mótt áſtand
þeſs gudhrædda; hann blómgaſt eins og
tré, ſem plantad er á vatna-bøckum,
hvørs blød viſna ecki, hans gledi hverfur
ecki, hans ávøxtur verdur ecki ad engu,
hans hrós er allt eins varanlegt og hans
lucka, og hans nafn er innſkrifad á líff-
-ins bók. O! þú allra heilagaſta vera!
þegar eg yfirvega þeſſa lucku, fylliſt eg
heilagri gledi, æ! láttu þína nád leida
mig, ſvo eg nióta megi þeſſarar farſæld-
ar. Eg er þeſs fullviſs ad mín lucka í þeſſ-
um og ødrum heimi, er undir því komin
ad eg med trún og einlægu hiarta vandi,
ſem beſt líferni mitt. O Gud! gef mér
nád til ad þeſſi fullviſſa, ſtiórni fram-
vegis mínum vilia, ſvo ad eg alvarlega
leiti þeſſarar lucku, og virdi hana miklu
meir enn alla jardneſka farſæld, ſem opt
er einberr draumur og opt ad meſtu inni-
falin í einberri ímyndun; haf ſífelda gát
á mér, mildiríki Fadir! ſvo eg villiſt ecki
á ný á ſyndanna háſkaſomu afvegu; vard-
veittu

veittu mig fyrir þeim tálsnörum, sem leggiast í veg fyrir minn góda ásetníng. Styrktú mig í strídinu á móti syndinni og þessa lífs ginníngum, en þegar eg skeika, þegar mig hendir sá veikleiki ad syndga móti þér, æ! vorkénndu mér þá af miskun og födurlegu umburdarlyndi, og minnstu í nád á mitt dupt; fullkomna þú þitt biriada góda verk í mér, svo eg ad lokunum megi úr bítum bera kórónu réttlætisins; farsæll, óútmálanlega farsæll verd eg þá, þegar þú eins í þessum heimi virdist ad vera med mér og mér allt í öllu, eins og þú í himninum munt verda mér þad um allar eilífdir!

## XV. Hugvekia.

Erum þúnga hvorr svo heldur himinkroppa
jafnvígt í? lopt þú skópst, hvorr veit hvad
veldur, verold lídur fram í því? mid hvorr
sólu setia réd, svo vísdómi' og dásemd med,
ad yl og birtu senda sinni' sól. veröldu' og
fridsgun kynni?

Hendanlegur Gud er sá, sem giörir allt þetta; hans hönd hefir tilbúid himininn og sólina og afmarkad stiarnanna veg, af honum og fyrir hann eru allir



allir hlutir; þetta er sá þánki er sálu minni ætti aldrei úr minni að líða, svo opt, sem eg sie himininn og himnanna her; þetta er sá þánki, sem eg offra þeim æðsta heimsins stiórnara, þegar eg íhuga hans dásemdir og lypti mínum augum upp til himins, og upp til þeirrar Guddóms veru, hvörri einúngis ber dýrkan og tilbeiðsla. Hvört fæ eg litið; án þess eg finni siáanleg kénni-teikn hans allstaðar nálægðar, og megi þarvið uppvekiast til að prísa hans dírðarfulla náfn? siálfur er eg og hvör ein manneskia augliós roksemd hans almættis og gæðsku. Jörðin og allt hvað á henni finnst, er verk þessa haga og alvísa meistara, og himnarnir sömuleiðis hans almættis verk. Þessir dásömu himinkroppar, hvöria mín augu siá yfir mér áfram líða á svo reglubundinn og hátignarfullann hátt, og á móti hvörium öllum jarðarhnattarins stærð er ei meiri að reikna enn eitt sandkorn, sýna mér augliósslega hans Guddóms hátign; hvörr baud sólunni að stiórna deginum, og túnglinu að lýsa nottunni: hvörr gaf stiörnunum tilveru og nöfn? hvörr nema hann, sem er Skapari allra hluta og á því af öllum að tilbiðiast?

jafn-

jafnvel eg er eitt af því undrunarverda, sem hans óendanlega almætti hefir af jördunni framleidt; svo lítilmótleg sem mannskèpnan er, þegar hún jafnar sér saman vid adrar stærri Guds skapadar skèpnur, er hún þó svo stór, ad hún má allt eins vel hrósa sér af því, ad vera handaverk síns Skapara og adrar hans skèpnur. Ad sönnu má þad furdanlegt virdast ad svo mikill og máttugur Gud og svo vilji minnast mannskèpnunnar, sem ecki er annad enn dupt, og fleckar þaradauki svo tídum þetta dupt med misgiördum; ad sönnu má eg med ótta upplypta mínum augum til hans, sem er sú fullkomnasta og dírdlegasta vera og uppspretta allra fullkomnunar; en þá eg þenki til hans, hvörsu mikid eg hefi hans Syni, mínum frelsara ad þacka, o! hvörsu mikilsverda sie eg þá ecki mannëskiuna álitna í hans augum! Í þessa þíns eilífa Sonar nafni tilbid eg þig þú allra hluta Skapari og Fadir! eg veit ei betur ad helga nockurn dag, enn þegar eg med giörvallri sálu skoda þína hátign og nád; æ lát því tilfinníngu þinnar almáttugu gædsku verda jafnan lifandi hiá mér, og hnegia minn vilia til þíns

ótta,



ótta. Þegar dramb og oflæti taka ad villa mér sjónir lát mig þá minnast á þína hátign, svo mun skiótt minn dárlegur sérþotti og hroki hiadna; þegar mitt traust á þér tekur ad veiklast æ! minntu mig þá á þitt almætti, sem sameinad er óendanlegri gædsku. Þegar eg freistast til syndarinnar hlýdni, settu mér þá fyrir sjónir þína heilögu og skélfilegu hátign, hvorrar íhugan jafnvel skélfa má þann fleckminnsta af veikum mannsképnum; verdi eg ómiskunsamur og kiærleikslaus vid mína medbrædur, settu mér þá fyrir sjónir þá ómetanlegu velgiorninga, sem þú daglega audsýnir mér, svo óverdugur sem eg þó er; kénn mér ad minnast med lotníngu þinna Guddóms eginlegleika, og þannig ad gaumgæfa og hagnýta mér þau miklu verk þinna handa, ad eg med minni adferd ei vanvirdi þína hátign. Allt hvad eg sé á himni og á jördu, leidi mig jafnan til þín; í öllu verdi þitt heilaga nafn vegsamad af mér! þanninn læri eg ad búa mig undir þá lucku, sem mér er geymd í eilífu og sælufullu lífi, hvar eg skoda mun án enda, undrast og tilbidia þína óumrædilegu hátign.

XVI.

## XVI. Hugvekia.

Vèr hofum hèr engann varanlegann samaſtad, leitum þvíhins, ſem hèr fyrir ofan er. Ebr. 13.

Hvad er vort líf annad enn ólgufullt haf, á hvoriu vèr allt af qvída megum bylgianna áføllum? vort áſtand umbreytiſt á hvoriu augnabliki, og ſú breytíng ablar oſs ſífellt nýrrar óróſemi; forgéfins leitum vèr varanlegs ſamaſtadar hiá ſképnunum, er vèr ſiáum oſs ſífellt neydda til ad hríſa oſs lauſa frá þeim; þegar vèr þykiunſt fundid hafa hvíldarſtad, megum vèr ſkiótt þreyta nýtt hlaup; allt forgengur og allt eydiſt fyrir vorum augum. Mikill hluti af þeim lifanda heimi, ſem vèr ſiáum, þegar vèr komum inní hann, er nú ecki til framar. Nýiar perſónur eru framkomnar á ſkodunarplátſid, og búaſt nú þegar undir ad yfirgéfa þad aptur; fátt í þeſſu lífi gengur oſs ad óſkum; þad, ſem vèr elſkum, flýr oſs, þad, ſem vèr óſkum oſs, odlunſt vèr ecki, en þad, ſem vèr óttunſt, hittir oſs. Aldrei erum vèr fullkomlega farſælir. Sé luckan oſs brosleit breſtur opt heilſuna. Séum vèr heilbrygdir er luckan opt á móti oſs; ſéum



vér lærdir, hofum vér opt umsvif, sem hindra vorar ydnir; séum vér fáfródir, erum vér forsmádir; séum vér í metordum, erum vér ofundadir, og hvorsu óstodugt og hvikult er þá ecki vort hiarta! á þessu augnabliki hofum vér þann ásetníng ad þióna Gudi, og á næsta augnabliki er þessi þánki þegar gioreyddur, af þeim hlutum, sem kríngum oss eru í heiminum; hér er sífeld umbreytíng allstadar, og von og qvídi, gledi og sórg, hatur og kiærleiki skiptast ydulega til; varla erum vér nockurt augnablik siálfum oss líkir, heimskulegar tilfinníngar og tilfelli orsaka sífeldar biltíngar á hogum vorum, og sú er manneskiunnar stutta lífssaga. Þannig er lífinu varid til þessa, og þannig mun því varid hér eptir, því ámedan vér lifum á jordunni, mun hégóminn og óstodugleikinn verda vort sífelda hlutfall; máské ad heilsan, sem vér nú niótum breytist til morguns í daudleganu siúkdóm; máské sú rósemi, sem nú gledur oss, hverfi á samri stundu; máské sú von, sem nú eykur vora kiæti, sé nú þegar brotin; máské oll sú lucka, sem gledur oss nú, sé horfin fliótar enn draumur. Hvorr veit hvorsu margar ógéd-

felld-

felldar umbreytíngar liggia kunna bráðlega fyrir oss? hitt er víst, ad vér, medan lifum, gétum ei vœnt annars enn þess, sem dagleg reynsla sannar og kénnir. Allt í heiminum er eintómur hégómi, innann nærsta dags enda edur enn þá fyrr, má vor egin reynsla máské sanna þad med Salómone. Æ! því elskum vér þá svo dárlega hégómann, og útveljum þad óstodugа í þessum heimi án yfirvegunar? en siálfa oss fríum vér frá morgu andstreymi, ef ad vér brúkum heiminn og heimsins hégóma í hófi. Vér gætum þá verid ánægdir og rósamir vid sérhvor óþægileg tilfelli lífsins, og óstodugleiki jardneskra hluta fengi aldrei hiá oss ollad svo mikillar óróssemi, ef vér ætíd hefdum himininn oss fyrir augum, hvar enginn hégómi, engar lífsins mædusamar breytíngar eru til.

## XVII. Hugvekia.

Min sál bídur eptir Drottni, hann er vor hiálpari og vor skioldur. Psálm. 32.

Til ad losa mig vid þessa lífs óróssemi og dárаskap, finn eg óhultasta medalid ad afhenda mig oldúngis á vald og



vilia Guds; hvorr er sá Drottiun, hvørs vilia og valdi eg afhendi mig? þad er sá almáttugi Gud, sem megnar ad giøra enda á øllum mínum sorgum; med einu ordi: sá sem hefir medøl nóg, ráð og vilia, til ad bæta mér allt þad mig vantar; umbreyta allri minni áhyggiu í vissa von, og ryckia mér út úr øllum háskasemdum. Eg missi því eckert vid þad, þó eg reidi mig á hann, sem veit hiálp og ráð, svo opt, sem mér áliggur. Þad, sem mønnum sýnist ómøgulegt, er hans almætti andveldt, og því vanmáttugri, sem mannanna hiálp reyniſt, því vissari er hans hiálp, því øblugari hans adstod, svo eg megi alls góds af honum vænta, en setji aldrei mitt traust á veikar mannsképnur. Þessi Gud er og alvís, hvørs vilia eg óqvídinn undirkasta mig, hann hefir ætíd sinn vissa tilgáng, med allt, sem hann lætur mér mæta í hvøriu helst standi, sem eg er, og þó þessi tilgángur sé mér ei kunnur, er þad þó víst, ad hann er bædi réttvís og gódur svo mér ber ánægdum med hann ad vera. Um hann má eg ecki dæma eptir mínum veikleika og litla skilníngi; eg sie ad sønnu ecki ætíd hvørt þeir vegir, sem hann vís-

ar





ar mér á, munu leida mig, en þared hann hefir mér þá greidt og búid, er mér óhætt á þeim ad gánga. Stóri Gud! því skyldi þá ei min sál afhenda sig í þitt vald? hvad má eg óttast, þegar eg í øllum hlutum reidi mig uppá þig! ámedan eg híngad til vildi siálfur ráda yfir mínum kiørum og tilfellum, ámedan fór eg allt villur vega; afdrifin hafa aldrei sambodid mínum óskum eda fyrirtæki; alls eckert gott hefi eg af því haft, en þarámót daglega orsakad mér gremiu og andstreymi; þegar eg leitadist vid ad verda óhultur, bió eg mér siálfum fordiørfun; þad, sem eg áleit mér stod og styttu, vard mitt fall. O! minn Gud! hvorsu miklu óhultari er eg þá, þegar eg einúngis læt þig ráda og þegar eg giøri ecki annad enn þad, sem þér vel þocknast! nú skal eg síst enda þennann dag eins og eg híngad til hefi endad svo marga minna lífdaga; eg vil lifa rólegur og vel ánægdur, og því ecki leggiast í výl og áhyggiu, heldur fela mig þinni fødur-hendi, þú almáttugi! eg vil sleppa øllum ótta, varpa allri minni áhyggiu í þitt skaut, og ecki qvída komandi tíd, eda vera hugsiúkur hennar vegna, nema samstemmandi þínum

 bod-



bodordum. Í diúpustu lotníngu vil eg fyrst yfirvega þinn náduga tilgáng og vilia med mig, og sídan án moglunar fela mig honum á vald, án þess ad hallmæla honum; mig og allt hvad mér vidvíkur vil eg afhenda þinni stiórnun, svo mun mín rósemi og mín lucka verda fullkomin.

## XVIII. Hugvekia.

Sá, sem yfirvinnur, mun erfa alla hluti: eg vil vera hans Gud, og hann skal vera minn sonur. Opinb.b. 21.

Skyldi eg ecki þacka honum, sem hefir géfid mér lífid, fyrir þad, ad hann enn þá lét mig lifa þennann dag, skyldi eg ecki prísa hans nafn, þess liósins fodurs, fyrir hvors nád eg sied hefi þessa dags liós, því jafnvel þó þetta líf sé svo stutt, tíd einn dagur, ein vika, eitt ár, sé valla teliandi, jafnvel þó þad mannlega líf sé uppfyllt med svo mikla mædu, óró semi og sorg, ad telia megi því lengra, sem þad er, þess fleiri þiáninga og mótlætinga stundir, hefi eg þá nóga orsøk á hina sídu na, til ad álíta sérhvorn dag, sem Guds nád unnir mér, svo sem sérlega blessun; hvad eru ecki þessa heims jardnesku gædi,

sem

sem giøra mig luckulegann! hvørki metord, ríkdómur né gódir dagar géta ollad minnar sálar róſemi, nema eg undir eins hafi góda samvitsku, viti mig fríann af íllgirnis syndum og lifi gudrækilega, því eckert annad má géfa hiarta mínu róſemd, án hvørrar engrar farsældar er þó ad vænta; skyldi eg þá øfunda þá, sem gleyma Gudi, þó ad flest í heiminum gángi eptir þeirra óskum, því hefndin mun þó alltaf fylgia þeim, og þeir midt í sinni gledi nagast af samvitskunnar áklögunum. Nei! eg vil ánægdur vera med þau minni gædi, sem Gud hefir mér unnt, sem þó eru lángtum meiri enn eg hefi forþénad. Giarnan vil eg fara á mis vid margsslags ánægiu og hægd, allskonar mótlæti vil eg bera med gódu og þolinmódu gédslagi, þegar eg einúngis ecki þarf ad óttast áklögun minnar samvitsku. Endurminníng gódra verka, fullvissa um Guds hylli, von um nádarríka umbun, þessi ómetanlegu gædi vekia þvílíka gledi í minni giørvallri sálu, ad eg ecki mundi skipta þeim eitt augnablik, vid heimsins dýrmætustu fiársiódu. Þó eg á stundum lídi skort, veit eg þó, ad eg má vænta mér óútsegianlegra

 nægta;



nægta; þó eg af drambsömum verdi foraktadur, sie eg þó fyrirfram ad sú kemur tídin, þá jafnvel hinn minnsti hluti þeirra metorda, sem eg nun nióta, endurgéldur mér ríkuglega alla heimsins vanvirdu. Þó ad mig umkríngi ótelianlegar plágur, munu þær þó umbunast med ómælanlegri gledi, sem eg á sídan nióta mun; sé sá ve[illegible]ur mér ólióſ, um hvörn mínum Gudi [illegible]ocknast ad leid[illegible] mig, mun þó sú kom[illegible] [illegible]vin, á hvörri eg prísa og undrast [illegible] þessa Guds huldu vegleidslu. [illegible]ar mótlætingar mega þá mæta mé[illegible] [illegible]er í heimi, í hvörium góð samvitsk[illegible] og örugg trú ecki géti gefid mér ánægianlega huggun? því þygg eg, o Gud! þá velgiörninga þína, sem unna mér lengra lífs og fleiri heilla, án sorgar og vøls, þared eg metid hefi lífsins ördugleik[illegible], og [illegible]ledi ánægiufulls hiarta hv[illegible] ödru, og fundid þessa gledi[illegible] [illegible]g[illegible]miklu meira enn allt hitt. [illegible] þ[illegible] a því audmiúkur þennann dag[illegible] [illegible]ormætu tíd, hvöria eg hefdi [illegible]a til undirbúnings undir ei[illegible] [illegible] Lát mig æ eyda mínum dög[illegible] undir þinni nádugu vegleidslu og [illegible]örnun; en lát mig öllu framar aldrei

gleyma

gleyma, hvørs vegna þú gafst mér lífid, brúka þad eptir þínu ordi og vilia, og audsýna med øllum mínum athøfnum ad eg sé fullkomlega sannfærdur um mína áqvørdun til þess eilífa lífsins.

## XIX. Hugvekia.

Veitstu best, Drottinn! van[illegible]t manns, veitstu best orku freistarans, v[illegible] [illegible]pi herskrúda vill hann ná, vor merkis-ma[illegible] [illegible]rtú þá, í oss strídandi ebl vort rád, [illegible] svo fáum sigri nád.

Þad er bædi tilhlýdilegt o[illegible] [illegible]rla naudsynlegt ad eg á hvør[illegible]m degi, minnist þeirrar miøg svo árídandi skyldu, sem hvørr kristinn á ad vardveita til þess ætíd á ný ad upphvetiast æ betur og betur til ad ástunda hána; en hvørsu fæ eg hana uppfyllt, ef eg ecke fyrirfram fæ þeim hindrunum a[illegible], sem giøra mér minnar skyldu u[illegible]pfy[illegible] [illegible]gu ómøgulega, og hvøriar hindranir [illegible] sterkari og fleiri, sem hér liggia i [illegible] mér, enn mitt egid hiarta, [illegible] leika til ad mótstanda freistingu[illegible] þecki, finn og qveina svo sárt yfir? hvø[illegible] opt hélt eg mig ei nógu sterkann til ad mót-



mótſtanda ſyndarinnar táldragandi tillockunum, en eg vard á ſamri ſtundu aumkunarlega yfirunninn, og aldrei fiarlægari ſigrinum yfir mínum girndum, enn þegar eg, eptir heimſkn minni, þóktiſt vera honum ſem nálægaſtur; hvørſu miøg fyrirvard ecki mitt hiarta ſig, þegar eg fann þeſs veikleika, og þau fiøtur og bønd, med hvørium lyſtin til þeſs illa hafdi mig bundid? Eg ſá á ný þenna óvin lángt frá mér, géck honum med ſtødugglyndi á móti til ad fá hann yfirunnid med nýiunn hetiu-móð, en fyrr enn til þeſs kom, vard eg fángadur í þeim ſnørunum, ſem lagdar vóru í veginn fyrir mitt vareygdarleyſi, og eg vard á ný hertekinn af þeſſum mínum ſigrara. O! hvørſu blygdaſt eg nú vid þetta í hiarta mínu, og hvørſu oluckulegur hefdi eg lokſins ordid, ef ecki ſú obluga hetia af kyni Júda hefdi frelſad mig frá daudanum. Skyldi eg þá hédan af á ný verda þeſſum mínum Frelſara og ſáluhiálpar høfundi ótrúr, þó mig koſti þad baráttu, vegna míns veika og óſtødunga hiarta ad vera honum ſtøduglega trúr? hvad hiálpar mér ad keppaſt eptir líffins kórónu, hvørri eg ſiálfur fæ þó ecki nád vegna míns vanmættis?

mættis? hvad hiálpar mér ad sporna vid því vonda, ef ad þad engu ad sídur dregur mig med sér? hvad nota mér øll mín dygdugu fyrirtæki? hvad gagnar allur minn ásetníngur til gudrækilegra athafna, þegar ein lítil hreifíng minna syndsamlegu girnda kollkastar þeim grundvelli, er eg vildi reisa á nýrrar gudhrædslu-byggíngu? Vertu þó engu ad sídur óhrædd, óqvídin og hughraust mín sál, þú hefir þegar unnid mikid, þegar þú kannast vid þitt vanmætti; ad þú svo þrálega fallid hefir, kémur af því, ad þú ránglega ætlndadir þér ad þú fengir stadist med þínum egin kroptum. Þú ert veik og þess vegna þarftu hiálpar vid og hana fær þú, bidjir þú alvarlega um hana; líttu til hans, sem betalad hefir fyrir þínar syndir, þinn Jesús hefir siálfur verid freistadur, hans alvitska og nærgætni þeckir tillockananna mátt, freistínganna hættu og strídsins ørdugleika; mundi hann þá ecki hafa medaumkun med þér? jú sannarlega mun hann þér vorkunsemi veita. Giør þú mig, liúfi Lausnari minn! æ meir og framar fullvissann um veikleika míns hiarta, en ásamt um þad, hvørsu reidubúinn þú ert

ad



ad styrkia mig í ollum freistíngum, þá skal eg aldrei láta mér hugfallast, heldur svo lengi sem eg lifi, strída í trausti þíns guddómlega kraptar; þá mun eg lokst ins fyrir hiálp þína og adstod sigurinn efalaust úr bítum bera.

## XX. Hugvekia.

Taktú vara á þeirri hentugu tíd, og vara þig fyrir því vonda, svo þú ei verdir til skammar. Syr. 4.

Vort líf á jørdunni er vidvarandi furdu-verk guddómlegrar miskunar. Tídin á hvørri hann unnir oss þessa veika lífs er áþreifanlegt merki hans gædsku. Í oss og voru holdi býr ecki einúngis eckert gott, heldur høfum vér drýgt margar syndugar athafnir, med hvøriu vér verdskuldad høfum réttlátann dauda-dóm; svo opt sem vér brotid høfum guddómleg bodord, svo opt hefdum vér verdskuldad lífid ad missa, en þessi tími er enn nú ómetanlegur Guds velgiørníngur fyrir oss, þar hvørt eitt augnablik, sem vér lifum, er ný nád, sem Gud audsýnir oss, enn þá undandregur hann vora fordæmíngu og dauda-dóm, til þess

ad

ad unna oss frest til ad brúka betur þad líf, sem vér svo ílla høfum framdregid híngad til. Ad eyda þessari tíd ónytsamlega og syndsamlega, væri ad vanvirda Guds óendanlegu gædsku, væri ad briota af sér hans nád, væri einskis ad virda eilífdina. Hvílík fásinna er þad þá ecki, ad vilia ecki brúka vel svo dýrmætann hlut, sem lifid er, ad vér vilium eyda til einskis tíd vorri, þarmed setia vora eilífu velferd í vogun í syndanna skammvinnu gledi, og láta vora von um ódaudlegleikans fullsælu, hverfa burt frá oss eins og reyk; enginn er sá dagur, enginn sá tími, eckert þad augnablik, sem et sé oss markverdt og árídandi í tilliti til eilífdarinnar; einúngis eitt tapad edur eydt augnablik, mætti því vekia lángtum stærri sorg hiá oss, enn þó vér mist hefdum mikla lucku; og þó er þessi dýrmæta tíd optlega fyrir oss leidinleg; allt vort líf er eckert annad enn viddarandi ástundan ad spilla sem mest gétum tídinni. Vora þénustusemi sýnum vér vinum vorum, vora velgiorninga þeim, sem vér elskum, en vora tíd géfum vér svo ad segia hvorinum sem hafa vill. Svo athugalauslega, svo hirdulauslega, já, svo dýr-



dárlega förum vér med þá dýrmætustu gáfu, sem Gud hefir oss veitt. En egum vér þá sífellt ad þurfa ad giöra þessa umqvörtun yfir siálfum oss? skulum vér enn þá lifa lengi, án þess ad vita hvörs vegna vér lifum? egum vér enn þá framvegis til einskis ad eyda tídinni, um hvörrar miklu nytsemi, vér þó erum svo sannfródir? á nú ecki þessi stund enn þá ad vekia hiá oss betri þánka? o Gud! þín nád vardeiti oss fyrir þeirri ólucku, sem verda má uppsprettа og orsök til vorrar eilífu óhamíngiu! vér megum loksins biria ad reikna þá tíd, sem vér þegar útsóad höfum, og hugleida þá daga, sem enn eru fyrir höndum. Hvört, sem tala vorra komandi líf-daga er stór eda smá, erum vér þó í hvörutveggiu tilliti óluckulegir, ef vér brúkum þá illa; ef vér lifum enn þá lengi hér eptir, og eydum tíd vorri syndsamlega, aukum vér þar med vora fordæmíngu; egum vér ecki eptir nema skamt ólifad, kunnum vér voveiflega og varbúnir ad framleidast fyrir þann dómstól, hvar vér svara egum reikníngskap fyrir þad, hvörnig vér brúkad höfum tídina og vort líf. O! eilífi Gud! géfdu oss vísdóm, til ad efla vora sáluhiálp,

og

og kénn oss ad brúka alla vora daga, tíma og augnablik til þessa mest áríðanda augna-mids.

## XXI. Hugvekia.

Væntú æ daudans, vinur kiær! vonum framar hann stendur nær, vid hvorn dag þenki hugurinn þinn, hann mun verda sídastr minn.

Ad morgni dags, þegar vér liúkum fyrst upp augunum, egum vér strax ad hugsa til þess tíma, þá þau munu seinast apturlykiast. Því skyldi eg nú, hugsar sá úngi, þar eg valla er enn þá kominn inní heiminn, hriggia siálfann mig med endurminníngu þess tíma, á hvörium eg aptur á heiminn ad yfirgéfa? þó, þegar eg yfirvega hvörsu nálægt lífid er daudanum, og hvörsu voveiflega hann kann ad yfirfalla mig, er ecki annad mögulegt enn ad sameina daudans umhugsun med lífsins. Ecki þarf meir enn þad eina tilfelli, sem allbúid vera kann mér, nefnilega: ad minn vidskilnadar tími kunni hastarlega ad yfirfalla mig, til þess ad minna mig sífellt á minn dauda-dag. Og þared eg eckert augnablik er fyrir daudanum ó-

hult-



hultur, kann eg heldur eckert augnablik af ad lifa, án þess ad óttast hann, og ætti því ad búast undir hann. Fyrst eckert augabragd lídur hiá á hvøriu daudinn ecki útleidi í hópatali daudlega menn frá lífinu, hvørsu margir mega þeir þá ecki vera, sem á þessu qvøldi qvedia heiminn í sídasta sinni, og giøra nú í qvøld þá sídustu andláts bæn. Þad er því víst, í hvøriu ásigkomulagi, sem eg er staddur, er eckert þad augnablik til, sem ecki kunni ad verda mitt sídasta; eckert þad fyrirtæki í voru lífi, á hvøriu grøfin giøri ei enda; engin sú hátíd, sem máské ei kunni ad endast med líksaungum; engin sú fæda, sem ecki geti ordid ad banvænu eytri; enginn sá svefnhøfgi, sem ei verda megi minn sídasti svefn; enginn sá morgun, sem ei kunni ad afhenda mig í daudans skaut; enginn sá siúkdómur, sem ei geti ordid mitt banamein; hvarmed skal afsaka þá fávísu gleymsku og afskiptaleysi, sem menn lifa í, í tilliti til ens sídasta dags og burtferdar-tíma, máské med úngdóms árunum? en þad eru þó þau, sem menn ættu ad bera hvad mesta umsorgun fyrir, því þau eru háskasamastur tími þess mann-

lega

lega lífs, edur máské madur treysti uppá heilbrygdi sína? en sú hraustasta heilsa er lík neista, sem skyndilega má útslock-vast af minnsta vind-blæ; máské ein-hvørr reidi sig uppá þennann tíma, á hvørium ecki finnst til nockurs meins edur kránkleika; en hvørsu morg Þúsund manneskiur lifa ecki á þessu augnabliki ásamt oss, sem ecki fá nærstu morgun-sól ad siá? það er því í ollu tilkiti um-vardandi naudsynia efni fyrir oss, sífellt ad hafa daudann fyrir augunum, og med Guds nádar adstod ad keppast eptir því ásigkomulagi, sem vér óskudum oss ad vera í, þegar vér egum ad deyia. O! ad þvílíkar daudans hugleidíngar væru sífellt vakandi í minni sálu! o! ad eg þar vid uppvekiast mætti til Guds ótta og mannelsku, og þar af huggun odlast í ollum lífsins motlætíngum! o! ad svo morg dauda-dæmi, sem eg sie og iafnadar-lega heyri, mættu leida mig til þess nátt-úrlegasta af ollum þannkum, og ad eg sé dupt og aska, allteins og allir mínir burtsofnudu brædur! o! ad eg yrdi svo vitur ad eg náqvæmlega yfirvegadi hvad vid minni taka fyrir mér, þegar daudann skyndilega og mér óvorum ad bæri. Því

 vitr-



vitrari, sem eg um þettá verd, því luckulegri verda mínir lífdagar, og því rólegri mín endalykt.

## XXII. Hugvekia.

Hvad hefir þú madur, þad þú hafir ecki þegid, en fyrst þú hefir þad þegid, hvad hrósar þú þér þá, eins og þú hefdir þad ecki þegid? 1 Cor. 4.

Hared sérhvörr dagur leidir þig inn í nýiann reynslu- og freistíngar-skóla, hlýddu þá, mín sála! þeim vísa lærdómi, sem lofa má þér gódum enda á freistíngunum, og einkaulega sinnisins rósemi í öllum þiáníngum; hugleid þá fyrst, ad Gud er þér um eckert skyldugur, og ad þú eptir þinni egin forþénustu ecki kannt annars ad vænta, enn óánægiu, skorts og vesældar. Taktú þar fyrir þessu med rósemd, svo sem því eina, sem þú átt skilid, en álít þad góda, sem þú nýtur, ecki ödruvísi enn ysirgnæfanlega nádar-gáfu; minnstu þess ad gott og íllt, gledi og sorg, hlýtur eptir Guds vísdóms-fullu nidur-rödun, opt hvört ödru sameinad ad vera; berdú þína luckulegu daga saman vid þá óluckulegu, og þá

þá muntú fá það reynt, að þeir síðari erú færri hinum luckusælu. Reiknaðu frá alla þá mótfollnu daga, eins og þeir aldrei hefðu til verið, og reiknaðu þar á móti komandi dagana móti svo mörgum góðúm, sem þú notið hefir. Settú þér áður fyrir siónir margvísleg mæðu tilfelli, sem þér máské kynnú að höndunn bera, og búðu þig út á móti þeim með von og þolinmæði, en gleymdú heldur ecki þeim glöðu augnablikum, sem þú í framtíðinni mátt vænta þér af mildum Guði; yfirvegaðu ætíð, að þitt ástand, hvörsu aumt sem það er, gétur þó orðið aumara. Líktú kiörum þínum samañ við svo margra þinna meðbræðra, og þá muntú siá að þitt ástand er í mörgu miklu betra enn þeirra; hugleiddú það vonda og góða, sem mætir þér, og aðgiættu vel að alls ecki veitst, hvað af því í raun og veru verða kann þér að skaða, því jafnvel það, sem þér kann að virðast skaðlegt, gétur orðið þér fyrir bestu. Láttú þér loksins til hugar koma þinn dauða, sem giöra mun æskilégann enda á öllum þínum þreyngíngum, og króna þitt stöðuglyndi, með óendanlégri farsæld. Þessar hugleiðíngar skulu með

 

Guds hiálp meir og meir upphvetia þig til þolinmœdi, og leida þig í þad ástand, ad þú gétir ánœgdur verid med øll þau tilfelli, sem þinn himneski fadir lætur þér ad høndum bera, en þolinmœdin mun ecki einúngis hiálpa þér til ad lifa í vinfengi og ró vid alla menn, og til ad yfirvega og framqvœma allt hvad þú tekur þér fyrir hendur med tilhlýdilegri umhyggiu og ánœgiu, heldur mun hún og giøra jafnvel þau sorgleguſtu tilfelli þér léttbær, og ad minnſta koſti þolanleg. Ottaſtú því ecki nockra adra ólucku, enn þá ſtórkoſtlegu og ſannkolludu, nefnilega: þíns Skapara og velgiørara ónád, og koſtadu því kapps um ſvo ad lifa, ad þú æ viſs verdir, um hans miſkun og nád; hvad mun þá annad géta ollad þér óróſemi, hvad hriggt edur þiád þig? þær meguuſtu pínur eru eckert, því þær leida þig enn nær þeirri ánœgiu, ſem innifalin er í vidvarandi og óútmálanlegri ſinnis róſemi. Hvad er fátækt nema eckert, þegar þú yfirvegar þann ríkdóm, ſem Gud hefir geymt þér í því komanda líſi; hvad er heimſins vanvirda nema eckert, þegar þú yfirvegar þá æru og velþócknun, ſem þú ødlaſt hiá Gudi; hvad

er

er lífid siálft nema eckert, þegar þú jafnar því saman vid þad sælufulla líf, sem þú átt fyrir höndum í himninum? já, daudinn siálfur er eckert, þegar þú ert ordinn víss um þad, ad hann er birinn til óendanlegs og betra lífs.

## XXIII. Hugvekia.

En, vor Borgar-réttur er á himnum, hvadan vér væntum Frelsarans Drottins vors Jesú Krists, sem mun um-minda þann líkama, sem vér í þessari vorri lægíngu berum, ad hann líkur verdi þeim líkama, hann í dírd sinni hefir. Philipp. 3.

Nu hvörium degi mætti þad vera fyrir vorum hugskots-siónum, hvörsu vor náttúra er veik, og vor líkami vanfær; ecki er annars ad vænta, enn ad vér á stundum hrigglunst af því, þared vér megum álíta þennann vorn náttúru veikleika, sem helstu orsök vorra bágborinu lífs-stunda; vor andi býr í þvílíkum líkama, sem nær því daglega minnir oss á, ad hann sé ecki annad enn hrörlegt hreysi, sem í dag fá kunni áfall, en á morgun vera fallinn, ellegar um hvört óttast megi, ad þetta hreysi undir eins og á-

 fall-



fallid tilber hrinji í grunn nidur. Svo opt vér endurnærum oss med mat og dryck, svo opt, sem vér máttlausir óskum oss rólegheita, svo opt, sem vér finnum til nockurs meins edur þiáningar, svo opt fáum vér nýia advorun þar um, ad vér skulum giora oss reidubúna til ad yfirgéfa þetta líf. Daudans fyrirboda finnum vér hiá siálfum oss, stundum meiri og stundum minni, en þannig finnum vér hann þó, ad vér missum þarvid um mikinn hluta æfi vorrar, rósemi vora og gledi. Sálin finnur daglega til óþægilegleika síns samastadar, og ófullkomlegleika sinna krapta, og þaraf rísa svo ótelianlegar sorgir, áhyggia og órósemi. O! hvørsu aumkunarverdar sképnur værum vér ecki, ef vér eckert hefdum ad hugga oss vid, á móti þessum sorglegu hlutum, eckért, sem gæti giort oss rólega; vér hefdum þá fullt efni til ad taka konu sérhvørs dags med tárum og sorg, og særaft af sonu órósemi yfir vorra lífs-stunda varanlegleika, sem vér nú særunst af því, hvørsu skammvinnt þad er. En vort ásigkomulag er farsællra, þared vér í Guds ótta finnum máttuga huggun á móti allsslags veikleika og trú-

fastann leidtoga í vorum útlendíngskap. Þetta giörir oss þá orugga og óhrædda í øllum þeim tilfellum, sem boda oss daudann fyrirfram, þared vor Guds ótti gefur oss vissa von um annad fullkomnara og betra fodurland. Þessi Guds ótti styrkir oss til ad bera med þolinmædi allar mótlætíngar, um hvoriar máské allmargar siálfum oss kann og vera ad kénna, þvíad hann fullvissir oss um vors Guds fødurlega kiærleika og máttugu hiálp. Þessi Guds ótti hughreystir oss med sáluhiálplegri von, um endurnýiad og dírdlegt ástand, sem vér væntum oss eptir þetta líf. Þegar þær sáru tilfinníngar, sem vors hrørlega líkama ásigkomulag ollir oss, orsaka órósemi og oss virdist allt þetta jardneska nærsta hriggilegt, hofum vér annad þessu til léttirs í huga vorum, sem reiknast má miklu gledilegra. Vér siáum fyrirfram oss búinn óendanlegann føgnud, hvorium vér jøfnum saman vid nærverandi sorg. Vér siáum í huganum óforgengilegann líkama, sem vér munum umskipta fyrir þetta hrørlega veika hreysi; eilíft líf í stad þessa skammvinna, og sáluhiálplega upprisu eptir þennann tímanlega

 dauda;



dauda; ad þeſſi umſkipti ſéu oſs fyrir-búin, þurfum vér ecki ad leida í gétgátu nockra, ecki ad vænta eda óſka oſs þeirra med nockurri efaſemd; nei, vér megum álíta þau jafnvel í þeſſu líſi, ſvo ſem nálæg, og hvad meira er, vér kunnum nú þegar fyrirfram ad ſmacka og finna þá ánægiu hér í líſi, ſem fullviſſan um ædri komandi farſæld, géfur ſérhvorium trúudum. Hvorſu yfirgnæfanlega giorir þá ecki Guds óttinn líf vort yndælt og róſamt? vér megum því hætta allri qvörtun yfir þeſs mannlega líſs-mædu og eymdum; en láta þad miklu framar vera vora daglegu umhyggiu, hvornig vér lifad fáum gudrækilega, ſvo ad vér lifa mættum ánægdir og luckulegir. O Gud! virdſtu ad tilreida oſs þartil med þínum góda Anda, og uppfylla þeſſa vora hiartans óſk! æ! bænheyrdu þad nádarſamlega, þú, ſem ecki forſmáir hreinſkilnar bænir réttlátra, Amen.

## XXIV. Hugvekia.

Kénn mér ſánhytum glanſa' ad gleyma, og gull-
eign jardar, metnad', lyſt, af munni hiart-
ans óſk lát ſtreyma, o! Gud þitt ríki komi
víſt! undir eins og eg ávinn þad, audn-
aſt mér líka gott annad.

A

Af þessari qvöldstundu óskum vér oss efalaust rólegra, ánægdra og lucku-legra daga; og mörg þúsund vorra med-brædra sameina sínar óskir med oss um þetta sama. En múnu þó gódu dagarnir, sem vér svo nefnum, og svo ákaft óskum oss, í raun réttri vera svo nytsamlegir fyr-ir oss, sem vér hugsum? mun oss þad svo heilsusamlegt, sem vér álítum, ad vera öldúngis frír fyrir öllum lidunum og mótlætíngum, en nióta allskonar heims-giæda, æru og fagnadar? hvörs er allt þetta verdt, þegar vér þó ecki undir eins höfum ánægt sinni? hvornig færi, ef öll þessi heims gædi snéru voru sinni frá Guds nád og vingun, og vörpudu oss enn dýpra, í þá fordiörfun, sem skiln-íngar-vitin svo optlega ginna og leida oss í? og hvörnig færi, ef þau upprættu alla laungun úr hiartanu til vorrar sáluhiálp-ar andlegu gæda, alla tilfinníngu af kiær-leika Guds, en uppfylltu vora sálu þar ámót med þvílíkum girndum, sem ræna mættu oss grundvalladri von um full-sælu í eilífu lífi? hvornig færi, ef þessir gódu dagar giördu vort hiarta drambs-samt, fylltu þad med miskunarleysi, á-girnd og vellyst? þó fer þetta alloptast



þannig, og jarðneſk gledi er æ hættuleg voru hiarta og vorri ſáluhiálp; því luckulegri, ſem vér erum í útvortis kríngumſtædum, því fleiri freiſtíngum, því ſtærri hættu erum vér undirvorpnir; eckert nema eitt fær hrifid oſs út af þeſſari háſkaſemd, ſem æ fylgir gódu døgunum; ecki nema eitt er þad til, ſem fær varnad, ad vér verdum hvørki módlauſir í mótgángi né óluckulegir í medlæti, og þetta dýrmæta medal er ſannur Guds ótti; vid þetta medal verda bædi vorir gódu og vondu dagar oſs nytſamlegir, og þeſſa gáfu, þinn ſáluhiálplega ótta, bidium vér þig, miſkunſami nádugi Gud! ad qveikia og vidhalda í oſs, þá erum vér fullviſſir um, ad allir hlutir verda oſs ad gódu. Géf ad þinn ótti ſé æ lifandi og ſtadfaſtur í vorri ſálu, ſvo ad hún jafnan hlýdi þér en ecki ſyndſamlegum girndum! kénndu oſs ad meta ſérhvørn hlut, ſem oſs er þægur og kiær, eptir maklegleikum, og láttú oſs aldrei breyta ſvo óforſiállega, ad vér ſkiptum vorri ſálar velferd fyrir ríkdóm, virdíngar eda vellyſt; láttú ſkodun og umþenkíngu þeſs óſýnilega og eilífa, ſvipta oſs ofmiklu dálæti á þeſſu ſýnilega og ſkammvinna

jardneska; láttú þær freistíngar, sem gódu dagarnir olla í þessum heimi, aldrei leida oss afvega, aldrei spilla vorri eilífu farsæld, til ad odlast jardneska forgengilega lucku. Láttú þinn ótta abla oss blessunar og gledi, í vorum heilbrygdu og vanheilu dogum, í medlætis og mótlætis dogum, í gledi og sorgar dogum, í lífi og dauda; vér vilium einskis óska oss sérílagi, en virdstú af nád, ad géfa oss hvad þér þócknast og oss má fyrir bestu verda; med þacklæti skulum vér medtaka allt, sem þín milda fødur-hønd útbítir oss; gudnisi oss ad eins ad vardveita þinn ótta og þína elsku í vorum hiørtum, megum vér audveldlega alls annars án vera.

## XXV. Hugvekia.

Þared vér erum réttlátir fyrir trúna, þá hofum vér frid vid Gud, fyrir vorn Drottinn Jesúm Kristum. Rómv. 5.

Um hvad ættum vér optar ad þenkia enn um Jesú Krists kiærleika, af hvorium vér høfum ad vænta oss allrar sáluhiálpar? til hvors skyldum vér optar hugsa, enn þeirrar ævarandi sáluhiálp-



hiálpar, sem náð vors Guds lætur oss vona? hvad gétur fyrir oss meir áríd-andi verid enn ad vita oss géfna sálu, ecki einúngis ódaudlega, heldur og þá, sem eptir þetta líf skal eilíflega sameinast Gudi, og nióta eilífrar farsældar hiá honum? hvad gétur framar hrært vort hiarta, enn yfirvegun þessarar farsældar, hennar óumrædilega yndæli og ypp-arlegleiki? samlíkium henni vid þad, sem hér á jördunni kallast lucka, og adgætum hvørsu mikla yfirburdi þessi eilífa far-sæld hefir; hvad gétur framar haldid vorum girndum og tilhneigíngum í taumi, enn þegar vér látum oss einúng-is lánga eptir þessari óvidjafnandi luckn, og stundum med fremstu kroptum ad ødlast þessa sáluhiálp? gétum vér ná-qvæmlega þenkt um allt þetta án þess ad upptendrast af kiærleika og þacklæti til hans, sem er høfundur þessara giæda, þessarar sáluhiálpar? o! nei, þá fyrst sáum vér fullkomlega fundid þad, hvørsu mikid lof og þacklæti Gudi og vors Jesú Krists Fødur ber, sem hefir blessad oss med allsháttar andlegri blessan, þeirra himnesku gæda fyrir Kristum; þá fyrst verdur vort hiarta réttilega hrært af

Jesú

Jesú Krists óútsegianlega kiærleika, sem hefir med svo dýru verdi, hvorki med gulli né sylfri, heldur med sínu dýrmæta og saklausa blódi, keypt og afrekad oss unnskipti á daudanum og fordæmíngunni fyrir lífid og sáluhiálpina, sem hann oss útvegadi; þá munum vér og fá þacklátt og hlýdid hiarta, fyrir Guds Anda nádarsamlegu tilhlutun, sem hér vill tilreida oss med sínum guddómlega krapti og nád, og giora hæfilega til ad nióta þess eilífa lífsins. Þetta er miog svo áríðandi og vidurqvæmileg æfíng fyrir hvørn kristinn, til ad komast í náqvæmari sameiníngu vid Gud, sem svo nádarsamlega kallar hann til sín og sinnar sameiníngar. Þetta er sú sáluhiálplegasta ydia, fyrir hvøria vér ætíd meir og meir kunnum ad sameinast vorum Frelsara, vegna hvørs kiærleika vér verda munum eilíflega lucklegir; þetta er vor sanna lucka, ad vér ætíd látum oss stiórna af Guds Anda, sem æ leidir oss til Guds, og hans náqvæmu sáluhiálplegu umgeugni, og kénnir oss æ meir og meir ad nieta þá sáluhiálp, sem Jesú Krists kiærleiki og nád vors himneska Fødurs lofar oss ad væntu. O! þú sannleiksins Andi,

gefdu



gefdu oss nád til ad halda vorum þaunk-
um sífellt stødugum vid þessa háleitu
hluti; giørdu vora sálu æ meir og meir
vidskila vid syndsamlegra girnda bønd
og tálsnørur, sem hingad til hafa svo
lengi hamlad hennar framfør til far-
sældar, og kénn oss æ betur og betur ad
þeckia, hvad til vors fridar heyrir; lát
eckert vera oss meir áríðandi, enn ad
sameinast Gudi, og eilíflega niota hans
nádar; eins og vér nú á þessari stundu
umgaungumst Gud, svo lát og vort
hiarta framvegis honum helgad vera,
þenkia til hans, óttast og elska hann
yfir alla hluti fram, og þanninn ná-
lægiast þá farsæld, sem eilíflega mun
gledia oss fyrir hans veldisstóli. Amen.

## XXVI. Hugvekia.

Vid réttlátra mun ad fognudi verda, en von ó-
mildra fyrirferst. Ordsqv. b. 10.

Þessi dagur, sem nád míns Guds lét
mig aflifa, er nýtt stig fram ad
þeirri endalausu eilífd. Sú óutmál-
anlega farsæld, sem hann enn framar
hefir áqvardad mér, uppfyllir mína sálu
med brennandi laungun eptir ad verda
henn-




hennar hluttakandi. Hvorsu opt finnst mér ecki tídin laung, hvorsu opt hvarfl-ar mér nú í hug óþolinmód laungun, af því eg enn þá ecki fæ ad nióta þessar-ar farsældar; enn þá hughreystir mig, enn þá upplífgar mig sá þánki, ad eg ætíd meir og meir nálægist mitt mikla farsældar takmark. Ecki renni eg þánka til daga eda ára, sem eg lifad hefi, heldur tel eg tímana og augnablikin, sem ept-ir eru og enn hamla mér fullkomlega ad géta nálgast minn Jesúm, og hvorsu gledur mitt hiarta sig, ad tala þeirra fer ódum minkandi. Á morgun verd eg fluttur enn þá nær mínu vonar takmarki, já, vid hvort augnablik styttist meir og meir þessi fiarlægd, þángad til loksins þann tímans púnkt adber, ad mér audn-ast ad verda eilíflega farsæll. Því skélf-ist þú þá, sála mín! er þú minnist bág-bornu tímanna, sem enn þá máské bída þín? hvorsu fliótt munu þeir ecki fram-hiá lída? hvorsu þæg mun ecki þeirra endalykt, og hvorsu yndæl verdur ecki þeirra umbun? hreystu þig upp til ad bera þá med stoduglyndi, allir mida þeir til þess, ad búa þig verduglega undir eilífd-ina; já, lofadur veri Gud, ad hann vird-



ir mig þess ad láta mig áſtundum ſmán og offóókn líða fyrir ſíns nafns ſakir! mín ſála príſar hann, ſem géfið hefir mér örugga von um allt hvad eptir kémur, þá miklu og gladværu von, ſem engu mótlæti qvída þarf í þeirri komandi eilífd. Láttú nú og, líknarfulli Gud! þá miklu ſkyldu, ſem mér framvegis ber ad vardveita, vera mér ſífellt fyrir ſiónum; lát mig aldrei feſta þann kiærleika vid heiminn, eda nockurn hlut í heiminum, ad eg þeſs vegna gleymi þeim gædum, ſem mér eru geymd í komandi eilífd; giör þú mig viliugann og hæfilegann, til ad afneita minni egin gagnſemi, minni róſemi og hægdum, minni ánægiu og drambſemi, þegar gilda ſkal ad ſýna hugprýdi og náúngans kiærleika, og æfa ſamtollud gódverk til þinnar þiónuſtu. Þurfi minn bródir hiálpar vid, verd eg ad flýta mér til hans til þeſs ad hiálpa honum og álíta mig luckulegann, fái eg þeſſa orkad; þó óvinur minn hafi afbrotid á móti mér, og jafnvel íllt í ſinni gégn mér, géf mér ſamt o Gud! nád til ad fyrirgéfa honum af hiarta, og med nýium velgiörningum ad ſannfæra hann um, ad enginn, nema ſá réttkriſtni, er ſvo hugprúdur,

ad

ad hann umbuni íllt med gódu; géf mér í øllum athøfnum ad audsýna mig gódann, kristinn mann og lát mig í medlæti eins og í mótlæti, í dauda, sem lífi, sanna ad eg kappkosti ad vera míns Jesú trúr eptirfylgiari og barn míns Fødurs sem á himnum er; lát enn framar sannast á mér ad sonn trú og gudhrædsla øllu fremur, giori sína elskendur verdugar, gódar og farsælar manneskiur!

## XXVII. Hugvekia.

Varpadu þinni áhyggiu uppá Drottinn, og hann mun forsorga þig, hann mun ecki leyfa ad sá réttláti æfinlega liggi fallinn. Psálm. 55.

Dagurinn, sem vér høfum lifad í dag, er ný sannfæríng þess, ad Gud, minn gædskuríki fadir, enn þá elskar mig, og virdir sínnar kiærlegu og nádugu endurminníngar. Þá eg renni þauukunum aptur til þess umlidna, hvilíkra undrunar-verka hans kiærleika, og vidqvæmu fødurlegu umhyggiu, verd eg þá ecki hvervetna var? hann ól ønn fyrir mér, ádur enn eg vard til, og hefir sífellt borid umhyggiu fyrir minni velgeugni frá byriun míns lífs, til þessa augnabliks.

 Otel.



Otelianlegir eru hans velgiørníngar og ómunrædilegur hans kiærleiki til mann-anna barna. Hvørsu mætti nú ei mitt hiarta hræraſt vid þannig ad hugſa til-baka og yfirvega umlidnu tímana? hví-lík upporfun fyrir mig, til ad vona, elſka og þolinmódlega lída? þú, o Gud! ſem mér giort hefir ſvo mikid gott híngad til, þú munt ſíſt yfirgéfa mig hédan af, og þad er mín ørugga trú. Eg, ſem í ſvo lánga tíma hefi verid forſorgadur af þér med øllu gódu, mun ſíſt mædufama á-hyggiu bera fyrir deginum, ſem kémur á morgun. Þú hefir híngad til hiálp-ad mér ígégnum ſvo margar þreyngíng-ar, þvi mun eg óqvídinn framvegis reida mig uppá þína hiálp; þú hefir ſannfært mig ſvo opt um þad, ad øll mín tilfelli og allt hvad mér mætir kémur einúngis frá þér og ſtiórnaſt af þinni hønd, ept-ir óendanlegum vísdómi þínum og gæd-ſku mér til beſta; ſkyldi eg þá vera óá-nægdur med hvad þú úthlutar mér? ſkyldi eg mogla á móti þér, eg hefi ſvo opt ſéd ad lygi og fals hafa til ſkammar ordid, og ad einúngis dygd og frómleiki fá ſtad-iſt til enda, ſkyldi eg þá ecki hata bak-mælgi, en elſka hreinſkilni? þú hefir allt

af




af elſkad mig ſvo áſtudlega, ſkyldi eg þá ecki elſka þig aptur? þú hefir géfid mér lífid, og allt hvad eg hefi, ſkyldi eg þá ecki vera reidubúinn og viliugur til ad yfirgéfa alla hluti fyrir þínar ſakir? þú hefir ſýnt þig ſvo áſtúdlegann vid mig, ſkyldi eg þá vera hardgédia vid brædur mína? þú hefir fyrirgéfid mér ſvo margfaldar og miklar ſyndir, ſkyldi eg þá ecki af hiarta fyrirgéfa mínum óvinum? o Gud! þú, ſem ert ſvo ríkur af nád og mikill ad miſkun, þú, ſem hefir útauſid yfir mig ſvo morgum velgiörningum, þó eg ſé óverdugur ad nióta þinnar minnſtu nádar, þar eg á engann hátt gét þá aptur endurgoldid. O! láttu mig þó ad minnſta koſti ecki vera óþacklátann fyrir þá, ſvo eg efalauſt megi giora mér þá óhultu von, ad þú á tilkomandi tímanum viljir minnaſt mín, viljir vera minn hiálpari og verndari; þá munu þær ſkyldur verda mér bædi þægar og léttar, ſem mér nú finnaſt ordugar og ógedfeldar. Þegar eg einúngis hefi þacklátt og hlýdid hiarta til ad bera, er þad, hér í tímanum ad álíta, ſem inngánginn til þeſs gledi- og lofgiördar-ſaungs, ſem eg á ſídan í eilífdinni mun færa þér, fyrir alla



þá náð og ómetanlegu velgiorníngа, sem þú frá barns-beini og um alla mína æfi hefir mér svo foðurlega auðsýnt.

## XXVIII. Hugvekia.

Þó sorg og ánauð sífeldlig, samferðist lífsins dog-
um, eg gladur er því, Gud! veit þig
gloggt siá hvað mínum hogum, er fyrir
bestu, mædu med, mitt þú reynir og ven-
ur géd, í þínum ad þreyia álogum.

Þó sorgin særi og mótlætið mædi mig, vil eg þó vel ánægdur vera, géti eg þocknast mínum Gudi; eg veit ad þetta líf munt þó enda taka, og ad eg næ far-sæld hiá Gudi, þegar lífid þrýtur; hvad hefir ecki Gud fyrir mig giort, til þess ad lada mig til sín? hvørsu tídum hefir hann ecki bodid mér til sín aptur ad snúa frá syndunum! hvørsu mørgum hindr-unum hefir hann ecki burtuvelt til ad giøra þann veg særann, á hvørium hann vildi mig framleida? allar þær nádar-verkanir, sem hans Andi framqvæmt hefir í minni sálu alla mína æfi, frá því eg sá fyrst heimsins liós, vóru ecki annad enn uppvakníngar, sem vegleida máttu mig enn nær Gudi. Sá gud-dóm-

dómlegi vísdómur, lét öll þau tilfelli, sem við mig framkomu stuðla til þess að eg leiddur yrði æ lengra fram á veginn til hans sameiníngar; en máské eg ecki til hálfs þecki þennann Guðs velgiörníng, þar eg ecki að fullu skynia kann áqvarðanir og tilgáng Guðs forsiónar, sem svo náðarsamlega vakir yfir mér. En ef að Guð opnaði mín augu, þá mundi eg verða þess var, að öll mín lífs tilfelli stefna til sannrar lucku sálar minnar; eg mundi þá læra að þeckia, að jafnvel sá mótgángur, sem mér að höndum ber, er eckert annað enn náðar-rík ráðstafan míns Guðs, svo eg enn framar sameinist honum; eg mundi þá verða þess var, að margir tilburðir, sem eg álít að vera léttvæg tilfelli og hendíngar, eru þau meðöl, sem Guðs náð brúkar til að giöra enn greiðari veg til betrunar míns hiarta; eg mundi þá siá að mín fæðíng, lucka og eignir, mínar náttúrugáfur og allt mitt ástand eru kroptug meðöl til að leiðbeina sálu minni á Guðs veg; eg mundi þeckia að Guð á sérhvörin augnabliki míns lífs auðsýnir mér ný og ný merki hans miskunar. Stundum burthratt hann einhvörri hindrun

mínnar sáluhiálpar med nockrum missir, stundum dempadi hann mínar tilhneg-íngar, med einhvoriu þægilegu tilfelli; stundum gaf hann mér med einhvoriu gódu dæmi tækifæri til alvarlegra hug-leidínga, stundum uppvakti hann mína sofandi samvitsku med einhvörs medbród-urs hastarlegum vidskilnadi, í einu ordi: Gud hefir allt vid mig giört, og giörir enn nú, til þess ad draga mig frá heim-inum til sáluhiálplegrar sameiníngar vid sig. En, hefir þá sá miskunsami Gud fengid þad hiá mér framqvæmt, sem hans nádar-fulli tilgángur midadi til? hefi eg nockud skipast látid vid bendíngar hans? er eg daglega nær honum kominn? o Gud! hvad fæ eg dulid fyrir þér? þú þeckir mína fásinnu og mótþróa. Þú veitst hvörsu eg mótstadid hefi þíns Anda verkunum. Hvörr dagur var híngad til nýð ydrunar upphvatníng fyrir mig, og þo brúkadi eg hann eins og hann verid hefdi einber upphvatníng til lasta. O Gud! gack ecki í dóm vid mig og kref mig ecki til reiknings fyrir þína medteknu velgiörnínga, og nádar-verkanir, sem eg hefi misbrúkad; haldtu áfram ad upp-vekia, hræra og sannfæra mig med þín-um

um Anda; láttú mig sífellt sjá og vidurkénna, hvorsu fodurlega þú sífellt ladar mig til apturhvarfs til þín, og géf ad eg verdi mætti æ fúsari og fúsari þartil, þér æ hlýdnari enn eg híngad til verid hefi, og ecki lengur ónýta og forsmá þína nád, vid mig med tilfinníngarleysi og þverúd. Leid mig á þínum vegum og varna mér frá því nockurntíma hédan af, af þeim ad víkja, svo ad eg ad lokunum ødlast megi þad eilífa og sælufulla líf, til hvørs þinn kiærleiki í Jesú Kristó hefir mig ágvardad. Amen.

## XXIX. Hugvekia.

Lífid er stutt, kénn, minn Gud! mér mína svo telja daga hér, ad tækifæri aldrei neitt, ydin skyldunnar frá sé sneydt; tíd sú eitt sinn mér sór burt frá, fara ecki tilbaka má.

Tíminn er stuttur og því fæ eg aldrei nógu vel íhugad og gætt ad færa mér hann í nyt; ætti eg enn fyrir høndum ad lifa hundrad ára øld, þá væru kannské þeir illa brúkudu dagar og augnablik ecki meir enn lítils virdi, sem mér brádlega bættist, en nú eru mínir dagar og ár áqvørdud svo fá, ad alls eckert af þeim



missaſt má. Drági eg frá ölkum mínum aldri þann tíma, sem eg verd ad brúka til umhyggiu fyrir líkamanum og minni velgengni, hvad verdur þá eptir af allri æfinni, sem Gudi og eilífdinni ſé varid, og þó læst eg ecki vita til hvörs eg brúka ſkuli þad lítid, sem afgángs er? já, eg leita mér þúſund bragda, til ad ſtytta mér þeſſa tíd. Æ! mig aumkunarverdann! því hefi eg ecki hugleidt, ad tín líf eins laung og mitt, fá ecki bætt mér aptur hinn minnſta part af þeim tíma, hvörn eg vanbrúkad hefi. Hvörnig gét eg þá í ſvo ſtuttu lífi fengid nockurn tíma afgángs til lyſtínga og ónytſamlegra hluta? mun nockurr ſakamadur, sem var til dauda dæmdur og átti einúngis einn dag eptir ólifadann, á hvörinn hann gæti nádar leitad, mundi hann hafa nockurn tíma afgángs, sem hann eyda megi til ónýtis? o! hvörſu fáſinna eg er! dómurinn er þegar fallinn um mig, eg á einúngis einn dags-freſt eptir, og þeſſi dagur er mér til leidinda? eg eydi honum í þvílíku þánkaleyſi, med giálífi, í barndómslegum og ónytſamlegum athöfnum og leitaſt hvad meſt eg get vid ad ſtytta hann; eg ſie qvöldid koma, án þeſs ad hafa brúkad

þann

þann dag, sem Gud hefir gésid mér ódru-
vísi enn svo, ad eg vann til enn þýngri
hegníngar. Hvornig fæ eg sagt ad eg
hafi haft afgángs tíma þennann dag? o!
hvorsu tídin er stutt, og mínar skyldur ó-
telianlegar, og þó fann eg enn þá svo
margar tómstundir á hvoriunn degi, á
hvorium eg eckert tók mér fyrir ad ydia;
enn þá lét eg lystíngar stytta mér tídína.
Voldugi Gud! þú, sem einn úthlutar
tímunn og augnablikum, hvornin mun
þér gediast ad siá mig þanninn eyda minni
tíd, sem er svo stutt og þó svo mikils-
verd? æ! eg skélf og titra; sá mesti og
besti partur míns lífs er þegar lidinn og
tapadur, skal eg enn þá ætla mér, ad
eyda eins ónytsamlega því, sem eptir er
daganna? skal eckert alvarlegt augna-
blik vera til í mínu lífi, nema þad sein-
asta, sem endar þad! o Gud! vardveittu
mig vid þeirri óútmálánlegu miklu ó-
luckur; helga þú siálfur þau fáu augna-
blik, sem eg enn þá lifa skal í þessum heimi,
og géf mér nád til ad brúka þau mér til
sáluhiálpar. Þessi dagur flytur mig nær
grösinni, o! hvad vildi eg giora, ef eg
vissi mig ega einúngis eitt stig ófarid
eptir, af minni vegferdar-reisu ad gröf-



inni? lát sífellt vaka í huga mínum þetta íhugaverda: hvad ef mér yrdi nú í burtu svipt, hvør mundu þá mín kiør verda? eilífi Gud! miskuna þig yfir mig, og géfdu mér þann vísdóm forsiállega ad telia mína fáu daga, forsiállega ad brúka mína stuttu tíd, og forsiállega ad endurkaupa hvørt forsómad augnablik, þared mín eilífu forløg eru þar undir komin.

## XXX. Hugvekia.

Þitt ord er vor hiartans gledi og huggun. Jer. 15.

Þegar eg elska Gud og Jesúm Kristum, gét eg í øllum lífs tilfellum hughraustur verid; hvørt, sem eg lít til þess umlidna, til þess nærveranda, eda þess okomna, styrkist eg æ í þeim ásetníngi, ad vera hiá mínum Endurlausnara, ad hvørium einum eg vil mér halda; eg finn ad sønnu, þá eg adgæti mitt umlidna líf, ad eg einninn varid hefi æfi minni í heimsins giálfi og til heimsins lystinga, en hvílíka huggun finn eg þar hiá midt í þessari sorglegu endurminníngu! eg gét ecki hugsad til þeirra umlidnu tímanna, án þess undir eins ad þacka og þeckia alla þá vegu, um hvøria Guds

 

Guds miskunsemi hefir mig framleidt. Allstadar þecki eg þá nádugu forsión, sem Gud hefir fyrir mér borid, jafnvel og þá, er eg enn géck á voudum villu-stigum. Eg kannast vid þær heimuglegu advaranir, med hvörium hann tídum kalladi mig til ad taka vara á minni skyldu, og med hvílíkri gledi og huggun má þá ecki mín sál uppfyllast? hvörsu óendanleg er ecki, o Gud! þín miskunsemi, má eg med Spámanninum undirtaka! þegar eg er Jesú fyrir trúna sameinadur, liggur mér í léttu rúmi hvad hellst sem ad kémur og ágengur í þessu lífi; heimsins óstödugleiki, ránglæti og álas, sem er svo sorglegt fyrir þá, sem elska hann, þénar mér ecki til annars, enn ad eg læri því betur ad þeckia, hvörsu eg er farsæll, sem útvalid hefi mér annann herra enn heiminn; en þó verd eg enn kroptuglegar huggadur vid umþenking þess, sem eptirkomandi er. Eg bíd þeirrar sælu vonar og þess luckulega augnabliks, þá eg inntakast mun í þeirra himnesku hersveita samfélag, aptur sameinast brædrum mínum, sem eg misst hefi á jordunni, og ódaudlegum Gudi siálfum; eg kannast þá vid þad, ad þó eg hafni því, sem nærverandi

andi er, tapa eg þó engu, þared allt þetta jardneska mun eptir fá lidin augnablik horfid, og þær þreyngíngar, sem eg hefi lidid, mega ei koma í nockurn samjöfnud vid þá dírd, sem mér er fyrirbúin í himninum; eg veit og má sanna: ad nálægir hlutir hverfa í burtu skyndilega, og eru ei þess verdir ad nockurr telji þá, eptir ára eda jafnvel hundrad ára tölu, þó svo lengi audnast mætti ad nióta þeirra. O! því hefi eg ecki fyrir laungu látid mig leida af Jesú stiórnun, svo eg ödlast mætti þessa sælu? Því hefi eg ecki leitad þessarar sameiníngar vid minn Endurlausnara, til ad giöra þad umlidna, nálæga og eptirkomanda mér audveldara? æ flýttu þér, mín sál! vid enda þessa dags, ad vinga þig vid þinn Drottinn, hvörs nád og gódgirni mun giöra, ad allt verdur þér gott og gledilegt; slittu af þér þau böndin, sem enn þá binda þig vid jordina og kom sídan til ad nota þér þau gædi, sem þinn Jesús býdur! þú fylliſt, ad vonum, óróa þegar þú minnist þinna drýgdu bernsku brota, hvörsu mikla mædu orsakar þér ecki sión nálægra eymda hér í heimi? hvörsu mikillar áhyggiu valda þér ecki um-

umþenking þinna komandi tilfella, og hvorſu ſorglegir verda ecki vid allt þetta þínir dagar? o! léttu á þér þeſſari byrdi og leitadu róſemdar þinni ſálu hiá Jeſú, já, leitadu fyrirgéfníngar hiá honum á þínum í frammi høfdu ſyndum, gledi hiá honum á nálægri tíd, og ſáluhiálplegrar vonar fyrir komandi tímana!

## XXXI. Hugvekia.

Þó ſamtok giørdu himin, haf og haudur mér til ama, hættum ſtædi eg umgirdtur af og ógn hels í bili ſama, en heimur allur hvirfi mér, herra Gud! ſamt eg treyſti þér, óttaſt fár eckert framar.

Sú nád og miſkun míns Guds, ſem vardveitir mig og hefir híngad til vakad yfir mínum døgum, uppfyllir nú mitt hiarta med diørfúng og trúnadartrauſti. Því ſkyldi eg efa um hans handleidſlu, þared ſérhvørr dagurinn, ſérhvørt augnablik míns lífs ſýnir mér andſiáanleguſtu merki hans vísdóms, almættis og gædſku? nei, eg ſæ ecki annad enn óhugad ókomnu tímana med því trúar-øruggaſta hiarta, þared ſá ſami alvíſi og nádugi Herra rædur fyrir þeim,
ſem



sem audsýndi sig mér svo dírdlegann á umlidna tímanum. Eg veit því fyrirfram ad hvørr ókominn dagur muni géfa mér nýjar sanñfæríngar hans nádugu forsorgunar fyrir mér; eg mun framvegis óqvídinn vona mega ad finna hann vera þann sama mildiríka velgiørara, sem ánægianlega veitir mér allt hid góda. Hann mun leida mig á þeim vegi, sem mín fávitska og breiskleiki varna mér annars ad gánga; hann mun snúa frá mér þeim háskasemdum, sem framvegis múnu mæta mér á minni Pílagríms-reisu; hann mun bæta þann skort, sem fylgir jafnan mínu ásigkomulagi; hann mun framhalda þeirri umhyggiu og kiærleika, sem hann hefir borid fyrir mér allt frá módurlífi, hann hefir aldrei aflátid ad vera minn Gud og hiálpari; máttur og yfirburdir hans guddómlegu veru, og sannleiki hans fyrirheita, géfa mér þá óefanlegustu fullvissu um allt þetta; eg veit hann og ad vera minn mildiríka Gud og mitt hiarta gledur sig af því, ad hann svo fúslega hiálpar mér. Eg vil því prísa þig, minn Gud! þvíad þú giørir svo vel vid mig; en eg veit og fyrirfram, ad sú komandi tíd hefir mér

mót-

mótlætíngar búnar og ad eg hér eptir ecki heldur muni frí verda fyrir øllum þiáníngum. Já, eg yrdi einn medal þeirra óluckulegustu mannsképna, ef eckert mætti mér þad, sem fengi læckad mína dramb-semi, stodvad mitt óstøduglyndi og hrært mitt hiarta til ad keppast eptir betri og varanlegri gædum. Þú munt því best siá og áqvarda mér þad, sem mér er naud-synlegt og fyrir bestu, minn Gud! og á-stundum, vegna minnar sonnu velferdar, siá hentugast ad straffa og audmýkia mig; en eg bid þig af øllu minu hiarta, ad þú virdist ad gefa mér þolinmædi, von og huggun, til ad medtaka og svo bid ógéd-feldna af þínum fodur-hendum, og kann-ast vid þinn gædskufulla tilgáng, í ollu því þú giorir. Vissulega muntu einn-ig í mólætinganna skamti hondla miklu nádarsamlegar vid mig, enn eg verd-skulda, og ecki leggia á mig stærri þián-íngar, enn eg fæ borid; eg vil því aud-múkur vona á þig, og oldúngis afhenda mig þinni gædsku og nád fyrir Jesúm Kristum. O! minn Gud! þú, sem enn þá aldrei létst nockurn þann til skammar verda, sem sett hefir sitt traust á þig, láttu mig og fá ad reyna trúarinnar sálu-hiálp-

 

hiálplegu verkanir, og finna hvörsu lucku-legur sá er, sem má vona á þig og af-henda sig med fullu trúnadar-trausti á þitt vald. Eg fel mig nú á þessari stundu þinni trúfostu vegleidslu í øllum tilfell-um. Hvad getur mér íllt mætt, ef þú ad eins ert minn Gud og minn Frels-ari? hvad hefi eg ad hrædast, sért þú ad eins mitt traust og hæli?

## XXXII. Hugvekia.

Því far nú þinn veg, þú heimur fallvalti og hefd þín dáleg! eg sný hug til himins og hann stunda á, til herra míns Jesú, minn Frels-ara' ad siá; þar hiá þeim útvoldu hann hét og bió mér, vist þá, sem varer; vist þá, sem varer.

Vor borgar-réttur, vor von og vor á-qvardada eilífa vistar-vera er á himnum; ad hugsa þángad heim, dag-lega meir og meir ad samfærast hér um, og þess vegna minna ad meta þad jard-neska, þad er vor skylda ámedan vér bú-um á þessari jørdu; Gud hefir því allopt giort oss samastadinn hér svo ørdugann, ad vor umsorgun og þánkar dragast skyldu frá heiminum til himinsins; ad vér sist gior-

giörum oss í lund, ad vér hafa kunnum, eins mikla gledi og unadsemd hér, eins og vér þar á sídan vænta megum. Þegar daudinn lokſins ber ad dyrum hiá oss og vér skulum rádstafa voru húsi, verdur allt þetta jardneska lítilsverdt og fánýtara enn nú í vorum augum. Allt þad vér mikils höfum metid í þessu lífi, mun oss þá sýnast, sem einkisverdt, en hitt þar á móti, sem vér höfum lítils metid, verdur oss svo dýrmætt, ad vér þá dæmum þad verdskuldad hafa allann vorn kiærleika allann vorn aldur. Ef ad vér adgættum þetta, nú á medan vér erum heilir heilsu, yrdum vér betur þarum sannfærdir, hvörsu fánýtt þetta líf er. Ef ad vér réttilega hugleiddum himinsins farsæld, mundu oss víst minna verdar álitast eymdir og armæda þessa lífs. Ef ad vér réttilega yfirvegum, ad oss er hér ætlud vera einúngis um stutta stund, og vér tímanlega megum búa oss undir vora burtför til þess himneska födurlands, þá mundi oss ecki gánga svo nærri ad þola lítinn mót-gust og ördugleika á ferdinni, svosem hitt ad missa alla hægd og gledi þá hédan alkomnir erum. Ef vér ydugleg hugsum út í, til hvörs

 

Gud einkanlega setti oss hér á jørdu þá mundum vér gladir og fegins huga, framqvæma svo mikid gott, sem oss møgulegt væri í þessu stutta lífi. Ef vér einúngis vildum meta himnanna farsæld ad hálfu leiti vid þad, sem hún er í raun og veru, þá mundum vér sannlega meira vilia til hennar vinna. Svo opt, sem vér íhugudum himinsins vegsemd, mættum vér sannfæraft um vort seinlæti til þess góda, og um heimsins ófullkomlegleika. O Gud! fyrst þér þócknast hefir ad lengia vort líf allt híngad til, svo géf oss nú nád til ad yfirvega ad vér snarlega megum hédan halda, og ad vor velferd er undir því komin, hvørnig vér erum undir þessa burtfør búnir; lát oss upphvetiast af voninni um þau dírdlegu laun, sem þú hefir heitid oss, ef vér ad eins ótraudir képpunst eptir eilífdinni og hennar farsæld. O! ad vér megnudum ad framqvæma þinn vilia med eins mikilli gledi, og þeir sælu andar Englarnir, sem skoda þitt auglit! o! ad himinsins umhugsan mætti vekia alla vora lífs og sálar krapta, og géfa oss æ meiri og meiri laungun og styrk til dygdanna æfíngar! láttu þad vera vora einustu stødugu ástundun, ad

gioraft

gioraſt verdugir til ad ná þeirri ſáluhiálp, ſem oſs er í himninum áqvordud! þeſſa ſkulum vér einúngis óſka, þarvid ſkulu vorir þánkar ſkémta ſér, og þetta á og má vera vort ſtoduga mark og mid, frá hvorju engir jardneſkir hlutir fái oſs ſnúid. Þannig ſkal vor umgengni vera á himnum, hvadan vér væntum vors Drottins og frelſara Jeſú Kriſts, ſem mun umminda þann líkama, ſem vér í þeſſari vorri lægíngu berum, ad hann líkur verdi þeim líkama, hann í dírd ſinni hefir, med hans volduga krapti, ſem alla hluti kann ſér undirgéfna ad giora.

## XXXIII. Hugvékia.

Hvorſu gott ſem líſid er, varir þad þó ecki nema ſtutta ſtund, ſegir Syrach. 41.

Heilbrigdi, ríkdómur, virdíngar og áſtſæld, eru þau gædi, ſem allir í tímanum óſka ſér ad eignaſt, og ef vér viſſum þeirra fleſtu manna bænar innihald á þeſſu qvoldi, mundu þeſſir hlutir vera hellſta innihaldid af óſkum þeirra; þegar eg nákvæmlega prófa ſiálfann mig, finn eg einnegin laungun eptir heilbrigdi, ríkdómi, virdínguni og vinſkap í

 hiarta



hiarta mínu. Þessa laungun er ecki ad lasta, en mætti eg einúngis velia réttu medolin til ad ná þessum gædum, vildi eg einúngis bidia Gud um dygdugt hiarta, og þá mundu øll þessi gædi hvad vissast verda mín eign, þvíad Guds ótti er vegurinn, á hvørium eg vona má ad ødlast heilsu, ríkdóm, virdíngu, og ást-sæld. Ef eg er réttskickadur fyrir Gudi, má eg helst vænta mér heilbrigdis og lánglífis, því þá æfi eg þær dygdir, sem vidhalda mega heilsu minni; þá fordast eg lesti, sem stytta mína daga. Ef eg gudhrædsluna elska, þá mun mig síst rík-dóm vanta. Þá mun Gud stýra mín-um athøfnum med sinni sérlegu og misdi-ríku forsión, blessa mín fyrirtæki, og láta mínar giørdir farsællega luckast, og þó eg nædi ecki miklu ríkidæmi, mundi þó Gudhrædslan géfa mér ánægt hiarta; án hvørs ríkdómur yrdi mér einúngis byrd-ar auki, og ástand mitt engu þolanlegra. Sé eg dygdugur, þá verd eg bædi virdt-ur og vel metinn; sérhvørr, sem elskar rádvandt framferdi, mun meta og virda mig mikils, og yrdi þetta meir enn full-komid jafnvægi á móti þeirri vanvirdu, sem eg saklaus lída kynni af ógudlegum.

Elski

Elſki eg Gud med hiartans einlægni mun mig aldrei vini vanta; því þá mun eg ætíd finna þá vini, ſem med einlægum kiærleika og hreinu hiarta verda mér unnandi, og greida úr mínum vanrædum, eins og þau væru þeirra egin. Sú er því ſérlegaſta óſk mín á þeſſu qvøldi, ad eg verda megi gudhræddur og dygdugur, og audniſt mér þad, hefi eg allt. Því gudhræddari, ſem eg er, því rólegri, ánægdari og luckulegri mun eg verda, eckert mun eg fyrir þad miſſa af því, ſem heimſins born képpaſt ſvo ákaft eptir, og ecki ſkal mig eptir því lánga, þared eg á betri audlegd; heilbrigdi minnar ſálar, mun og giøra mér líkamans ſiúkdóma léttari og þolanlegri; Guds nádar ríkdómur mun upporfa mig, þegar útvortis ſkortur adþreyngir; ad vita mig Gudi kiærann og honum um mig hugad, mun giøra mig gladſinna, þó heimurinn ſnúi vid mér bakinu, og vegna fullviſſu um Guds og Jeſú kiærleika, mun eg þolinmódur, umbera þó vinirnir bregdiſt mér. Eg verd því ad øllu leiti og í øllum kríngumſtædum farſæll, hafi eg gudhrædſluna til ad bera; ad eg megi gudhræddur verda, ſkal því mín innilegaſta bæn ad þeſſa dags qvøldi.



## XXXIV. Hugvekia.

Drottinn Gud er sól og skiølldur, Drottinn géfur nád og heidur, hann mun ecki láta þá vanta neitt gott, sem á hann vona. Psálm. 84.

Þegar eg yfirvega hvad Gud er, og hvad eg er, þá mætti sú yfirvegan uppvekia hiá mér diúpustu lotníngu; eg gæti þá ecki annad enn nálægt mig Gudi med tilfinnanleguſtu íhugun minnar eymdar og óhæfilegleika til alls eins góda, og þetta er líka vegurinn, á hvorium eg finna mun nád hiá Gudi. Í þessu áſigkomulagi mun eg honum þægnanlegur vera, þegar eg lært hefi ad þeckia mig siálfann og audmýkia mig fyrir hans dírdlegu hátign; mín veſæld og eymdarſkapur mun ad ſønnu því olla, ad eg valla dirfiſt ad upplypta mínum augum til þessarar hátignar, en hans augu munu því heldur líta ofan til mín, sem eg eptir hans bodi og ad dæmi míns Jeſú er sann-audmiúkari; þannig á mig kominn mun eg ætíd óhultur og gladur voga ad nálægiaſt Gud. Mín Guds þiónuſta, sá virdíngarfulli ótti, sem eg ber fyrir honum í trúnni, med tilfinníngu siálfs míns eymdar og óverdugleika, mun honum




inn víſt þægari enn þó öll veroldin færdi honum hégómleg brenni-offur. Mín bæn mun viſſulega þreyngia ſér ad hans veldisſtóli, og hræra hann til ad giöra mig blut-takandi í hans nádarfullu fyrirheitum. Hann, ſem heyrir bænir þeirrá veſælu, og hiálpar þeim, ſem hafa klockvann og audmiúkann anda, mun efalauſt heyra mína bæn og flýta ſér ad hiálpa og miſkuna mér, hann mun ecki forſmá mitt ſundurkramid og ángrádt hiarta, ecki minnaſt minna ſynda, heldur láta þær frá ſínum augum burthverfa eins og ſký fyrir vindi; á þeirri vondu tíd, á ángiſtar, neydar og hörmúnganna degi ſkal eg víſt voga ad nálægia mig til hans. Í hvöriu, ſem ad höndum ber, já, í daudans ſíduſtu adſókn, ſkal eg óhultur og óhræddur voga til hans ad flýia; þegar mér hvörgi í heiminum er lengur vært, ſkal eg dirfaſt ad leita hælis hiá mínum Jeſú, og fyrir hans krapt og fulltíngi ſigra þenna ſídaſta óvin. O Gud! kénn mér ad verda ſann-audmiúkur, þú ert ſtór og yfir alla hluti upphafinn, en eg er eckert; þú ert eilífur, og verdur hinn ſami og þú ert, og þín ár fá eingann enda, en mín tilvera hér er ſem

G. 4 einn



einn dagur, og mitt líf á jørdunni eins og skuggi; o Gud! kénndu mér ad siá og þeckia ad eg er eckert og ad eg hefi verdskuldad daudann vegna minna synda. An þín framgeng eg í megnri blindni og fávitsku, og sie ecki þína reidi gegn syndum mínum, fyrir hvørri eg mundi þó eilíflega tortýnast; mín augu sá ecki heldur hættuna sied, er eg sveyma í, sem er ad eg lída kynni eilífa smán og vanvirdu, sem verdskuldud endalok minnar drambsemi, nema þú med þínum góda Anda virdist ad vísa mér veg til sannrar audmýktar og lítillæckunar siálfs míns; æ! hvørsu lengi mun eg enn ráfa villtur frá þeim sanna audmýktar vegi? hvørsu lengi álíta mig fullsterkann, jafnvel þó eg sé staddur í mikilli eymd, hvøria eg hvørki hugleidi né þecki? nær mun þitt nádarlíós, eilífi líósanna Fadir! fá algiørlega burtrýmt þessu myrkri og fásinnu úr hiarta mínu? siá, o Gud! ad mig nú lángar til ad rata þennann farsældar veg, æ! verka þú sanna audmýkt hiá mér, svo ad eg megi hér þóknast, því eg er brotlegur syndari, sem hefi skort á þeirri hrósun, sem fyrir þér gyldir; vertu mér jafnan nádugur, láttu þitt auglit lýsa yfir mér, og kénn mér þín réttindi. Amen.





# XXXV. Hugvekia.

Mitt athvarf er til Guds; vonid á hann alla tíma, gott Fólk! segir David Psálm. 62.

Hvad fær oss ángistar ollad, þegar vér bædi í tilliti til þess nálæga og hins ókomna gétum haft þá erugga von, ad oll vor velferd í þessu lífi sé í hondum vors Guds? hann þeckir allar vorar þreyngíngar, og hefir nóg medøl til ad frelsa oss frá þeim. Hans miskunsemi mun ecki neita oss neins þess, sem í raun og réttri veru er oss þénanlegt; því skyldum vér setia vort traust á mennina, sem eru eins brigdulir og sú hiálp, er vér væntum oss af þeim? því skyldum vér eyda vorum døgum í þessa lífs sorgum, þared vor lucka er í hendi vors Guds, sem hefir þegar áqvardad fyrirfram þann tíma, er vér skulum hennar nióta, hvorsu lengi hún vara skuli, og verda oss til gledi? vona þú einúngis á hann, mín sál! og afhendtu þig hans vísu og nádugu stiórnun, sem best sier fyrir øllu; hvorsu qvídafullir verdum vér ecki tídum, þá vér lítum til þess ókomna? hvorsu margar og þúngbærar naudir eru oss kannské búnar á efri døgunum, þegar vér verd-



um gráhærdir og gamlir? máské þeir vin-
irnir, sem nú eru vor huggun, yfirgéfi oss
þá; máské lángvinnur og strángur siúk-
dómur niðurbrióti þá heilsu vora, máské
fátækt, forakt, eda önnur eymd verdi hlut-
fall vorra ókomnu daga. O! þú örvænt-
íngarsama hiarta! til hvörs skulu þess-
ar harma-tölur og sorgir, þared allt það,
sem á komandi tímanum mæta skal þér,
stendur ei í þínum höndum? hann, sem
stiórnar allra manna lucku-kiörum á jörd-
unni, hann hefir og áqvardad þín og
hvörnig mátt þú vænta þér annars af
þíns milda Födurs hendi, enn þess sem í
sannleika er þér nytsamlegt? og þó ad
við þig kynnu nú framvegis þvílík tilfelli
fram ad koma, sem væru þér óþægileg,
eru þau þó nytsamleg, svo sem þér áqvörd-
ud af þíns besta födurs vísdómsfulla til-
gángi, og hvad munu þig stoda qvídafull-
ar hugsanir? hvört munu þær mega þín-
um eymdum aptra; sem þú álengdar þyk-
ist fyrirsiá, ellegar giöra þær siálfum þér
léttbærari, enn þær annars verda kynnu?
fel þínum Gudi alla ókomna tíma og
þau lucku-kiör, sem þér eru áqvördud, eru
þér best og sáluhiálplegust; og berir þú
enn nockra áhyggiu fyrir ókomna tímaн-
um,

um, þá hugsadu einkänlega til daudans, til grafarinnar og dómsins; leitadu þeirrar luctu, sem varanleg er midt í þessum umbreytíngum, og veldu þá vegu, sem leida þig til hennar, því jafnvel í þessu tilliti, hefir þinn fadir borid umonnun fyrir þér; hann hefir ágvardad þér farsælann ódaudlegleika, látid þinn Endurlausnara afreka þér eilífa gledi; lifdu þar fyrir eins og sómir þeirri manneskiu, sem á dýra lucku í vændum; lifdu í trúnni á Guds Son, og í von um sælann ódaudlegleika; þá mun jafnvel eingin hormúnga-full ókomin tíd hafa neitt óttalegt ad skélfa þig med. O Gud! þú, sem hefir géfid oss lífid, vér þockum þér hiartanlega fyrir þá huggun, ad vor lucka í þessum og hinum ókomna heimi, stendur í þínum hondum, svo vor sála þarf framar engu ad qvída; þú munt úthluta oss svo miklu, sem naudsynlegt er til vorrar farsældar á sérhvorium degi vors lífs; allt vilium vér medtaka af þinni hendi; og svo þann mótlætínga kaleik, sem þú kannt ad oss rétta, vilium vér feginsamlega medtaka; vér viliurn drecka hann, og segia med vorum Jesú: verdi þinn vilji: med þessum ásetníngi viliurn vér áfram halda

vorri

 

vorri Pílagríms-ferd, þú munt og, vor Gud! á komandi dögum vors lífs vera vor Gud og vor frelsari; vér hughreyst- um oss vid þína ómælanlegu gædsku, því þú munt allt vel vid oss giora.

## XXXVI. Hugvekia.

Minnst á gröf þína, midt í gledi.

Hvörr einn dagur, sem yfir oss kémur, leidir oss nær daudanum, gröfinni og eilífdinni, og hvörr veit nema einhvörr af oss sé, án þess honum komi þad nú til hugar, þegar framstíginn á þann graf- ar-backa, sem eptir lítinn tíma allt af mun hylia hans líkama til ens sídasta dags; svo mikid vitum vér med vissu, ad því fleiri daga vér lifum, því meir ná- lægiustum vér lífsins qvöldstundu; vér fáum þess ecki dulist ad sá þánki fyllir oss sorg og þúngsinni, ad vera nálægur daudanum, gröfinni, eilífdinni. O Gud! hvörsu markverdt er oss ei þetta? vér þurfum ecki efast um ad þad í raun réttri nálægist oss, en um hitt efunst vér: hvört vér erum svo á oss komnir, ad vér med gledi og gódri von, vogum ad renna augnum vorum til þessa, því ef ad sá yf-

ir-

kvofandi daudi, og ſú all-nálæga eilífd ecki ega ad ſkélfa oſs um of, verdum vér ad nálægiaſt þig, o vor Gud! en vor ſamvitſka, þetta hátalandi einhlýta vitni í ſiálfum oſs, ber fram ad vér enn nú ſéum lángt frá þér, og ad vér mættum verda eilíflega óluckulegir, ef vér nú værum ſvo nálægir daudanum, ad einſkis freſts eda friſtundar væri nú framar ad vænta? En ef vér nú í dag höfum í ſídaſta ſinni ſied dagſins liós hér í heiminum, og ef vér nú í ſídaſta ſinni þenktum hér til þín, o vor Gud! ef daudinn aptúrlýkti vorum vorum midt í því vér nú erum ad bidia þig, og ſídaſta ordid, er vér tölum á þeſſari ſtundu, yrdi hid ſídaſta í þeſſu lífi, o Gud! hvorſu miog bloſkrar oſs ecki þeſſi þánki og hvorſu audveldlega má þó ecki hann og þeſſi tilgáta uppfyllaſt! því, nærſta ſkiötur er allopt banvænn ſiúkdómur ad búa um ſig í mannlegu holdi, ſem ber ætíd nóg dauda tilefni í ſiálfu ſér. Og hvorſu mörg haſtarleg tilfelli, ſem lítil ſýnaſt, géta þar ad auki enda giort á þeſſu fallvalta lífi, einúngis eitt voveiflegt fall, einn ſvala-dryckur ſnögglega teigadur, einúngis ein ſmá-æd, er hrockva kann-

um-



innvortis í líkamanum, géta þess öllað
að lífs-vökvarnir missa ordulega rás, og
þá er strax vor daudi og vor dómur fyrir
höndum. Á þessari einu stundu, eptir
því, sem reiknad er ad vidberi á hvørri
og einni klucku-stundu, vænta 4 þúsund
manneskiur í heiminum síns sídasta vid-
skilnadar, og qvedia ad fullu þetta líf;
mun þad ecki mega ské, ad einhvørr vor
ástvinur, einhvørr af oss siálfum sé nú í
þessara tølu? en þó ad nú allar þessar til-
gátur brigdust, er þad þó víst ad daud-
inn kann ad yfirfalla oss á þeirri stundu,
er vér minnst væntum hans tilkomu, og
vér máské hellst væntum og óskum oss
ens lengsta lífs. Þessi óvissa um daud-
ans nálægd, skal kénna oss þann vís-
dóm, ad þenkia ætíd til daudans, og
daudans tilhugsan minna oss sífellt á þá
naudsyn, ad búa oss, sem best undir hann.
Því skyldum vér slá á frest þessu svo miøg
áríðanda verki, þared undandrátturinn
er svo hættulegur, og ókomni tíminn ó-
viss? nú á þessu augnabliki á medan vér
enn þá heyrum, enn þá siáum, enn þá
finnum, vilium vér flýta vorri umvend-
un, enn þá er hún audveld, en hvørsu
ørdug mun hún ecki verda oss, þá vér er-
um




um gamlir ordnir kvorum syndum? enn þá høfum vér krapta til ad íhuga vort apturhvarf, en hvørsu miklu þýngri mœdu mún þetta þá ecki kosta, er siúkdómar og ellinnar þúngi hafa kraptana veikt, eda jafnvel svipt oss þeim? enn þá er oss audid ad fara dag batnandi og audsýna sionarlega ávøxtu vors apturhvarfs. En þessarar gledi og heilla megum vér án vera, ef vér fyrst á daudastundunni forum ad snúa oss til Guds. Þetta augnablik er enn í voru valdi, en hvørt hid ókomna verdur þad, er misg óvíst. O Gud! lát oss víslega brúka þetta augnablik, og géfdu oss nád til ad þenkia svo alvarlega um þetta efni alla vora œfi, sem vér nú látumst þenkia. Láttu oss œ nálœgiast þig meir og meir, þá liggur oss í léttu rúmi, nœr hellst daudinn nálœgist oss, því [illegible] munum vid hans tilkomu siá vora sáluhiálp nálgast.

## XXXVII. Hugvekia.

Ef ad þér giørid gott, og lídid med þolinmœdi, svo munud þér nád finna hiá Gudi, því þar til erud þér kalladir; þared Kristur hefir og lídid fyrir ydur og lét ydur þá dœmi

 

eptir, ad þér skyldud eptirfylgia hans fót-
sporum. 1 Pét. 2.

Þessú giorvalla líferni var hid lióśasta
dæmi uppá náúngans kiærleika og
hiarta-gædsku, og þared oss er þad rinneg-
in fyrirsett, þessar dygdir ad æfa, hvört
fáum vér þá valid oss ædra dæmi til
eptirbreytni? hvörsu ástúdlega umsorg-
un bar hann ecki fyrir mannkynsins vel-
ferd? hann brúkadi sína krapta, ecki ein-
úngis til hiálpar, þegar hann var um
hiálp ákalladur, heldur vitiadi hann siálf-
ur hinna naudstoddu, og baud þeim ad-
stod sína; med miklum erfidismunum
ferdadist hann til hinna fiarlægustu stada
og vitiadi fátækustu landsbygda, svo ad
bædi meiri og minni nióta mættu hugg-
unar og hiálpar af nálægd hans. Obed-
inn kom hann hinum aumu til hiálpar
og géck umkríng til ad giora gott, hann
gaf hinum blindu sión og siúkum heilsu;
hann gaf hinum vesælustu þad, sem enn
þá var dýrmætara enn lifid ellegar líkam-
ans heilbrigdi, gaf þeim skynsemina apt-
ur, sem hana hofdu mist, og þad, sem
géck lángt yfir alla hans velgiorninga,
frelsadi þeirra aumu sálir frá myrkranna
yfir-





Yfirvaldi og syndanna þrældómi; hann lét sína tilbidiendur adnióta sinnar guddómlegu náttúru og bió þá undir eilífa sáluhiálp; hann gleymdi bædi matarnautn og allri rósemi einúngis til þess ad fornfæra siálfum sér, og láta sig á krossinn negla til mannanna velferdar; hvorki féck honum aptrad mæda í sífeldri siálfs afneitun, né lastandi túngna baktal, frá því ad halda fram erindi og sýslunum sínum; hann leitadi engra metorda, engrar lofdírdar, engra verdlauna; þad, sem hann stundadi, var eckert annad enn hans fodurs dírd, og mannanna farsæld. Þetta var øll hans laungun, þar til mídudu allir hans kappsmunir. Sá var tilgángur pínu hans og dauda. Mun nockurntíma þvílík gædska hafa til verid, sem þessi gædska? og hvornig gétum vér virdt fyrir oss þetta Jesú gódgiordasama líferni, án þess alvarlega ad óska þess, og af øllum kroptum ad keppast eptir ad vort líferni einnegin mætti svo prýdt verda mann-elsku eins og allt hans líferni? hann hefir géfid oss dæmid til eptirbreytni, vér egum ecki einúngis ad dást ad kiærleika hans, heldur og sýna hann hiá og á siálfum oss. En hvorsu

H mætti



mætti ei margur hvorr vor á medal blygdast, þá vér náqvæmar hugleidum þetta efni! Je sú líferni var rétt nefnd samanhángandi kiærleiksfédia, og vér fáum varla sýnt eda talid einúngis einn tíma vors lífs, á hvörium vér hreinann kiærleika audsýnt høfum. Hann leitadi siálfur hinna aumu, og vér forøktum þá tídum, þegar þeir leita vor; sérhvør mæda var honum þæg og þócknanleg, þegar hann einúngis feck gott giort, og vér erum tídum hardgédia og ómiskunsamir, jafnvel þá, þegar oss veitir þad, sem audveldast gott ad giora. O! þú guddómlegi manneskiu-vin! hvørsu ólíkir þér erum vér mennirnir! endurskapa þú og mýk vor hiortu, ad vér mættum þér, sem líkastir verda. Amen.

## XXXVIII. Hugvekia.

Siá þú augu Drottins líta til þeirra, sem hann óttast, sem vona á hans miskun. Psálm. 33.

Hvad mun valda því ad menn ei hafa øruggari trú til Guds enn almennt skédur? því erum vér svo tídum vantrúar-fullir og efasamir? fáum vér jordina skodad, gétum vér virdt fyrir oss himininn,





minn, án þess vér undir eins rennum augunum til siálfra vor, og blygdunst vora vantrúar-fullu efasemi? hvørr fær einúngis eitt augnablik efast um almætti Guds og gædsku, sem yfirvegar bædi hinar almennilegu og sérdeilislegu røksemdir hans gædsku og gódgirni. Einn morgunninn segir þad ødrum, og hvørr dagurinn eptir annann auglýsir þad, hvørsu stór ad eru dásemdar verk hans miskunnar. Vor umlidna æfi géfur siálf vitnisburdinn um hans gædsku, og vor egin reynsla stadfestir allt hvad segiast kann um trúfesti hans. Sólin rennur upp og gengur undir, en sannleiki Guds og trúfesti mun aldrei bregdast. Náttúrunnar gángur kann ad umbreytast, en Gud er óumbreytanlegur, og gétur þeim ómøgulega brugdist, sem setia á hann sitt traust. Hans mátt ber oss ad heidra, og dást ad hans gædsku og trúfesti; ad treysta nockrum hlut ødrum enn Gudi, er ad reida sig uppá fallvaltann grundvøll. Þegar vor Gud blessar oss, þá erum vér blessadir, blessadir í inngángi vorum og útgángi, blessadir í vøku og svefni, blessadir í lífi og dauda, blessadir í þessu og ókomnu lífi. Blessan Guds

 

vors mun undan oss gánga, svo sem leid-
arstiarna, og fylgia oss, eins og vernd-
ar-engill. Vér snúum oss því til þín, þú
almáttuga og gœdskuríka vera, því all-
ar sképnur med sameinudum kroptum
fá síst hiálpad oss; sért þú oss fiarlægur
þá megnar enginn madur, og jafnvel
enginn engill med nálægd sinni, ad verda
oss til nota. Ad þínu bodi hættir siálf
náttúran ad lidsinna oss, allt er þér aud-
veldt, þú þarft einúngis ad tala eitt ord,
og þá gengur oss allt ad óskum. Þitt
forsiónar auga sær fridad vort óróafulla
hiarta, þegar sorg og mœda geysar í voru
brióſti. Þegar þú ad eins lítur vinsam-
lega til vor, er oss í léttu rúmi, þó allur
heimurinn snúi vid oss bakinu. Stydjir þú
vor efni, þá mun oss allt ad óskum gánga.
Lát oss því einúngis setia allt vort traust
á þig, og á alls eckert vona, sem þér er
minna. Lát þína hönd æ vera yfir oss,
ætíd vardveita oss, og géf oss ætíd óhult-
um ad finna sanna hugarins rósemi und-
ir þinni forsión og handleidslu; til þín
flýium vér, lát oss því vernd finna hiá þér
mót öllu því vonda, sem vorri daudlegu
náttúru er medfylgiandi, og hvörnig er
þad mögulegt, ad þú, almáttugi Gud!
kunn-

kunnir ad yfirgéfa þá, sem vona á þína hiálp? nei! fyrr mun jördin forgánga enn þín trúfesti og sannleikur bregdist. Þú hefir lofad oss, ad þú viljir hiálpa oss; þig mun síst ydra þinna fyrirheita; med því øruggasta trúnadar-trausti um þad, ad þú viljir virda oss þinnar nádar, gaungum vér úti þad okomna og óvissa, sem þú siálfur hefir áqvardad, ad yfir oss koma skuli; og þó ad vér vissum fyrirfram allar þær óheillir, sem oss mæta kynnu, mundum vér þeim ecki framar qvída, heldur enn nú, er þær oss huldar eru, því vér høfum þá huggun ad þú viljir stýra þeim øllum til vors sannarlega besta. Þínir vegir séu svo torsóktir, sem verda mega, vér reidum oss ad øllu leiti uppá þína vegleidslu, sem mun þægt og oss heillasamt giøra allt hid óþæga, er oss á leidinni mæta kann. Okomna tídin má svo myrk vera, sem vill fyrir vorum sjónum, vér vitum ad þú munt hana upplýsa fyrir oss, og leida oss til þeirrar sælu, sem oss er ætlud og geymd. Tilfelli vor mega svo sérleg, svo undarleg vera, sem vilia, vér vilium þó fagna í þér, o vor Gud! og gledia oss vid vora sáluhiálp, sem fyrir høndum er.



# XXXIX. Hugvekia.

Vona þú á Drottinn og gior hvad gott er.
Psalm. 37.

Hvörsu stór lucka er þad eigi fyrir oss ad vita Guds forsión til vera, á hvöria vér setia þorum óhult trúnadar-traust? hvör finnis róssemi og sálar ánægia má stærri vera, enn sú, sem grundvallast á þeirri fullvissu, ad ein óskylileg vera beri umsorgun fyrir oss, sem er óendanlega nádug, vís og almáttug? gétum vér haft nockra vissari von, enn þegar vér felum oss á vald þeim Gudi, sem þegar bar umönnun fyrir oss þegar vér vórum í módurlífi, og sem fyrirfram hefir umhugsad og áqvardad allt þad, sem vér vidþurfa mundum alla æfi vora? sem talid hefir alla vora daga, og fyrirfram lagt grundvöllinn til allrar vorrar lucku, sett vorum óluckulegu tilfellum takmörk og stýrt þeim oss til lucku? kann nockur lucka meiri ad vera enn sú, sem grundvöllud er á þessari trú, þessari fullvissu? og hvörs vegna veitir þér þá svo örduglt, sála mín! ad láta sannfærast hér um? yfirvegadu eginlegleika þíns Guds, sem hefir skapad þig og híngad til vidhaldid þér; líttú

til

til Jesú, af hvorium þú vænta mátt alls frelsis í þessu og ókomnu lífi; yfirvegadu þau dýrmætu fyrirheit, sem hinn trúfasti Gud hefir gèfid þèr í sínu ordi; yfirvegadu hvornig þeim hefir vegnad, sem hafa reidt sig upá Gud, og lærdu af øllu þessu, ad sá almáttugi ber umhyggiu fyrir þèr med fødurlegri trygd og guddómlegum vísdómi. Vèr høfum fullkomna røksemd fyrir þessum sannleika, vèr mættum annars efa allt, iá, ad solin sè biört og ad vèr siálfir sèum til, ef vèr í nockru efa vildum forsión vors Guds; vèr hliótum því ad audsýna vora trú í verkinu, og þegar í dag ad sleppa øllu rýli og gýlda fyrir þeim ókomnu døgum; vèr skulum lifa eins og þessi fullvissa krefur, ad sonnu varlega, og med forsiálni, en þó áhyggiulausir og gladsinna, og fela oss og oll vor efni á vald Guds; vèr skulum hegda oss, sem hlýdin børn og øldúngis reida oss á umhyggiu vors vísdómsfulla og náduga fødurs, sem elskar oss heitt, og vill alla þá umønnun fyrir oss bera, sem hann sier oss vidþurfa og oss fyrir bestu; þá audsveipnustu hlýdni egum vèr ad veita øllum hans bodordum, og fyrir engu ødru umhyggiu ad bera enn



þ⸗l eina ad vér æfum þær ſkyldur, ſem hann krefur af oſs. Já, þó oſs ſýnaſt mætti einhvorn tíma ad hann ſvipti oſs ſinni náð, megum vér ſamt ſem ádur ecki láta hugfallaſt heldur allt eins ör⸗uggir og Job var undir hans þiáning⸗um, jafnan taka oſs þau ord í munn: aldrei ſkal eg afláta, uns mín endalykt kémur, ad vona á Drottinn, og þó hann deydi mig, ſkal eg ſamt á hann vona. Fengium vér ad eins innrætt vorri ſálu þetta gudrækilega ſinnislag, mundu alls engin líſſins umſkipti edur umbreyting⸗ar, engin ólucku tilfelli, ſem oſs mæta eda vér qvídum fyrir, koma vorri von til ad ſkeika, ellegar deyfa vort trúnad⸗ar⸗trauſt í hvorri hellſt óróſemi og bilt⸗ingum, ſem ad koma mættu; midt í hinum qvídvænleguſtu ólucku tilfellum, mundum vér gladir og hughrauſtir vard⸗veita ſtoduga þolinmædi í ſálum vorum, og engu ad ſídur nióta þeſſa líſs med á⸗nægiu; vér mundum þá heldur ecki var⸗ir verda vid nockra þá nærverandi óró⸗ſemi, ſem ſvo mikinn fiölda manna hrelſa kann á þeſſum tíma; príſa mundum vér þá Gud, fyrir þad lidna líf, gledia oſs í því nálæga og qvídalauſir vænta hins

ókomna

ókomna, sem í hønd fer. O Gud! virdstú ad styrkia oss í þessari trú, og giora oss hæfari og verdugri þinnar nádar-ríku unnsionar. Amen.

## XL. Hugvekia.

Svo skal ei framar nockur neyd, né heldur þessa
líkhams deyd, mér frá þér megna' ad venda,
o Jesú! eg er ástkiær þér, elska vil eg þig
stodugt hér, en annars heims án enda,
send mér, sem þér þócknast glédi þiáníng
medur, þig alvísann, eg vil þó jafnan í
øllu prísa.

Svo lengi, sem vér lifum í heimi þessum, megum vér sífeldt búast vid því, ad ógédfeld tilfelli veri einneginn oss ad høndum; ad óska sér einúngis óblandadra ánægiu daga hér í lífi, þad væri ad krefia þess, sem ómøgulegt er í svo umbreytíngasømum heimi, sem þessum, hvørn vér byggium; þad væri og jafnframt hættulegt fyrir vora sønnu velferd. Þared vor líkami er eptir náttúru sinni yfrid veikur, vor skynsemi miøg slió, enn girndir vorar svo ósediandi; þared margir þeir, sem vér hlíotum ad umgángast í heiminum, eru svo ótryggvir, egingiarn-



ir og kiærleikslausir, og allir hlutir umhverfis oss æ svo óstødugir, svo svipulir, já, siálfir vér egum einúngis skamma tíd fyrir høndum ad lifa hér á jørdunni; hvørsu megum vér þá vænta þess, ad lífsstundir vorar blandist ecki ødruhvøriu med ógédfeldum augnablikum? og þó þad møgulegt væri, ad vér gætum fríir ordid fyrir øllu ógédfeldu, hvørsu óholl mundi ecki sú sífelda lucka vorn andlega ásigkomulagi? í hvørsu gudlausu andvaraleysi, mundum vér þá ecki framana! hvørsu lítid mundum vér þá skeyta um Gud, æfilok vor og eilífdina! því er midur! vér verdum þess varir hiá siálfum oss, hvørsu vidvarandi óbløndud lucka blæs oss upp og giørir tilfinníngarlausa, vid sérhvøria kristinndómsins advørun og áminníngu; hvørsu miklu skadvænni mundi þá ei fyrir oss enn þá meiri og varanlegri lucka! o! hvad megum vér þá ecki þacka þér, vor gódi Gud! ad þú høndlar svo nádarsamlega vid oss, ad audmýkia oss ástundum med eymda og mótlætis tilfellum; sérhvørr af oss má efalaust vidurkénna ad, ef ad vidvarandi lífsins lystisemdir og ánægia, hefdu sífellt fallid í vort skaut, mundum vér

sann-

sannarlega á þessari stundu ei hafa hugsad til þín; í þess stad mundum vér miklu heldur hafa látid oss umhugad ad halda áfram í syndum og löstum, enn leita vorrar gledi í umgengni med þér. Lofadur vertú því, elskulegi Fadir! fyrir þad ástand, hvörs þú unntir oss; med andmiúkri lotníngu og þacklæti kyssum vér á þína fødur-hønd, sem úthlutad hefir oss fá-ein mædu augnablik mót svo mørgum gledistundum; og þó eru vissulega þeir sorgar-dagar fáir, sem vér høfum lifad, og vort mótlæti léttbært, þegar vér samanberum þad vid margra annara medbrædra. Vér þurfum einúngis ad renna augum vorum til margra siúkra og sárra vesælínga, margra fátækra adstodarlausra, sem vér vitum ásamt oss lifa í heimi þessum, og þá munum vér þess brádlega varir verda, ad margur einn hefdi fullt efni til ad sfinda oss af vorri léttbæru byrdi. Vér høfum góda heilsu og heilbrigdi, eda vér lifum med glodu ánægdu hiarta, ellegar egum trúann, einlægann ástvin, hvort af þessu fyrir-sig, má giøra oss íhaldna, þó vér høfum þad ei allt saman. Vér viljum því engannveginn mögla né orvhylnast fyrir

 

ir þad, þó Gudi þóckniſt ad láta oſs nockra en litla hlutdeild fá þeirrar mædu og eymda, ſem hann af nádar-ríkum tilgángt hefir úthlutad þeſſari jørdu. Hvørr veit hvada mótlætíngum vér egum enn þá vid ad búaſt í þeſſu lífi, hvøriar, helſt, ſem þær verda, vilium vér þeirra bída, og ſtyrkia vort hiarta med øruggri von til hans, ſem útbýtir þeim. Þarum erum vér fyrirfram fulltrúa, ad þó ad Gud hafi áqvardad oſs nockrar þiáníngar, hefir hann undir eins áqvardad huggun og endurnæríngu oſs til handa. Fortakslauſt vogum vér í þeim kríngumſtædum ad vænta alls góds af hans nádar-ríku forſión; og þó ad nockud af þeſſu bregdaſt kynni, ſem vér nú í voninni huggum oſs vid, er þó hitt víſt uppá ad byggia, ad daudinn mun eilíflega ſvipta oſs øllum eymdum. O vor Gud! vér ſkulum framgánga med þeim ſtodugа áſetníngi, ad leggia oſs med audſveipni og audmýkt undir þína vísdómsfullu og fodurlegu ſtiórnun; hafir þú áqvardad oſs blída medlætis daga, viliun vér kappkoſta ad brúka þá med þacklæti; en hafi þitt víſa rád, heldur valid oſs ſorglega tíma, ſkulum vér einnegin taka þeim fúſir, og

príſa

prísa þig eins fyrir þá, og med þolinmædi, von og viliugri undirgéfni legg-ia oss undir þína fødur-hønd, sem aldrei úthlutar sínum børnum ødru enn því, sem gott er, og þeim heilsusamlegt.

## XLI. Hugvekia.

Min hiálp kémur frá Drottni, sem skapad hefir himin og iord. Psálm. 121.

Ef ad vér einúngis ættum ad reida oss á vora egin krapta, ef ad vér þyrdum ecki ad trúa á þann Gud, sem gior-valla náttúrunna hefir í sinni hendi, sem nidur-radar hlutanna gángi, sem ber umsión fyrir øllu því, er hann skapad hefir, og stýrir øllum tilfellum med vísdómi og gædsku, og ef vér ecki vissum ad þessi almáttugi skapari væri vor líknsamur Gud og fadir, hvad mundi þá af oss verda í heiminum? eckert hæli hefdum vér þá í naudunum, enga huggun í sorginni, enga ánægiu í luckunni, og enga róssemi í daudanum. O! hvørsu aumir værum vér þá! hvørsu óluckulega glatadir! betra væri oss þá aldrei ad hafa verid til, enn þanninn ad hrekiast um í heiminum án Guds; o! hvørsu óttaleg-

ur



ur mætti oss ei vera sá þánki, hvornig kynnum vér med gledi ad siá dagsins liós, hvornin gætum vér án sorgar risid úr reckium ad morgni dags, eda lagt oss til hvíldar ad qvøldi, ef vér ecki gætum giort þá skýlausu játníngu: eg trúi á Gud almáttugann Skapara himins og jardar? en þared vér nú trúum þessu, og Guds Andi kroptuglega sannfærir oss þar um, mega hvør hellst tilfelli mæta sem vilia, vér munum samt óqvídnir og rólegir taka þeim vandrædum, sem ad høndum bera. Vér skélfumst þá háskasømu tíma, sem ad koma kunna, en Gud gétur á einu augabragdi umbreytt hlutanna óttalegasta útliti, og jafnvel þó heimurinn torthýndist, verdur þó Gud vort hæli og styrkleiki alla tíma. Ef ad vér skélfunst offóknir vorra óvina, hatur og vondsku, er Gud þó fullmáttugur ad skýla oss og vardveita, mýkia og yfirvinna vondskufullar áráser vorra offóknara; séum vér í háska vegna vondra manna heimuglegra svikræda, gétur Gud þó giort þeirra svikrædi ad engu, því hiá honum er styrkleiki og vísdómur; heimsæki oss fátækt og skortur, er þó Gud sá, sem hefir einnin þessi tilfelli




felli í sinni hendi, og hann fær umbreytt fátækt og skorti til ríkdóms og nægta. Ef ad vér follum í skiæda siúkdóma, svo ad vor náttúra hlýtur ad berjast vid dauðann, vér høfum eingu ad sídur øruggann móð, þvíad Gud fær oss ecki yfirgéfid þegar vér ad eins vonum á hann; hann mun giøra vora siúkdóms þiáníngu þolanlega, endurnæra vort sorgmædda sinni, glédia vort hiarta med sinni huggun, vardveita oss í þess sídasta óvinar yfirfalli, og medtaka vorar sálir í sitt miskunar-skaut. Þannin megum vér rósamir og óqvídnir vera í øllum tilfellum, og glédiast vid vors Guds nádugu stiórnun. Sá, sem stýrir heiminum er miøg mildirkur Gud, sem elskar oss, hvors gledi er ad giøra gott, og sem fær hiálpad oss og verndad þó alls heimsins veldi giørdi samtøk oss á móti, hans augu vaka yfir oss dag og nótt, og midt í hans reidi, sem vér med syndum vorum høfum verdskuldad, minnist hann sinnar miskunar og nádar fyrir Jesúm Krist. Svo hátt upphafinn, sem hann er, lítur hann þó nidur til hinna lítilmótlegu, og miskunar sig yfir þá aumu og hinar vesælustu sképnur sínar. Halleluja! þvi Drott-



Drottinn, sá almáttugi Gud, stiórnar med gædsku og vísdómi! vér viliumi fagna og vera gladir, og géfa Gudi dírdina. Þitt ord, o vor Gud! er öll vor huggun, þad er vor lífs-regla, uns vér fáum ad sýngia þínu nafni lof og eilíft Hallelúja í Engla og útvaldra sambúdum.

## XLII. Hugvekia.

Rósom samvitska' ef er ad eins eign mín, hvad
kann þá bloskra mér? hvad fær þá ordid
mér til meins, megn þegar qvídi adra sker?

Þú leitar ad rósemi, sála mín! en þad er stadreyndur sannleiki, ad þú fær hana ecki fundid hiá nockrum skopudum hlutum, því sídur hiá siálfri þér. Settu því fyrst til sídu alla þá hluti, sem líf þitt giöra svo órólegt, og hiarta þitt svo ángurvært, hefir þú séd nockurn ágiarnann sífeldlega gladann? þeckir þú nockurn medal þeirra voldugu á iördu, sem endi svo æfi sína, ad ei sé hann tídum svikinn, verdi opt ángurvær og siálfum sér til leidinda? til hvörrar eldíngar gétur hann sagt: þú skalt ecki hitta mig? og, staddur í ólgu-sió, til hvörrar brúsandi bylgiu hrópad: þú skalt ecki dreckia mér?

mér? lærdu þó ad þeckia þinn vanmátt, eda megnar þú ad bióda luckunni ad fylgia þér, og óluckunni, ad ſkada þig ecki? kalladu á vortímann, ad hann enn þá bídi vid; bíod þú blómſturſins fegurd, ad hún ecki ſvo haſtarlega fölni, en þetta mun ecki hlýda þér og þú mátt ſífellt róſemdar ſakna; yfirgéfdu því ſképnurnar og leitadu Skaparans, leggdu giorvalla byrdina, ſem á þér liggur, hvorſu þúng ſem hún er, uppá hann, og láttu þig af honum endurnæra, þá máttu allra hluta vona, án þeſs ad verda á tálar dregin í von þinni. Þær ſyndſamlegu girndir, þær óleyfilegu óſkir, ſú lockandi vellyſt, mátalaus ſiálfs-elſka og allt þad, ſem eykur þér qvöl, mun þá frá þér flýia, og þú munt gladur verda vid hiálp Guds og vardveitſlu; róſemd og birta mun þig umkríngia, og dagar þínir og nætur munu biartari verda enn vordaganna ſólſkin. Sífellt muntu ánægdur vera med Guds þíns vilia, og eins láta þér nægia þinn deilda verd, eins og þó ættir öll ríki veraldarinnar og þeirra dírd. Fögnudur hins betra og komanda lífs, mun giora þér allſslags umbreytíngar, óróſemi, og mótlæti léttbært. O

 mín

mín sála! þú, sem á þessari stundu girn-
ist máské rósemi, færdu þér þessi medol í
nyt, sem uppfylla munu þínar óskir;
leitadu ecki rósemdar í hvílíkum hlutum,
sem ad sönnu svæfa kunna hiarta þitt,
og giøra þad tilfinníngarlaust, en fylla
þad ecki neinum varanlegum fridi og ró-
semi. Settu þér tídum rétt skírlega fyr-
ir húgskots siónir hina sídustu umbreyt-
íngu, sem þú nálgast. Hvad helst, sem
ecki fær huggad þig í daudanum, þad er
eckert og vissulega eckert varanlegt gott,
en hitt, sem má giøra þér daudann vær-
ann, þad er medalid, sem einnig kann
ad giøra þitt líf inndælt, og eckert, øld-
úngis eckert annad, enn góð samvitska
fær þetta afrekad. Stundadu þess vegna,
ad ødlast þenna dýrgrip, þá muntu þar
med finna allt annad samtengt, sem
giøra má þig ad luckulegri og ánægdri
manneskiu; góð samvitska mun vera þér
skioldur, á móti øllum mótgángi, hún
mun giøra þér þessa lífs gledi yndislega
já, einnig eymd þinnar útlegdar þolan-
lega. O Gud! aldrei fáum vér bedid
þig um dýrmætari blessun, enn góda sam-
vitsku. Þau táfelli, sem þú áqvardad
hefir ad oss mæta skuli, mega vera svo á-
síg-

ſigkomin, ſem vilia, daudinn má adkoma þegar þér þócknaſt, vér erum engannveg-inn aumkunarverdir, þegar vér ad eins egum góda ſamviſku. Styrk oſs til ad ødlaſt og vardveita hana, o vor gódi Fad-ir! fyrir Jeſúm Kriſtum! Amen.

## XLIII. Hugvekia.

### Gud er allſtadar!

Hvilíkur þánki er þad ecki, þegar vér íhugum heimſins ſtóru byggíngu, þegar vér vitum ad einhvørr hlutur eda líkami, ſem med hradaſta flugi héldi á-fram ferd ſinni, þyrfti meir enn 20 ára tíma til ad fá komiſt til ſólarinnar! þeg-ar vér hugleidum ad ſtiarnanna óteliau-legi fiøldi er einúngis ſólir, ſem ſýnaſt vſs eins og ſmáir lýſandi púnktar, vegna þeſs ad þeir eru oſs ſvo miklu fiarlægari, enn vor ſól, hvørſu ógrípanlegur má oſs þa ecki vera ſá þánki, ad Gud gagnſkodi gior-valla verøldina, eins hennar minnſtu parta! ad hann er nærverandi øllum verøldum, ad hann veit allt hvad vid-vikur ſérhvørri, jafnvel minnſtu ſképnu ſinni! en hvørſu ſem ſkynſemin fellur ſ ſtaus vid þenna þánka, er þó ſá ſann-

 leiki



leiki óbrigdull: Gud er allstadar; Gud er nálægur giorvøllum heimi, og hann er einninn nálægur oss. Eda mun þá sá gódi Gud, sem svo vísdómslega tilbúid hefir allann heiminn, eins þann audvirdilegasta orm, ecki hafa til ad bera vísdóm og speki nóga til ad þeckia alla hluti? mundi andanna Skapari ecki vita sálarinnar þánka og ásetníng? hvad fær hinn óndanlega innilukt? hvad hinum ómælilega takmork sett? hvør speki má hinn allravísasta bresta? hvør makt fær hinum almáttuga apturhaldid? maklega mátt þú falla í diúpustu undrun, sála mín! er þú hugleidir þetta; hvørr má, sem ber, dást ad mikilleik þvílíkrar speki, sem med einu Guddóms tilliti siér og granskodar allra hluta bygginngu, sem veit og þeckir allt, sem telur allar himinsins stiørnur, og undir eins hárin á þínu hofdi? hvørr má, sem ber, dást ad stærd þess máttar, sem verkandi er á øllum stødum og í øllum alheima endimørkum, sem skapadi orminn, forsorgar hann og titlínginn, og undir eins vidheldur sólu og stiørnum um giørvallar aldir þeirra? en, þó ad þig, mín sál! furdi þessi óútmálanlega hátign, ber þér





ollu framar ad láta þessa saunleika vidurkénníngu, verka heilsusama umbreytíngu þíns hugarfars; veri þér æ í vakanda minni allstadar nálægd og alvitska þíns Guds; hugleid þú ydulega ad Guds tillit þreyngir sér inní innstu fylsni þíns hiarta, og ad hann sier eina og sérhvoria lystíngu, er qviknar í þínum huga, sérhvoria girnd, og sérhvoria tilknýandi orsök þinna athafna; hugleid þú og ad enginn stadur er svo fiarlægur, enginn afkymi svo dymmur, hvar hann ecki sé nálægur og siái þín verk; fái þá þvílíkar hugleidíngar haldid þér aptur frá vondu, munu þær verda þér huggunaruppspretta, sem aldrei uppþornar. Sú hugleidíng um þinn allstadar nálæga Gud, mun upplífga þig, þegar þú grætur í einrúmi; þegar þú stynur undir þeim mótlætínga þúnga, sem þú ecki mátt ödrum opinbera, né vænta þér hiálpar þar med. Þú munt í ollum umbreytíngum verda þaraf styrkur, hvört, sem þú fer og flækist, gengur þú allstadar fram undir umsión þess Guds, hvörs bodi og banni himin og iord verda ad hlýda. Hann, sem frá sínum veldisstóli lítur ofan til allra, sem á jordunni

 bygg-



byggia, og stiórnar øllum sínum sképnum med vísdómi og gœdsku, hann ber óendanlega umhyggiu fyrir þinni frelsun, þinni sáluhiálp. Þegar ótti Drottins ætíd og allstadar vísar þér veg, og þú framqvæmir þad, sem hans Anda er þócknanlegt, hvorsu óhultur, hvorsu farsæll framgengur þú þá ecki á øllum þínum vegum, uns þér á sídan audnast hlutdeild í himninum! Send þú oss, trúfasti Fadir! þína nád til svo ad framgánga hér, ad vér verdugir finnast mættum, þinnar trúfostu vegleidslu og umsiónar, á medan vér lifum. Amen.

## XLIV. Hugvekia.

Vitid þér ecki, ad heimsins vinátta er Guds óvinátta? Því hvørr, sem vill vera heimsins vinur, verdur Guds óvinur. Jac. 4.

En erum vér þá í nád vid Gud? þarum megum vér fullvissir vera, þegar vér eckert þad adhøfumst, sem ollir oss hans óvináttu, og því skyldum vér ei varast ad brióta af oss vináttu Guds? þess Guds, sem giort hefir oss svo margt og svo mikid gott, sem géfid hefir oss þetta tímanlega líf, og heitid oss hinu eilífa?

þessa Guds, sem í sérhvöriu tilliti sýnir sig ad vera vor trúfasti vinur og velgiörari, já, vor ástríkur Fadir? samt sem ádur, þó vér af reynslunni þeckium Gud þvílíkann, fáum vér samt, því midur! ecki med sonnu játad um oss, ad vér jafnan séum fullkomlega ánægdir med alla vegi vors Guds og hans mildu skipanir, svo vér þess vegna maklega mættum efast um hans nád og vináttu, sem vér þar med svo þrálega af oss briótum. AE! látum oss því ollu ómaki betur enn híngad til veria til þess ad læra ad þeckia bodord vors Guds, og hans trúfostu vegleidslu, sem hvorttveggia er fullkomid og gott, þó oss ecki ætíd sýnist samsvara tilhneigíngu vorri; sú þecking mun sannfæra oss um ad oll verk og rádstafanir Guds er'u oss heilla- og ábata-samir. Vér munum þar vid fríast frá óánægiu yfir Guds rádstofunum, og því sídur efast um þad, ad vér séum í vináttu vid Gud, já, fridþægdir vid Gud fyrir hans Son og vorn Lausnara Jesúm. O! hvörsu farsælir erum vér þá! hvörsu lítils-vird er oss þá ecki oll sú heims lucka, sem menn almennast képpast eptir án Guds og medtaka án þess ad þacka honum



um! med hvílíkri medaumkun megum vér þá ecki virda þá fyrir oss, sem fÿkiast eptir luckn án þess ad láta sig nockud varda um Guds nád edur hans kiærleika, og giora sér í lund ad þeir ná muni fullkominni sinnis ánægiu og rósemd í þessum heimi af stundlegum hlutum? séum vér í nád vid Gud, má giörvallur heimurinn vera svo óánægdur med oss, sem vill, því hann fær oss alls ecki grandad ámedan hann ecki orkar ad svipta oss Guds náð; margir finnast og vissulega á medal manna gódsinnadir og unnandi dygdinni sannmæla og verdskuldads heidurs, hvörium enga orsök ber ad géfa til klögunar eda reidi gégn oss; en sérhvörr íllqvittni, sem ecki mætir oss nema af þeim vondu, er allt færa á verra veg, mun skyndilega hiadna, sem bóla vatns fyrir vindi, og þad má jafnvel nóg verda til ad giöra oss vini, þó vort góda hiartalag og kristilega framferdi ecki væri alkunnugt ádur, ecki skínandi í sérhvörs augum, ellegar vor gódverk ecki fengiu enn þá lÿst fyrir mönnum; þad skal oss þá nægia í leyndum gott ad giora, ecki svo fyrir manna siónum, sem fyrir hans augum, sem sier hvad í leyni skédur.

Þegar

Þegar hann álítur oss í náð, er oss fyrir minnstu, þó oss bresti lofstír af mönnum, já, sé Gud ánægdur med oss, og ef vor tímanlega lucka krefdi ad hid góda, sem finna mætti í fari voru, yrdi hér kunnugt, veitir hans forsjón alhægt þetta í liós ad leida. Því skal oss um eckert svo umhugad, sem ad ødlast þá fullvissu, ad Gud sé ánægdur med oss. Því skulum vér allt þad ástunda, er þartil verka má, af øllum mætti; vid sérhvort fyrirtæki, í hvoriu helst standi, sem vér erum, skulum vér einatt adspyria vort hiarta: mun Gud vera med þig ánægdur? en verdum vér nockurs þess varir hiá oss, sem bægia megi frá oss Guds náð, edur vér fyrir þad hana missa, skulum vér láta oss hiartanlega ydra þess, hata og fordast þad framvegis, en med stødugum betrunar ásetníngi vanda vort liferni á komandi tímanum, og fyrir vor afbrot leita líknar hiá Jesú, fyrir hvørs blód, edur pínu og dauda, vér ydrandi vænta megum fyrirgéfníngar, og med þeirri trú ødlast fullvissuna um náð Guds. Vér skulum einnig kostgæfilega ástunda ad vardveita þessa luckú, stunda ad allt vort framferdi ávinni oss vors

 Guds



Guds og Jesú kiærleika; hann sé vort stöduga mark og mid, þá munum vér niótandi verda þeirrar yfirgnæfandi farsældar, eins í siálfum daudanum ad voga ad reida oss á vinfengi Guds. Hvílík blessan mun þad ei fyrir oss, þá ad mega ieya, sem Guds vinir, og sem hans óska-börn! þá mun óblondud gledi fylgia vorri fullvissu: um oss fyrirbúna inngaungu í annann æskilegri heim, hvar Gud eilíflega vera mun vor vinur, og vér eilíflega verdum hans eign.

## XLV. Hugvekia.

Herra, bænheyrdu mig á neydarinnar degi! nafnid Guds Jacobs frelsi mig. Psálm. 20.

Hvörr dagur hefir sína þiáníngu, en sérhvörr dagur færir oss einnig sérlega velgiörnínga; til ad sannfærast þarum þarftu, sála mín! einúngis ad samlíkia þinni daglegu eymd vid þína daglegu lucku; hvad höfum vér daglega ad bera? vér finnum máské til erfidisins þúnga, máské fátæktarinnar örduglеika, vér lídum máské baktal eda órétt af mönnum, máské vér finnum hvörsu þúngt veitir ad bera veikann líkama, hvörsu þúngt ad

spornа




spørna og slá vid syndum, ellegar máské önnur heimugleg eymd, huld sorg, neydi oss til ad qveina og andvarpa sárlega. Þó vér nú reyna mættum eitthvad af þvílíkum bágindum, og þó oss mættu þau öll sérhvørn dag, megum vér samt vidurkénna, ad sérhvørr dagur ber oss sína blessun. Einn sólar-geisli, sem vermir oss, einn dryckur, sem svalar oss, einn braudbiti, sem sefar vort húngur, svefninn, sem endurnærir oss, vinurinn, í hvørs fadmi vér lifum ánægdir, allt þetta er oss blessan; sérhvørn dag umlídur oss Guds þolinmædi, sérhvørn dag verkar hans andi í vorum hiørtum, sérhvørn dag megum vér bidia vorn Gud; þetta er vor daglega ánægia, og hvílíka gledi gefur oss ecki hans margvísleg nádar-rádstafan? gledilegar, gédþeckar fregnir, fenginn sigur yfir hiarta voru, óvænt lucka og jafnvel þær heillir, sem vér ødlast megum af siálfu mótlætinu, ad verda audmiúkir, vitrir, þolinmódir vid reynsluna, er allt þetta tilsamans og hvad eitt sérílagi ecki sannarleg lucka? er þá sérhvørr dagur, sem vér lifum, eckí sannur velgiørníngur vid oss? vér segium: vort líf er stutt, en einn dagur er

þó



þó styttri enn allt lífid, og ein þiánfng opt styttri enn heill dagur, en Guds nád varir eilíflega; o! ad vér mættum vid þessar hugleidíngar venjast af ad qvarta um skor fram, þó eitthvort mótlæti oss ad hondum beri, eda þó vér ei alltaf bodum í rósum! o! ad vér vildum eins náqvæmlega telia fram Guds velgiorníngа vid oss, eins og vér giorum oss ómak fyrir ad auka vora qvøl og margfalda vorar egin þiánlngar! engann dag lifum vér þann, ad oss vanti tækifæri til ad íhuga gædsku vors himneska Fødurs; séum vér ad eins eptirtektasamir um hans fødurlegu rádstafanir munum vér á hvørium og einum degi vors lífs, hvørsu mædusamur og mótlætíngafullur, sem hann verda má, þó finna nóg efni til ad prísa og losa hann, því ber oss ætíd ad vera ánægdum med hans stiórnun, og í øllum tilfellum halda oss fast vid hann í von og þolinmædi. O mín sál! haldtú þá hóf í øllum umqvørtunum, því hvad er þad, sem hriggir þig? máské jardnesk og fánýt gledi, sem sá alvísi hefir þig svipt? máské eitt ólucku tilfelli, sem Gud hand verda þér ad enn meiri luckn? máské einhvør hindrun þinnar velgengni, sem síd-

sídar má þéna þér til góðs, og þó viltu qvarta og klaga? nei, vertu æ hughraust og vonaðu á Drottinn. Gleymdu því aldrei hvorsu gott Guð giorir þér jafnvel þá, er hann þig typtar; yfirvegaðu jafnan þína áqvorðun og Guðs tilgáng með því að bæta þér við í heiminum; umbreytíngar þíns lífs, ega að minna þig á heimsins fallvalta óstöðugleika og himinsins óraskanlegu gleði. Senn mun eilífðarinnar dagur upprenna þér og þá mun engin þiáning, eckert andstreymi framar til vera heldur einber lucka; engar typtanir, heldur einskiær náð; engar andvarpanir, heldur lofsaungvar einir; þá muntu gleyma allri sorg, og þó þú minnist hennar, muntu samt gleðia þig þar við, að hvorr dagurinn, sem þú lifðir hér, hafði þér til betrunar, þér til uppvaknúngar og lærdóms einnin nockra þiáníngu meðferðis.

## XLVI. Hugvekia.

Hvorr, sem nú veit nockuð gott að giöra, og giörir það ecki, honum er það synd. Jac. 4.

Hvorsu margar stundir munum vér ecki mega halda tapaðar, þegar Herrann



ann lokſins krefur reikníngs fyrir þær? mun hvørr einn af oſs þá framkoma þorá fyrir dómarann og ſegia: Herra! eg heſi á ſérhvørri ſtundu giört þad þú baudſt mér? má ecki miklu framar margur á medal vor hinu qvída, ad hans ſanna játníng verdi: ſvo margar þúſundir ſtunda heſi eg aflifad, og á medal þeirra ſvo margar, á hvørium eg heſi eckert giört, en eydt enn fleirum med ſyndſamlegu athæfi? hvørſu margar ſtundir heſi eg ecki brúkad til ad ſedia mínar girndir, og þeſſar ſtundir eru tapadar? hvørſu margar eru ei þær ſtundir, á hvørium eg forſómad heſi þad góda, ſem eg var ſkuldbundinn ad giora, og hafdi ſvo margfaldt tækifæri til, og þeſſar ſtundir eru tapadir? hvørſu mørgum ſtundum heſi eg ecki varid til ónytſamlegra og fáfengilegra fyrirtækia, og þær ſtundir eru einninn tapadar? hvørſu margar ſtundir heſi eg ecki brúkad til þvílíkra hluta, ſem ad ſonnu áttu ad gioraſt, en vóru þó ecki giordir í þeim tilgángi ad víðfrægia Guds dírd og efla vorra medbrædra heillir, einnig þær ſtundir eru tapadar? hvørſu mørgum ſtundum eyddi eg ecki til þeirra hluta, ſem ad ſonnu vóru ſynd-

syndlausir en urdu syndsamlegir þar-ed þeir geugu út yfir takmørkin, sem Guds bodord høfdu mér fyrirsett, og þær stundir eru tapadar? og þegar vér einlæglega ransøkum vort umlidna líf, vóru þá ecki flestar vorar æfi-stundir þannig ásigkomnar? megum vér þá ecki giøra þá sorglegu játníngu, ad flestar vorir stundir séu ílla sóadar? en hvørsu margar stundir munum vér eptir ega enn þá, til ad útsóa þannig? munum vér enn þá ega svo margar stundir ólifadar, ad vér endurkeypt fáum vora svolludu tíd? máské vér valla enn þá egum eptir áttunda part ad lifa mót þeim stundum, sem vér híngad til eyddum; máské oss nú ad eins sé þessi stund leyfd; æ! látum oss þá brúka þetta augnablik til þess ad ydrast vorrar vanbrúkunar umlidnu stundanna, og med allri alvørugéfni þenkia til þeirra komandi! því færri, sem þær vera kunna, því dýrmætari skulu þær oss; med tvøfaldri umhyggiu vilium vér þær brúka og ei láta oss úr minni lída þann tilgáng, sem vort giørvalla líf hafa á, sem er ad búa oss sem best undir þá laungu eilífd, svo ad vér í henni ødlast mættum eilífa farsæld.

Allt



Allt af vilium vér ſetia oſs Jeſú dæmi fyrir ſiónir, ſem enga eina ſtund forſómadi af þeim honum géfnar vóru hér á jördu; ydnir ſkulum vér vera í því góda, ámedan þad heitir enn þá í dag. Daudans nótt dregur yfir þegar minnſt varir, og þá fær enginn lengur erfidad, en audveldlega gétur miſſir einnar ſtundar giort oſs eilífleg a óſarſæla. Ecki ſkulum vér giora oſs áhyggiu um þad, þó marga ſorgar-ſtund beri ád höndum oſs, því framar reyniſt vor dygd, því hreinni verdur vor ánægia, því ſtærri verda vor laun; vér munum finna endurgiald allra velbrúkadra ſtunda á ſídan í himninum. En þú, o Jeſú! hvors giörvalla líf var ſvo óſtraffanlegt, og eim hreinna, heldur enn ſú ſtund, hvoria hinn heilagaſti vor fær beſt lifad, láttu allann grandvarlegleika, allann verdugleika þíns heilaga lífs, forlíka fyrir allar vorar til ílls og ónýtis eyddu æfi-ſtundir; géfdu oſs nád til á þeſſari ſtundu og jafnan ad hugleida og giora þad eina, ſem heyri til vors fridar; og ſvo þeſſi ſtund er vor nádar-ſtund, gior þú oſs hæfilega til ad lifa þannig, ad þeſſi ſtund verdi oſs ecki til ótta í daudanum, né til áfellis fyrir þínum dómſtóli í eilífdinni! bænheyr þad, o! Jeſú! Amen.

XLVII.




# XLVII. Hugvekia.

Allir vegir Drottins eru einskiær miskun og sannleiki, fyrir þá, sem vardveita hans sáttmála og vitnisburd. Psálm. 25.

Ysrid morg dymm og sorgleg tilfelli eru samtvinnud í voru lifi hér í heimi, vér vitum enn þá ecki, hvort þeir vegir muni oss leida, á hvorium Guds forsión' býdur oss ad gánga. Vér siáum fyrirætlanir enn þá óframqvæmdar, torfærur, sem bágar sýnast yfirferdar; vér verdum nockurra tilfella varir med framtíd, sem virdast gagnstæd nádarríkum tilgângi Guds, og þvílíkrar útbitingar hans velgiorninga, sem vekur opt ad eins sorglegann eptirþánka hiá oss; margir vorra medbrædra í heiminum, sýnast oss nád hafa í ydinleysi og lostum, girnileguftu luckn, hvoria vér med ollu því ómaki, vér til eins sama vordum, aldrei fáum odlast. Vér siáum þarna einn heilbrigdann midt í svalli og óhófi, en hér annann beigdann af kromm og veikindum med allri hans hóffsemi; vér siáum einn virdtann, elskadann, vel metinn, þó med litlum edur engum yfirburdum yfir hvorn óvalinn mann, en

 þar-



þaránót margann rádvandann og dugandis mann, af mørgum hatadann, øfundadann, bakbitinn, lítilsvirdtann, med ãllri hans dánumensku. Þessi og þvílík tilfelli ens mannlega lífs, leida oss tídum til sorglegra eptirþánka og moglunar á móti Gudi. En, þegar vér náqvæmlegar íhugum allt þetta, megum vér prísa Gud eins fyrir þad, ad vér finnum adrar rokssemdir til þessarar guddómlegu rádstofunar, af hvørium vér þeckt fáum luckunnar umbreytíngar betur ad samsvara vísdómi hans og gædsku. Þau vold, sem hinn óverdugi keppist svo ákaft ad ná, eru ósialdan honum falls ollandi; óhófsams sælkéra og svallara svo nefndu gódu dagar, verda, þó seinna sé, ólisian hans heilsu; vidhøfn og yfirlæti hins drambsama vard ad heimsku; heimsins hól og hrósanir steyptu þeim virdínga-giarna ónytiúngi, og útvortis lucka óráðvandra bió siálfum þeim hastarlega biltu þá minnst vardi. O þú alvísa forsión! ecki vilium vér lengur lasta þínar rádstafanir, hvørsu ólioſar, sem þær ástundum virdast vorum skammsýna skilníngi, því myrkvari, því óhuldari, sem þinn tilgángur er oss, því farsælli mun hann oss reynast;





ást; ecki skal þad oss ángra, þó oss finn-ist þínir vegir ástundum krókóttir, heldur giøra oss rolega vid yfirvegun margra þeirra dæma, sem vér ástundum siáum fyrir augunum og þó hellst þeirra, sem vér heyrum opinberada í þínu ordi; þau dæmi hefir þú gésid oss til upplýsíngar og huggunar um þína nádugu forsión, til þess vér ætíd skyldum treysta þér einum hvørsu báglega, sem áhorfast kann, og hvørnig sem allt veltist hér. Þú ert sá, sem med sérlegri nád minntist á Nóah í því almennilega og mikla syndaflódi, og, sem uppihéldst ørkinni í vötnum og ossa regni. Þín forsión vardveitti og leiddi Abraham frá ættíngium sínum til þess fyrirheitna landsins. Þú leiddir Jacob á hans ferdum; þú først med Jóseph í Egyptaland og frelsadir frá allri eymd; þú baudst hrofnunum ad færa þínum Spámønnum fædslu; þú hófst Davíd frá hiardar geymslu til Kóngs-tignar, og vér, erum vér ecki siálfir vitni til þinnar dásamlegu forsiónar? hvørsu margir huldir vegir vors lífs, eru oss nú ecki liósir ordnir? hvørsu margt héldum vér ecki óluckuefni fyrir oss, sem vér høfum sídan reynt,



ad vard medalid til vorrar lucku? hvørſu opt hafa ecki þau-harma-tár, ſem vér útheilltum á ſorgar-døgunum umbreytſt í føgnud og gledi? hvørſu opt høfum vér ecki biriad þann dag med harma-kløgunum og qveini, ſem vér endudum med fagnadar loffaung til Guds, og hvørſu augliós mun oſs þá ecki í himninum ſídarmeir verda víſdómur og gædſka allra þinna rádſtafana? eilífi Gud! vor trú og trauſt á þinni Guddóms forſión verdur æ því meir ad aukaſt, ſem vér óefanlegri røkſemdir finnum um þína mildiríku forſión; vér vilium med trúar øruggu hiarta vænta þeſs alls af þér, ſem naudſynlegt er til vorrar ſounu lucku og farſældar; alla vora vegu, øll vor efni, vilium vér fela í þitt vald og umſión, og undir eins ſtøduglega vona, ad þú munir allt vid oſs vel giøra; vér þeckium ecki þá vegu, um hvøria þú vilt leida oſs, en þetta vitum vér og þad hughreyſtir oſs, ad hvørnin ſem þeir oſs álengdar virdaſt, munu þeir þó, vid náqvæmari yfirvegun géfa oſs ætíd nóga orſøk til þeirrar vidurkénníngar: Drottinn! réttlátir og ſannir eru þínir vegir. Þú ert hulinn Gud, þú Iſraels Gud, vor Frelſari. Lofad veri þitt nafn ad eilífu!

XLVIII.

# XLVIII. Hugvekia.

Bidjid óaflátanlega. 1 Theſſal. 5.

Bœnin er eitthvørt dýrmætaſta med-al til ad giøra oſs hæfa til med-töku Guds velgiørnínga; þvíad ecki er vegurinn nema einn til þeſs ad vér náð fáum vináttu Guds, ſálar-ró og von-inni um fullkomna himinſins ſælu; og hvørr mun ſá vegur vera? hann er aud-miúk vidurkénníng vors veikleika og allra vorra misgiørda, og øruggt trúnadar-trauſt til miſkunſemi og gædſku hins allra-hæſta Guds. En til þeſſarar aud-mýktar og þeſſa trúnadar-trauſts, má trúud bœn leida hinn beinaſta veg. Þeg-ar vér ſkynſamlega ákøllum Gud og bid-ium hann einhvørs, hvad hellſt ſem vera kann, med hvílíkri tilſinníngu, egin van-máttar, hvílíkum ordum ber oſs þá fyr-ir hans auglit fram ad koma! mun þad ſké án þeſs ad neydin bendi oſs til, hvørſu vanmegna vér erum henni ſiálfir ad af-létta, og þeſs vegna undir eins til ad audmýkia og vidurkénna oſs óhæfilega til ad vidhalda, veruda, betra og helga oſs ſiálfa? vogar þá nockurr af oſs ad treyſta ſvo á ſinn eginn fánýta mátt og



alls engann verdugleika, ad hann ei segi med Abraham: Herra! eg hefi dirfst ad tala vid þig, þó eg sé einúngis dupt og aska? dirfist þá nockurr af oss annad enn játa med Jacob: eg er allt of óverdugur, allrar þeirrar miskunar og trúfesti, sem þú hefir audsýnt mér? einkum þegar vér gætum þess, ad vér frá barndómi erum af syndinni fleckadar manneskiur; jafnvel þó Gud, frá barndómi hafi géfid oss óteliauleg merki og sannfæríngar um sinn kiærleika, hofum vér þó svo gálauslega, svo mótþróanlega brotid hans bodord. Þegar vér dirfunst enn þá ad bidia Gud um fleiri velgiorníngа, megum vér þá ecki andvarpa med audmiúkum anda og segia: Drottinn! høndladu ecki vid mig eptir mínu óþacklæti, endurgiald mér ecki eptir misgiordum mínum? í þvílíku ástandi fáum vér eckert annad giort, enn sett allt vort traust til Guds nádar fyrir Jesúm Krist; ecki fáum vér reidt oss uppá egin dygd vora, sem er svo veik, svo ófullkomin, svo blondud breiskleika, heldur einúngis uppá verdskuldun og fridþægíngu vors guddómlega Frelsara. Í þessari trú megum vér þar um fullvissir vera,

ad

ad Gud ecki muni synia ofs þess, sem ebla má vora sonnu og varanlegu luckú; med því innilegri hiartans vidqvæmni, sem vér andvorpum til Guds, sem vors mildiríkasta fødurs, því oruggara verdur vort sonarlega traust á honum; því náqvæmlegar, sem vér setium ofs fyrir siónir ad odru leiti vorn overdugleika, en ad hinu fridþægiandi pínu og forþénustu hans Sonar, því óhvikulli og sigursælli verdur vor trú. Vér verdum þar vid hæfari til ad medtaka Guds ómetanlegu nádar gædi. Pad er í trausti Jesú fullnægiu-giørdar fyrir ofs, ad vér med gledi og diørfúng vogum ad nálgast í audmiúkri bæn vorn himneska Fodur; ó hvílík heilög gledi! hvørsu óútmálanlegur fognudur! hvílíkur forsmeckur hinnar komandi himnesku sælu géfst ofs þá ecki í bæninni! o! ad vér því ecki lengur vanrækia nædum, ecki lengur med gáleysi æfa svo heilága ydiu! o! ad vér þó vildum ydnglegar yfirvega, hvílík lucka það er fyrir syndnga mannsképnu, ad voga ad tala í bæninni vid Gud og kalla hann sinn Fodur!

Upp til himins med hiarta hreint
Ad horfa' og segia: Gud minn! þú



Ert æ mitt athvarf lióst og leynt,
Hvör lucka veitist stærri enn sú?

Sæl ertú, kristna manneskia! sem grundvallar þína trú á Je sú fridþægíngu og fyrirbón! o! hvílík lucka þér, nú þegar hér í lífi, er géfinn: ad hann vill heyra þína bæn og þitt hróp, sem er þinn gódi og almáttugi fadir! hvílíka róseini finnur þá ecki sála þín, já, fognud, sem útpressa mætti einber gledi-tár af augum þínum, þegar þú upplyptir þeim til Guds, sem er þér allt, og þín öll von! þessa lucku, þessa róseini má vor audmiúk og trúar-örugg bæn afreka oss, og vér munum reyna hvorsu kroptugt þetta farsældar medal er til ad styrkia vorn hug og vora von. Vér framgaungum þá, líknarfulli fadir! hraustir og óqvídnir undir þinni vardveitslu og nád, og styrktir af þínum krapti; gladir töknum vér á móti sérhvörri sorg, naud, og hættu, sem oss kann ad hondum koma; þanninn í vorum bænum ad mega umgángast þig, o vor Gud! hér á jördunni, og vænta enn framar ad vera á sídan eilíflega hiá þér í himninum, þad sé æ vor huggun og vor gledi, vor styrkleiki og vor vegsemd í lífinu!

XLIX.





# XLIX. Hugvekia.

Vitid þér ecki ad þér erud Guds musteri, og ad Guds Andi byggir í ydur? 1 Cor. 3.

Ad vera Guds barn og musteri hins heilaga Anda, þad er sú ædsta lucka, sem veita má ómetanlega mikla sælu sérhvørium kristnum, sem hana á: Séum vér Guds born og eilífs lífs erfíngiar, hofum vér þegar odlast lángtum meira enn heimurinn nockurntíma fær oss géfid ellegar frá oss tekid. Hvad er þad til á jordunni, sem framar megi auka oss hrigdir, þegar vér med vitnisburdi heilags Anda erum fullvissir um velþócknun Guds? máské oss hriggi missir eda skortur einhvorra jardneskra audæfa? en sérhvørt Guds barn á óendanleg audæfi í vændum. Sé Gud vor fadir, mun hann víst ala fyrir oss enn í þessu lífi. Máské oss hriggi einhvor ærukrenkíng eda virdínga missir? en fáum vér nockurntíma ædri virdíngu nád, enn þeirri ad vera sameinadir óendanlegum Gudi? þær sálir, sem af kbúd heilags Anda eru hafdar upp yfir alla holdlegra girnda yfirdrottnum, þeckia og glediast vid adra lángtum ædri vegsemd, langtum



um hreinni lystisemdir enn þær, sem hafa sín upptök af hnilegum og hégómlegum hlutum. Vér þeckium og umgaungunst þá jafnvel hér þann Gud, sem er siálfur kiærleikurinn, sem svo fødurlega lét sér úm oss hugad vera, ádur enn grundvøllur veraldarinnar var lagdur, sem er alvís, nádugur og miskunsamur Fadir og Gud, sem stiórnar øllum hlutum til vorrar sønnu farsældar. Vér þeckium og reynum hann ad vera vorn trúfasta og eilífa vin, sem situr á Guddómsins veldis-stóli, sem af kiærleika til vor borid hefir allskonar ørdugleika hins mædusamasta lífs, og siálfur látid lífid fyrir oss; vér þeckium og finnum Andans verkanir, sem uppfylla oss med fridi og gledi hins eilífa lífsins. Guds vinfengi og sálarinnar rósemi, er því vor ríkdómur, vor heidur, vor huggun og vor sáluhiálp hér á jørdunni. Skal þá ecki svo óumrædileg Guds nád vekia oss til ad þióna Gudi med því hreinna framferdi? en, hvad er þó náttúrlegra enn þessi þánki: eg er fyrir trúna ordinn Guds barn; holdsins girndir, heimsins fásinnu finn eg nú gagnstædar minni ágvørdun og voninni um hid eilífa líf, sem Gud hef-

hefir verkad í mínu hiarta; allt ofdýru verdi er eg til þess keyptur, ad eg hér-eptir vera skuli heimsins og syndarinnar þræll. Mín kostgæfnasta ástundan skal því framvegis midá til þess, ad hriggia ecki þann anda, af hvørs íbúd eg nýt þeirrar lífsins inndæluſtu luckn, lífsins ánægiu og rósemi, og ad missa ei aptur þá nád, sem Gud af óverdskuldudum kiærleika, hefir kallad mig til. O þú gódi guddóms Andi! innrættú siálfur vorri sálu þetta þér þóknanlega hugar-far; stiorna þú og upplífga oss, svo ad vér med þinni vegleidslu mættum fá um-flúid þær snorur, sem hold og heimur svo optlega leggia í veginn fyrir vora dygda æfingu; upplýs þú vor augu svo ad vér þeckium þær háskasemdir, sem umkríngia oss, og géf oss oruggann hug og dug til ad strída gégn þeim; leid þú oss á rétt-um vegi, svo ad vér ecki villunst af hon-um fram á lastanna léttfæra veg, né þar-med leidunst enn lengra frá voru rétta takmarki. Géf oss nád til ad veita þeim bendíngum eptirtekt, med hvørium þú vekia vilt vora sálu, og ecki mótþróan-lega nidurþagga þær; styrk oss á sorgar- og neydarinnar-degi, med þinni huggun

og



og hiálp, og lát vora fullvissu um þá lucku, sem vér eigum í vændum í eilífdinni ætíd sterkari verda, ætíd meir lifandi í vorri sálu; undirbú þú oss þanninn, vor Gud! svo ad vér qvedia kynnum heim þennann med rósemd og gledi, hvonær sem þínum vilia hédan af velþóknast. Amen.

## L. Hugvekia.

Hvør vill skilia oss vid Guds elsku? hørmúng edur mótlæti? ofsókn edur húngur? klædleysi edur lífs-háski edur sverd? allt þad sáum vér fullkomlega yfirunnid, fyrir hann, sem oss elskadi. Rómv. 8.

Vort náttúrlega vanmætti er oss af engu audsiáanlegra, enn þegar vér hugleidum svo margann gódann ásetníng, sem vér høfum oss stødugt í hiarta, en aldrei kémur hiá oss til framqvæmdar. Hvørsu margur ásetníngur liggur ecki hulinn í vorum huga, er aldrei kémst lengra? hvad mørgu lofum vér ecki Gudi ad morgni hvørium í vorum daglegu bænum, þegar vér gaungum til altaris, vid viss tilfelli, sem giora oss hugsiúka fyrir voru lífi? hvørsu tídum

Má ecki einherr gódur áſetníngur vera í ſtad vors giorvalla kriſtinndóms? og hvat er þá framqvæmdin? med hvöriu ſönnum vér þá, ad áſetníngurinn hafi verid vor alvara? þad er einúngis víſt, ad Gud hefir ecki hér í heldur látid oſs ſkorta ſína þeckianlegu hiálp; frá honum einum kom oſs ſá gódi áſetníngur, med hvörium hann vildi fá oſs uppvakta, og leidda til ad æfa þad góda; en ad vér ecki látum þetta Guds verk í vorri ſálu ná ſínum tilgángi, þad vottar lióſlega vorn óvilia, vora leti, vorn mótþróa og vort gáleyſi. Ad ſönnu vantar oſs ecki affſakanir og hindranir, en vóru þá vorar affſakanir æ ſannar, og hindranirnar óvinnandi? megum vér affſaka oſs med vanmætti vorum, þared vér vitum, ad Gud, eptir velþóknun ſinni, verkar bædi viliann og framqvæmdina í oſs? ellegar vantadi oſs tækifæri til ad framqvæma vorn áſetníng? hvörnig fengium vér og þetta ſagt, án þeſs ad vort giorvalla líf vitnadi ámóti oſs? hvílíkann ſkada hofum vér ei giort ſiálfum oſs? hvörſu mikid gott er ecki forſómad? og hvörſu mörg tækifæri til hins góda hofum vér ei þar vid miſt? vor ſamvitſka hefir, ad ſönnu máſké nock-



ud hrærst um sinn, en vort hiarta hefir sídan ordid því hardara og þverbrotnara, er þá ecki ad óttast ad vér hofum upptendrad med þvílíkri adferd gudlega reidi ígégn oss? o! ad vér mættum svo stadfastir vera í vorum ásetníngi, sem hinn fortapadi sonur, er ecki einúngis ásetti sér ad fara heim aptur til fodur-húsanna, heldur og giordi sig ad ollu ferdbúinn, já, flýtti sér heim! máské vér birtum og á þessari stundu helgann ásetníng? ad minnsta kosti ættum vér ad giora þad. O! ad hann þó, eins og fyrrum svo margur gódur ásetníngur, ecki hvirfi burt samstundis! snúdu því ollum þínum hugrenníngum, sála mín! til þessa efnis og géfdu grandgæfilega gaum ad þeim gódu hræríngum, sem í hiarta þínu uppkoma kunna; slá þú ecki á frest ad framqvæma þenna ásetníng, þared þú allt eins lítid rædur yfir hiarta þínu, og komandi tímunum. Endurnýiadu á þessari stundu þann sáttmála, sem þú svo tídum brotid hefir, og vertú nú framvegis stodugri í þínum góda ásetníngi. Drottinn Gud! hér er vort giorvallt hugarfar, hér er allur sá ásetníngur kunnugur, sem nú qvíknar í vorri sálu Þú

veitst

veitst hvørsu umbreytanlegt og hvikult, hvørsu veikt, hvørsu þverbrotid vort hiarta er, æ! giør þad stadfast og øruggt og hlýdid í því ad æfa hid góda; uppvektú vora sálu sífellt med gódum og heiløgum hræríngum, sem þinn Andi verkar í oss, og hiálpa oss til ad framqvæma þann ásetníng, er vér nú hirtum, ad vér ecki forsómum vora sáluhiálp né torthúunst, sokum þess góda ásetníngs, sem vér aldrei kostudum kapps til ad framqvæma!

## LI. Hugvekia.

Allt umbreytist í heimi hér, um harma-kiør mín allt eins fer; Gud farsæl afdrif gefur þeim, gædskan hans alvold stiórnar heim; þiáist hér hold og þoli hel, þar lídur mér um eilifd vel.

Ecker eitt augnablik er til, sem sé ødru fullkomlega líkt; vort tilstand umbreytist sífeldlega og þad, sem sérlegast er, vér verdum þess allt eins lítid varir, hvørsu hastarlegur óstødugleikinn er, og hins hvørsu fliótt jordin á sérhvørinum degi veltist í hríng. Jafnvel oss þægilegustu hlutir, eru hvad mestum



óſtødugleika undirorpnir; nú erum vér heilbrigdir, gladir, ánægdir, en munum vér og ſama verda á nærſtu ſtundu? máſké vér þá verdum ad ſtrída vid dauðann eda einhvøria ſórg og mædu; einnig þetta augnablik, ſem vér brúkum til ſamtals vid Gud, hverfur ódfluga burtu, og hvar er þad nú? hvorr er vottur þeſs framar? viſſulega er þad ſorgleg íhugan, þegar vér yfirvegum allra hluta óſtødugleika, og verdum þeſs á ſérhvørium tíma varir, ad tíminn lídur burt rétt eins og reykur eda foſſandi vatns-ſtraumur. Hvorſu tídum gledium vér oſs ecki af þeſſum blómlega og heilbrigda líkama, af riódum kinnum og hrauſtlegu yfirbragdi, af ſkrugum ſálar og líkama kroptum? en haſtarlega hverfur vor gledi þegar oſs rennur í hug, ad máſké nú þegar verdi vor líkami máttlaus, afſkræmdur, ørendur, vidbiódslegur. Hvorſu ánægdir erum vér ecki í ſkauti vorra kiæruſtu vina, þegar innvortis kiærleiki ſameinar þeirra hiarta vid vort, og ſameiginleg ſorg, giørir vora neyd ad þeirra egin? en þegar oſs hvarflar þá í hug, hvorſu umbreytanlegt og fallvalt þetta allt er, ellegar vér alvarlega

lega setium oss fyrir siónir þann tíma, þegar vér munum apturlykia þeirra augum, edur og þeir vorum, œ! þá megum vér í hvort sinn hriggiast þegar vér lítum þá, og undir eins munum til þessa; og þid ríkdómur, metord, sœl-lífi og von, hvörsu tídum hughreystum vér oss ecki vid ydur í voru lífi! en þegar vér hugleidum ydar óstødugleika, hvörsu beisk og sorgleg verdur oss þá ecki ydar umhugsan! hvörsu gledur sig ecki vort auga vid morgun-sólarinnar uppruna, en hvörsu sorgfullir verdum vér þarámót, þegar oss hvarflar í hug, ad sólin og einusinni verdur myrk fyrir vorum augum, og morguninn ecki framar gledur vort hiarta! vid hvílíka ógédfeldu reynslu, hlýtur vort hiarta ad hriggiast, en hresstu þig upp, sála, mín! og láttu enga sorg yfirbuga þig; óstødugleiki jardneskra hluta má giøra þig vísa og luckulega; siálfur þeirra óstødugleiki fœr opinberad þér mikilleik Guds almœttis; í hans hendi standa allar þíns lífs og luckuumbreytíngar, og sérhvør þeirra leggur sitt til fullkomnunar þess giørvalla; hvörsu jafugédia máttu ei loksins vera, þegar þú hugleidir náttúru þeirra hluta,

 sem



sem hiarta þitt er svo fastlega bundid vid! hvørsu léttara mun þér ecki falla ad missa þessa hluti, þegar þú fyrirfram íhugad hafdir, hvørsu møgulegt og líklegt þad sé ad þú munir þá missa! þú átt þó einkis ad nióta af øllu því, sem þér fellur í skaut, odruvísi enn eins og þad væri á hlaupum; þú mátt smacka lífsins saklausu lystisemdir, en þeirra óstødugleiki á ad kenna þér ad gefa þig ecki alla vid þeim. Þú átt ad álíta jørdina eins og hennar gædi verdskulda, en vid endurminníngu þeirra forgengilegleika ad dempa þína of-frekn laungun til þeirra; þacklát og undrandi máttu skoda og medtaka vor-daganna fegurd, þeirra lockandi prýdi og heillasamu gladværdir, en læra þó þann vísdóm af sérhvørri blomstri og laufbladi, ad hugleida endir allra hluta; þar vid á ad vekiast hiá þér laungun eptir betra og fullkomnara lífi, hvar engin umbreytíng edur umskipti, enginn óstødugleiki mun framar finnast. Því optar, sem forgengilegleiki og óstødugleiki mannlegs lífs verdur þér fyrir sionir settur, því vissar sannfæristu þú um þá farsæld, sem í betra lífi bídur þín, og ad varanlegleiki þessarar farsældar muni

þar

þar umbuna þér allra hluta óstødugleika hér á jørdu, þá verdur þú Guds og hann verdur þinn; já, eilíflega verdur hann þinn, og frá honum mun þig eckert fá skilid, ecki þreyngíngar, sorg eda missir eda naud, hvørki helvíti, líf né daudi.

## LII. Hugvekia.

Ef ad Gud er nú minn, er hann minn frelsari;
eg hirdi' ei um himininn og hafna jordunni,
og þó ofkrandi ædir, þig hrædist eg ei helvíti!

Hvørnin sem vér í huganum virdum fyrir oss vort ásigkomulag, og í hvørium helst lífsins umbreytíngum; vér adgætum þad, siáum vér ætíd og allstadar egin eymd vora, neyd og þarfir, en undir eins forsjón Guds því addáanlegri, því vissari. Ef ad vér yfirvegum þad bjálparlausa ástand, í hvøriu vér bárumst inn í heim þenna, þá siáum vér, ad varla er í giørvøllum heiminum ad finna svo ófæra skepnu til ad biarga siálfri sér, sem manneskiuna; jafnvel þá, er vér høfdum nockrum þroska nád, og ødlast meiri krapta, vórum vér þó allt of vanmegna til ad útvega siálfum oss forsorgun; vér erum undirorpnir óteliandlegum útvortis

 mót-



mótlætíngum, og margvíslegri innvortis órósemi, þúngum höfud-sképnanna áföllum, og annara manna ofbeldi, svo ad oll mannleg forsiálni reyniſt nærsta veik til ad fá oss fyrir því verndada, og allur vor kraptur ónógur til ad afstýra þeim áföllum, sem oss eru búin af ollu þessu til skada og tións. Margar þúngar freistíngar, margar huldar tálsnorur verda í vegi fyrir oss, sem vér hvorki fáum þeckt né hindrad; vér kunnum ad rata í margar og óvæntar háskasemdir, sem enginn mannleg greind sær fyrirsied; vér erum undirorpnir margsháttar veikleika og siúkdómum, morgum órétti, svikum og prettum af odrum, svo vér orvænta mættum ad komast af, já, oldúngis vanmegnast undir synda, sorga og eymdanna byrdi, ef vernd Guds forsiónar skildi vid oss. Auk allra þessara tilfella, sem ofbióda vanmætti vorum, þurfum vér enn þá ad strída vid skort og orbirgd. Vér verdum varir hiá oss fýsna og tilhneigínga, sem vilia láta sér fullnægia, sem annars ángra og qvelia og giora oss órólega. Ef ad vér hefdum nú enga adra hiálp í þessu ástandi, enn vora egin krapta, hvorsu ílla yrdi vid þessu rád-

in




lu bót, hvørnin vorum ſkorti aflétt, hvørſu fáar óſkir vorar fengium vér þá uppfylldar? óſyrirſied tilfelli, óvæntar hindranir megna ad ónýta jafnvel vort forſiállegaſta áform og øll þau medøl, af hvørium vér væntum oſs meſtra heilla, duga allopt eckert; því yrdi þad med øllu forgefins, þó vér daglega ríſum upp árla, giørdum nætur ad døgum og ætum vort braud med ſorg, ef Guds adſtod ecki bleſſadi vora áſtundun og ſtyrkti vor fyrirtæki. Sérhvørr dagur færir oſs heim ſanninn um allt þetta; margvíslega og daglega verdum vér varir vid veikleika vorn, þorf og eymd vora. En — ſvo miog, ſem þeſſi hugleidíng mætti ſvipta oſs hug og dug, ſvo kroptuglega finnum vér oſs þo ſtyrkta og hughreyſta, þegar vér íhugum þann ſannleika, ad ſá almáttugi himins og jardar Skapari, á hvørn vér trúum, er vor Fadir og velgiørari. Undir hans umſion gaungum vér med gledi á móti øllum þeim tilfellum, ſem kunna ad hitta oſs. Med fullu trúnadar-trauſti afhendum vér øll vor efni í hans nádar-ríku ſtiórnum; af vorum Gudi, ſem elſkadi oſs ſvo heitt, ad hann útgaf ſinn eingétinn Son Jeſúm



oss til endurlausnar, megum vér vænta oss alls þess goda, sem vort frelsi og sáluhiálp vidþarf; já, hann, sem gaf oss soninn mun vissulega géfa oss allt gott med honum. Sú von og fullvissa mun æ hughreysta oss í sérhvörri eymd og neyd; hún skal oss jafnan nóg, þó eitthvad af tímanlegum nunnum bresti og heimsins blídt atlæti umflýi oss, því, sé Gud med oss, hvörr kann þá vera í móti oss?

## LIII. Hugvekia.

Æ! voknum, daudinn ádur enn kallar, oss á óvæntri hédan stund! aldradir bædi og úngir falla í sórt og hraustir hels í blund; sin afdrif fyrir enginn sier, ætíd vidbúinn, sæll því er!

Hvílíkur ásetníngur er oss mönnunum hæfilegur, hvörra líf er svo stutt, en þar hiá svo mikilvægur; hvörsu skammur tími er þad, sem vér egum enn þá ólifadann? eru þad hundrad eda eru þad færri ár? og þó þad væri nú einhvör hin lengsta ára-tala, mundi þó ecki sú eilífd, sem alls enga ára-tölu né enda hefir, kresia öll vor ár til undirbúníngs? eda vitum vér fyrir vort bana-dægur?

gét-

gétur þad máské runnid ofs upp med morgun-deginum? er þá undirbúníngur undir daudann nockurra ára, mánada, fárra daga edur augnablika verk? hlýtur ecki vidurkénníng syndarinnar og ángur af henni á undan ad gánga, eda vort hiarta og giørvalla hugarfar ádur ad umbreytast, enn vér stígum þad mikilvæga stig, yfirum takmørk tímans og eilífdarinnar? hvørsu mikill eptirþánki, hvørsu miklir kraptar útheimtast ecki ásamt vidvarandi ydni og ástundun hér til? hvørsu naudsynlegt er ecki þessvegna ad vér nógu snemma giørum ofs vidbúna, já, búunst sem best undir þetta mest árídanda stig af øllum. Þad, sem enn er eptir af vorri hérvist, hvort heldur þad eru ár, dagar eda fá augnablik, hverfur ódum á burt, og þessir ókomnu tímar munu þó auka vora fordæmíngu á sídan, ef ad vér ecki brúkum þá forsiállega. Fyrr enn vér verdum þess varir, er vort endadægur upprunnid og daudinn fyrir vorum dyrum, og þá mundum vér fyrst hriggvir skélfast, ad allur vor gódi ásetníngur í svo lánga tíma vard ad engu. Hvørsu skammann tíma egum vér enn olifadann, spyrium vér aptur? vér vit-



unt þad ecki, og þessi óvissa, ætti ad giora oss forsiála og umhyggiusama um brúkun vors lífs. Vér ættum ætíd þannig ad lifa, eins og sérhvorr dagurinn væri sídastur vors lífs; vér ættum ætíd svo ad breyta, sem vér mundum óska oss ad hafa breytt vid endir vorra daga. Vér ættum ecki ad mæta voru enda-dægri, sem vitstola menn og gárúngar, heldur med yfirvegun og gódum undirbúníngi; opt ættum vér ad spyria oss siálfa: munu þessar lystisemdir, þessar gladværdir, þessi ríkdómur, þessi metord verda mér som í daudanum, og eg álít þau nú, á medan eg lisi heilbrigdur? mun eg þá med ánægiu minnst géta þeirra athafna, sem eg nú hefi fyrir stafni, þegar eg á bana-sænginni renni augunum tilbaka til míns lidna lífs, og hugleidi öll míns lífs fyrirtæki? þegar vér höldum sífellt áfram þessari eptirgrenslun í öllum lífsins athöfnum med réttri hiartans einlægni og stödugleika, mætti hún ad minnsta kosti hafa þá heilsusamlegu verkun fyrir oss, ad vér forsiálli yrdum í brúkun jardneskra hluta og vorum fyrirtækium. Æ! tekum nú á þessari stundu fyrir oss nýtt og betra sinnislag; í dag

er-

erum vér einum degi eldri ordnir, elleg-
ar, sem er hid sama, vér erum komnir
einum degi nær grøfinni enn í giær. Líf
vort kann máské enn þá ad vara nockra
en þó til vissu miøg stutta stund, ef
vér metum þad eptir augnablikum og
jøfnum svo saman vid eilífdina. En uppá
þessa svo stuttu, svo ódfluga og svo hverf-
ula stundu, á þó ad koma vor eilífa lucka
edur ólucka; hvorsu dárlegt má þad þá
ecki virdast, ad láta sér oldúngis úr minni
lída, vegna þessa nálæga og þegar út-
runna lífs, vora eilífu áqvordun? ell-
egar skulum vér, skynsemi gæddir, og af
Jesú endurleystir, vér, sem erum him-
insins borgarar, lifa allteins og dýrin,
sem enga skynsemi ødludust, og þessvegna
hafa engar skyldur ad vardveita né sekt-
ir fyrir þeirra vanrækt ad óttast? skul-
um vér þánkalaust eyda þeim stundum,
sem ecki eru vor eign heldur enn annad!
skyldum vér hafa lifad svo marga daga,
sem allur vor aldur innibindur, og þó
ecki géta sagt um einn þeirra: eg hefi
verduglega lifad þann dag? skulum
vér undandraga vora yfirbót, uns hin
lánga og ógnarlega eilífd yfirfellur oss
midt í andvaraleysinu? - o! nei, o! nei!



veri nú sá ásetníngur hiá oss stødugur, kristnir menn! á sérhvørium tíma, sem Gud unnir oss lífsins, ad hugleida og verka vora sáluhiálp!

## LIV. Hugvekia.

Kénn mér þá vitsku vel svo telia, vegferdar minnar daga hér, ad þinn eg stundi veg ad velia, vakni til sældar lífs hiá þér! Gud! fyrir Jesú blessad blód, eg bid mér veittu afdrif gód!

Sá tími mun einusinni adkoma, sem svipti oss øllu því, sem vér nú álítum ávinníng vorn. Vort líf, vor heilsa, vor tímanleg velgengni, metord og lystisemdir, allt hvad vér kiært høfum í þessum heimi, varir þó ecki lengur enn til vors dauda-dags, og þegar ad þessum degi er komid, eru øll vor fyrirtæki, sem vér ásett høfdum ad framqvæma, tøpud, vér hliótum þá ad snúa bakinu vid því ølsu, sem vér nú álítum ad vera oss ávinníng á jørdunni; hvørsu úmþenkíngarverdur, og þó óþægilegur má ecki sá tími vera sérhvørrar manneskiu náttúrufari, því daudinn er náttúrunnar óvinur! þad er því ónáttúrlegt ad bera engann qvídboga fyrir því, sem lífi voru er skadvænt; hvørsu

þúngt

þúngt er ecki vorri mannlegu náttúru ad yfigéfa sambúdir hinna lifendu, vorra kunníngia, vorra ástvina, og siá þann tíma nalægiast, sem leidi oss í hid ó-kunna land enna daudu, hvar vér eilíf-lega hindrunst frá þeim athøfnum, sem vér álitum oss hér naudsynlegar! ad ryck-iast burt frá vorum allra bestu vinum, sem elskudu oss eins og sinn auga-stein, iá, héldu oss ad vera þad tré, undir hvørs skugga þeim var øll ánægia ad mega hvílast! ad fá alls eckert med oss tekid af allri vorri útvortis vegsemd og yfirlæti, nema lélegann moldar-hiúp, sem þó ecki fær líkamann verndad fyrir rotnun og ormanna nøgun! hvørsu fátæka giørir oss ecki þessi tími? fátækari enn vér vór-um allt frá vorum fædíngar-degi; uns vor dauda-stund adkom, vórum vér máské virdtir og heidradir af hvørium manni; vor rád vóru sókt, vorum bodum var fylgt, þángad ad og ecki leugra nádi vor eign-ar-réttur á því, sem vér undir høndum høfdum. En, daudinn sviptir oss øll-um eignar-rétti og allri eign og hvørki má framar heita um líkama vorn og lík-kistu, né um grøf vora, ad þetta, auk heldur annad, sé þadan af vor eign; lík-

ama



ama og kistu eignast ormar og rotnan, og somu grøfina allopt adrir medbrædur vorir; mun ecki þessi tími mega óttalegur virdast vorri vid þennann heim svo fast bundnu náttúru? efalaust má hann þad vera, þegar vér álítum daudann eins og náttúrlegar manneskiur. En, sem kristnir ødlunst vér þá undir eins annad hugarfar; allt þetta óttalega fær annad útlit í vorum augum og missirinn verdur vor ávinníngur, þegar vér álítum daudann eins og sann-kristnum ber; því þegar vér náqvæmlega adgætum endir vorra náttúrlegu afdrifa, gé fst oss næg og fullkomin orsøk til gledi. En, o þú líssins og daudans Herra! þad er þessi hættusami tími, sem vér hugsum svo lítid, en skélfunst þó svo miog fyrir, því vid hans umþenkíngu hverfur øll vor lystisemd; æ! virdstu ad giøra oss daudans þánka gédþeckq og óttalausa, og leida oss fyrir siónir vora réttlætíngu í daudanum frá syndinni, vort fullkomnada frelsi, vora eilífu sáluhiálp; þad hnossid eptir hvoriu vér képpunst og þá líssins og vegsemdarinnar óforgengilegu kórónu, sem umbuna mun alla vora mædu! giør þú oss vitra, og kénn oss

því

því optar og ýtarlegar ad þenkia eptir því, sem vorar æfi-stundir framlída, þanninn: lof sé Gudi, nú er áptur eitt stig til eilífdarinnar áfram komid! og þegar loksins þarad kémur, ad allar vorar lífsstundir eru útrunnar, lát oss þá sofna út af med ánægiu í hiartanu, svo vér aptur megum uppvakna í eilífri gledi. Aldrei fáum vér hér í heimi meiri blessun odlast, aldrei fáum vér farsælla og rólegar lifad, enn þegar vér vitum og fulltreystum því, ad þessi vor ósk muni verda af þér bænheyrd! já, þú munt bænheyra oss, mildasti Fadir! vér reidum oss uppá þína miskun og nád í Jesú nafni, og fulltreystum því, ad sokum hans pínu og dauda viljir þú einninn farsæla vora sídasta vidskilnad, þegar vér ástundum ad búa oss verduglega undir hann, med því ad hlýdnast þínum bodordum og á medan vér lifum, ástunda ad þócknast þér; æ! vert þú jafnan í vorum breiskleika máttugur! Amen.

## LV. Hugvekia.

Hvad villtú svo qveina og klaga kior þér útskipt,
sála mín? Því med sorgum svo þig naga?
siá þinn Gud vill heillir þín; eg í Gudi



gladur er, Gud! min sál þvi fulltreystir,
minum efnum villtu venda, til vegsamlegs
og farsæls enda.

Ad öll vor sorg og mæda í heiminum
er svo óstödug, gefur oss huggun í
sérhverri eymd; enginn er frí frá sorg-
um og andstreymi á jördunni um alla
æfi sína; lofadur veri Gud, ad allar vor-
ar mótlætingar, allir vorir hrigdar-tím-
ar eru umbreytíngum undirorpnir! væri
allt annad undir sólunni forgengilegt og
óstödugt, en eymdirnar einar óumbreyt-
anlegar, þá hefdum vér fyrst efni til ad
andvarpa og qveina yfir voru lífi; en oss
til heilla og huggunar eru þeir útvort-
is hlutir allt eins umbreytanlegir, sem
ıırega hriggia oss. Opt þerrast vor tár,
í sama vetfángi og vér grátum, og þeg-
ar vér biriudum eina stund med um-
qvörtunum, endudum vér hana allopt
med gledi, og hofum vér ecki einatt um
æfi vora fundid marga þesshattar gledi-
ríka reynslu? hvorsu tídum veinudum
vér ecki ad morgni-dags: Drottinn hefir
mér gleymt, en ádur enn qvöldid kom,
máttum vér vidurkénna: Drottinn minnt-
ist mín og blessadi mig; jafnvel undir
siálfri mótlætinganna byrdi, hefir Gud
opt

opt rétt oss þá endurnæríngu, sem lét oss gleyma allri vorri sorg; hvörsu óvidurqvæmileg var því tídum vor unnqvartan yfir varanlegleika eymda vorra! hvörsu grundvallarlaus vor vantrú, og ótilhlýdileg vor moglan á móti Guds forsjón! ef ad vér vildum leitast vid, ad útvega sjálfum oss rosemi, géfum þá gætur ad þeirri náqvæmri og mildu forsjón med hvörri Gud leidir sín born; Jósephs líf, Jobs forleg, Davids tilfelli, já, sjálfs vors Jesú nidurlægíng, má þá sannfæra oss nu, hvörsu vísdomslega, hvörsu nádarsamlega Gud hagar umbreytíngum þess mannlega lífs. Og því skyldum vér þá vanvirda svo þann alvísa og náduga stiórnara allra mannlegra tilfella, ad vér ecki tækium oss af þessum og óteliandi ødrum dæmum huggun og gledi í vorum ókomnu lífs-stundum? hvörnig féngium vér verdskuldad ad lifa nockra glada stund, ef vér ecki viliun med þolinmædi umbera hinar ógédfeldu? þessar nálægu stundir kunna einnig ad vera oss á einhvörn hátt mótdrægar; því sjeféllt er nóg tilefnid ad finna, sem giori oss hugsiúka og hriggva; látum þá þessa stund vera oss til reynslu og æfíngar í þolin-



mædi og í því ad leggia oss ánægda undir Guds vilia! vér skulum enga ángist bera fyrir komandi tímanum, heldur dæma um hann eptir hinum umlidna, en einsetia oss ad lifa þennann og sérhvorn dag vel. Ei skulum vér festa vora þánka einúngis á mótlætingum þeim, sem oss þykia nú máské bitrar, heldur minnast hinna tímanna, á hvorium vor neyd mun ummbreytast til hagsælldg og vor hrigd snúast í fögnud. Sé nú þessa tíma svo lángt ad bída, sem vill, hann kémur samt efalaust, þó ecki yrdi fyrr enn vid umskipti tímans og eilífdarinnar. Þá mun allt þad fyrir oss upplýsast, sem oss er nú of myrkt og hulid um tilgáng Guds med hans reynslu bendíngar hér á jördunni; þá mun þad einnig heita mega um oss: birianin var undrunarverd en endirinn vegsamlegur. En máské vér á þessari stundu egum vid engar mótlætíngar ad beriast né þurfum ad stynia undir neckrum þiáníngum, en munu þá ecki heldur neinir aunnir finnast í kríngum oss, sem nú andvarpa megi? í vorri breytni vid þá skulum vér leitast vid ad verda Gudi líkir og, svo framt vér megnum, lina og létta þeirra eymdum. Þad

kiær-





kærleiks-verk mun einhvorntíma hug-hreysta oss, þegar vér erum í eymdum staddir, og þar að auki áfýsa aðra að létta undir vora byrði, þegar mótlætið heimsækir oss eins og þá, og þó það yrði ecki, mun samt Guð siálfur verða vor trúfasti hiálpari, sem stiórnar öllum vor-um mótlætíngum til farsællegs enda. O! hvorsu glaðir megum vér ecki vera þá, þegar Guð stiórnar öllum efnum vor-um! hann mun og vegna Jesú þíns og dauða af oss létta allri nauð.

## LVI. Hugvekia.

Eg vil þacka Drottni í mínu hiarta; eg vil segia frá öllum þínum dásamlegu hlutum; eg vil gleðia mig, og fagna í þér, eg vil sýngia þínu nafni lof, þú allrahæsti. Psálm. 9.

Þó að velgiörníngar hins miskunsáma Guðs, væru ecki svo óteliandlegir, þo að þeir voruðu ecki nema um vissa tíð, þó að hans góðgirni hefði með þess-um degi enda, gætum vér þó ecki orð fund-ið, til að prísa með kiærleika Guðs verð-uglega. Þó nálæg stund gæti oss ecki orsök til að prísa hann, mættum vér þó færa honum óendanlega lofgiörð, fyrir

 all-



allar unnlidnar. Svo lángt, sem vér lít-
um tilbaka og til hins unnlidna vors lífs
finnum vér allstadar óræcar røksemdir og
merki uppá hans náð og velgiørnínga.
Ef vér telia vildum hans velgiørdir, mætt-
um vér framtelia sérhvørt vort ædar-
slag, sérhvørn andardrátt, sérhvørn hánka.
Því þegar vér ad eins reikna vildum sam-
an þá velgiørnínga, er sérhvørr dagurinn,
sem vér lifum, siálfkrafa færir oss, svo
sem: lióssid, loptid, fædúna, krapta til
erfidis og vort líf, hvørsu margir yrdu
þá ecki allir Guds velgiørníngar vid oss
ad lokunum? hvørsu margir þá þeir, er
hann árid umkríng, hvørt árid eptir ann-
ad, já, allann vorn aldur lætur falla í
vor skaut? og hvørsu ber oss ei ad þacka
alla Guds velgiørnínga vid oss á barns-
aldrinum, og hinum efrá aldri? svefn-
sins velgiørnínga? hína huldu og nádar-
ríku forsión, hvørrar vér urdum ecki var-
ir, endurlausnarinnar velgiørnínga? o!
Drottinn! ótelianleg og ómmrædileg er
þín náð, ad framtelia alla þína velgiørn-
ínga, er oss syndugum og fáfródum ecki
unnt, ad íhuga verduglega fiølda þinna
dásemdar-verka, er engum daudlegum
géfid, þared jafnvel englarnir mega furda
sig

sig vid þeirra hugleidíngu, dáſt ad og príſa þína gœdſku. Vorkénntu því, líknarfulli Fadir! veikleika og vanmœtti vorrar ſálar, og fyrirgéf oſs þad tilfinníngarleyſi, ad vér ecki létum íhugun þinna velgiörda upplífga oſs, ſem bar, ecki leida oſs til hiartanlegaſta þacklœtis og fúſrar hlýdni vid þín bodord! Þó ad vér gétum ecki upptalid alla þína margfoldu nád, vilium vér þó leitaſt vid ad ígrunda hana, ad láta hana œ vera oſs hugfaſta, ad auglýſa hana ødrum. Þó vér ecki, nema ad nockru leiti, þeckt fáum ſtœrd þinnar miſkunar, viliurm vér þó því meira ómaki veria til ad þeckia hvørſu ónógir ſiálfum oſs vér erum, hvørſu óverdugir, hvørſu vanmegna; iá, þó vér gétum aldrei verduglega príſad Gud med ordunum, viltum vér því kappſamlegar leitaſt vid ad dýrka hann med voru framferdi. Þó ad vér ecki fullkomlega fáum ſkyniad hans miſkunar-ríka kiœrleika í þeſſum heimi, ſkal oſs ſamt því innilegar lánga eptir himninum, hvar lángtum meira af hans nádar-verkum mun oſs kunnugt verda, þar mun vor túnga og fá honum ſúngid verdugri lofgiørd. Fáum vér ecki vegſamad hann í voru lífi, munum

 vér

 

vér þó giora þad í daudanum, og út-
gánga af heiminum med þeim lofsaung:
Drottinn! hvørsu mikid hefir þú giört
vid mig! og þegar vér loksins upphafdir
erum til þinnar dírdar, eilífi Gud! mun-
um vér ad fullu þeckt fá, hvørsu mikid
þú hefir vid oss giört; þá mun vor sála
prísa þig og vor andi gladiast í þér, vor
Gud og vor Frelsari!

## LVII. Hugvekia.

Ad lifa heilaglega og í sannri trú og
gudhrædslu, leitast vid ad verda
Gudi þócknanlegur og honum æ líkari,
þad er vor kallan, tilgángur vors lífs,
vort mark og mid, og vor lucka. Stund-
adu því, kristinn madur! ad ná skírri, sann-
færandi og fullkominni þeckíngu um
skyldur þínar, hvørsu sérhvør þeirra sé
naudsynleg þér, og þar hiá ad sínu leiti
dýrmæt. Endurnýiadu og styrktu þessa
þína þeckíngu tídum, og brúkadu hana og
æfdu í daglegu líferni; lærdu ad skilia ad
skylda þín, jafnvel sérhvør hin ørdugasta,
er þín lucka; vaktu því yfir þínum girnd-
um og sinnis hræríngum, svo þær leidi
þig ecki afvega; trúdu siálfum þér aldrei
of-





ofvel, og prófadu daglega hiarta þitt og framferdi grandgæfilega, því sérhvørr dagur, sem þú lifir, er dýrmætur partur þinna lífs-stunda. Þenktu opt og med trúndu hiarta til Guds og Jesú og leitadu í yfirvegun hans fullkomlegleika og verka, í hans velgiorníngum, en þó einkanlega í þeirri endurlausn, sem hann þér afrekadi, helgustu upphvatníngar og kröptugustu medala til ad lifa rádvöndu og dygdugu líferni. Finnir þú vanmætti þitt, láttu þad því framar knýia þig til heitrar bænar um hiálp hans og nád, sem lofad hefir ad láta sinn krapt verda í breiskum máttugann; Lærdu æ betur og betur ad þeckia siálfann þig og heiminn, sem þú lifir í, og hugsadu tídum til þess, hvørs vegna Gud lét þig fædast og lifa á jördunni; þenktu þarum opt, hvørsu líf þitt er stutt, um tign og mæti þinnar sálar og hennar ódaudlegleika. Hugsadu um dygdanna umbun og lastanna straff, sem framkoma mun ecki einúngis í þessu lífi, heldur og hinni ókomnu eilífd; nidurþaggadu aldreirádleggíngar samvitsku þinnar né þína innvortis blygdun yfir hinu vonda, því sú tilfinníng er verndari og vaktari hins

M 3 góda

 

góda hiá þér; ástundadu strax frá barn-dómi ad hlýda rádum gódrar samvitsku, ádur enn hiarta þitt skémmist og forherd-ist af lastanna vana gégn því góda; stá-du til ad hafa ætíd eitthvad nytsamlegt fyrir stafni, og lærdu ad takast ómak og ördugleika á hendur, því án ómaks er engin dygda framför, engin verdskuld-an, engin lucka; neitadu siálfum þér opt leyfilegra lystisemda, svo ad þú þarvid venjist á ad drottna yfir tilhnegíngum þínum; fordastu umgengni vondra, en sæktu samqvæmi rádvandra; lærdu for-siálni af þeirra dæmum, og vísdóm af undirvísun heilagrar ritníngar. Gior þetta og haldtu áfram í því, þá muntu vaxa í dygdum, vara ad farsæld med varandi innvortis ánægiu; hofum vér þessar reglur oss yduglega fyrir augum, munum vér smámsaman leidast og ven-iast á ad breyta eptir þeim, og hvörsu dýrmæt er þá ei vor lucka! fáum vér henni ad eins nád, er allt fengid, sem vor áqvardan útkrefur, allt sem vér fá-um hér nockurntíma óskad oss; þá gét-um vér lifad í rósemi og ánægiu og á sídustu stundum vors lífs, mun þessi ró-semd og ánægia, sem vér nu smockum

þá

þegar vér giörum trúarörugga bæn til Guds, ecki vid oss skilia. Med því stærri laungun, sem vér nú óskum oss í lífi og dauda, ad vardveita þetta hugarfar, því innilegar qvökum vér til þín, heilagi og gódi Gud og Fadir! ad þú virdist ad géfa oss krapt til ad elska og ydka sanna gudhrædslu, sem veitir oss svo mikinn og heilsusamann ávinníng. Endurnýia þú vor hiörtu med þínum goda Anda, og géf oss þad hugarfar, sem giöri oss í raun og veru dygduga og sann-kristna. Géf ad vér sífellt mættum verda þér sjálfum líkari, sífellt taka framförum í vísdómi og dygd, sífellt verda þér enn nákvæmlegar sameinadir, svo ad vér finna mættum sífellt varandi rósemi og ánægiu af því ad giöra hid góda; og séum vér enn þá lángt frá þessari luckú, æ géf oss þá nád til ad ödlast hana og svo ad eblast í dygdunum, ad vér þar med nálægiunst vora sönnu luckú; þegar vér biriad höfum ad feta þennann farsældar veg, styrki og leidi þá oss veika og óstöduga, þín volduga hönd, svo ad vér aldrei þadan í frá af honum villunst.



# LVIII. Hugvekia.

Gud! þin stærd er ógrundanlig, Guddóms umkríngir liómiinn þig, daudlegum ofskiær ollum; þó er þinn kraptur ollu nær, alheima', er þánkinn mælt ei fær, geym rædur þú giorvollum; eins smærst og stærst, allt ber vottinn um þig Drottinn, er vér siáum, í þinum verkum og fundid sáum.

Alldrei fáum vér nógsamlega yfirvegad verk vors Skapara, sem birtast fyrir augum vorum, og á degi hverium krefia vora náqvæmu athugasemd, og dýrkun hans, sem þau svo dásamlega giordi. Hvad má framar hræra vort hiarta, framar fylla vora sálu heilagri undrun, enn skodun Guds dásemdar-verka, sem eru svo vegsamleg og verdug elsku? Hvad framar áminna oss á hans speki og gædsku, enn [illegible] svo margra skapadra sképna, vid [illegible] Skaparans almætti, vísdómur [illegible] gædska auglýsist oss jafn-addáanlegt? [illegible] framar hiá oss styrkia traustid á Guds alvoldugu stiórnun, enn þegar vér hugleidum og virdum fyrir oss þá almennilegu forsión, sem allt eins náqvæma umhyggiu ber fyrir lífi jurtanna og dýranna? hvad segir oss sérhvert gras-

gras-strá, sérhvert blómstur, sérhver uppvaxandi jurt? hvad giörvöll náttúran? mikil, addáanlega mikil eru verkin Drottins. Hvornin má nockurt, jafnvel prýdilegast meistaraverk manna, koma í samjöfnud vid heimsins dásemdi byggíngu? mun snoturt málverk einhvörs lands mikils metandi ámóti siálfu landinu, í hvörin öll náttúrunnar prýdi og gædi eru sameinud? en, hvad veldur því ad vér svo mikils metum mannlegar íþróttir og verk, en erum þó svo kaldir og tilsinníngarlausir vid Guds dásemdar-verk í náttúrunni? sannarlega ef vér hugleida vildum þess giörvalla sköpunarverks undrunarverdu stærd og hvörsu ómælilega vídt þad nær; náttúrunnar óumbreyttu reglu og reglulegu umbreytíngu; fiölda hinna sköpudu sképnanna og margföldu kyn-breytíngar; sér[illegible]s prýdi, ordu, reglu og sambönd, fe[illegible] vér ecki haldid oss frá, fullir undrunar at upphrópa: mikil eru verkin Drottins. Stórt, ómælilega stóri Skapari! vér undirtökum med öllum þínum sköpudum sképnum, og játum: vér erum einúngis dupt og aska, eintómur skuggi, en fáum aldrei framar þeckt



og undrast og furdad þína stærd og mikilleika, enn vid samburd vors audvirdilegleika vid þína hátign; vér fáum ad sonnu ecki skygnst inní náttúrunnar innstu fylsni, en hitt, sem vér siáum útvortis fyrir augunum, er fullnóg til ad inntaka vort hiarta og fylla þad undrun og lotníngu; vorir vitsmunir eru hálf-verk, og vér fáum þig hér ad eins þeckt, eins og í speigli og rádgátu, en á sídan, þegar hálf-verkid tekur enda og vér loksins náum fullkomnari þeckíngu, þá munum vér enn betur skilia og sanna mega: ad mikil eru verkin Drottins, þá munum vér og lengra leiddir í þeckíngunni, verduglegar fá prísad Gud. En á medan vér dvelium hér á jördunni og skodum hans verk, skal vor ydia sú, vor vísdómur og vort augna-mid, ad læra ad þeckia og prísa Skaparans mikilleik. Svo opt, sem vér rennum augunum upp til himins, svo opt, sem vér skodum jördina, svo opt, sem vér lítum til siálfra vor, svo opt skal tilfinníng hans mikilleika verda oss innrætt og vor audvirdilegleiki því kunnari. Fyrir þér niðurkrýpur vor andi, og fullur undrunar tilbidur þig, stóri, óendanlegi Gud! ef

ad þú tækir frá oss þína náðar-hønd, og þitt almætti leiddi oss ecki, þá mundum vér undir eins tortýnast. Lofud veri jafnan þín miskun, sem svo náðarsamlega lítur ofan til vor, sem þó erum einúngis dupt og aska, og vill leida oss um allar eilífdir, hvar vér med heilagri undrun og himneskum føgnudi fá skulum ad skoda og prísa þig óaflátanlega.

## LIX. Hugvekia.

Bænin má aldrei bresta þig þá in er freistíng ymislig; þá líf og sál er læid og þiád, lykill er hún ad Drottins náð.

Þegar vér lesum Bibliuna med eptirtekt, finnum vér í henni svo yfrid mørg og órækk merkileg dæmi þess, hvørsu krøptug sé trúud og alvarleg bæn, ad þad mætti fásinna heita, ad vilia med vantrú og efasemd neita sannleika þvílíkra dæma. Fyrir safnadarins bæn í Jerúsalem var Pétur útleiddur af sínu fángelsi. Moses giordi bæn sína til Guds, og Israel géck þurrum fótum yfirum hafid rauda. Elías bad til Guds, og Gud vokvadi jordina med regni; hann bad, og eckiunnar daudi sonur í Zarepta,



repta kom aptur til líffins; hann bad og eldur féll af himni, og eyddi brenniforninni. Ezechíel bad til Drottins og fimtán ár løgduſt til hans aldurs, já, Jeſús ſiálfur, þegar hann, á ſínum holdsviſtar-døgum offradi bænum, var bænheyrdur af ſínum himneſka Fødur. Hvørnig fáum vér þarum efaſt ad vorar bænir muni líkann krapt hafa, og ſvo margra heilagra manna bænir á fyrri tímunum, ef vér bidium med trúndu hiarta! er Gud ecki óumbreytanlegur í ſínu almætti, og í ſínni gædſku? er hans miſkunſemi ecki óendanleg? mun hann þá hætta ad elſka og miſkuna oſs? oſs, ſem kalladir erum eptir hans ſonar nafni, endurleyſtir af honum og ſtyrktir af hans fyrirbón? o nei, þín gædſka, o Drottinn! varir eilíflega. Þín eyru eru aldrei apturbyrgd, ſvo ad þú ei viljir heyra oſs, þegar vér framberum vora qveinſtafi fyrir þig; þín hønd er aldrei offtutt til ad hiálpa, þegar oſs liggur á, þú munt allteins bænheyra oſs og þú bænheyrt hefir ønnur þín børn, þegar vér einúngis bidium þig med audmiúkri og helgadri ſálu. Í þeſſari fullviſſu komum vér nú til þín, nádugi Gud! og

útanſ-

skaufsum voru hiarta í trúar-öruggri qvöldbæn fyrir þínu augliti; en, um hvad bidium vér þá? máské um krapta til ad giöra hid góda, og gánga á þínum vegum? o! hvorsu liúft væri þér ei ad heyra þá bæn, hvorsu ríkuglega mundir þú ei vilia géfa oss allt þetta? máské vér bidium einúngis um tímanleg og forgengileg gædi? o! ad vér þó ecki képptunst svo ákaft eptir þessa heims fallvalta munadi, heldur miklu framar eptir himinsins farsæld! o! ad vér leggia vildum vorn vilia og allar vorar tilhnegíngar undir þinnar vísu forsiónar vilia, og eins og krístnum sómir, kappkosta ad girnast æ meir og framar hid góda! O Gud! stiórna þú voru hiarta med þínum Anda, ad vér einninn í vorri bæn, fáum hagad oss eptir þessum óskum og ásetníngi vorum. Géf oss þad vísa gudhrædda hiartalag, sem þú gæddir Salómon med, ef ad þín rödd kiæmi til sérhvors vórs í sinn stad, og segdi: bid þess er þig girnir af mér! ef ad vér mættum velia egin lucku-kiör vor, géf oss þá nád ad velia eins viturlega og hann, og andsvara þér: Drottinn! Drottinn! géf þínum þénara skynsamt



ſamt hiarta, ſvo hann ſkilia megi hvad gott og illt er, og um þeſſa bleſſun bidium vér ad eins á þeſſari ſtundu, ó Gud, allrar miſkunar! géf oſs rádvandt og ſkynſamt hiarta; ef ad oſs audnaſt þeſſi gædi, þá mun oſs allt annad gott tilfalla; þá munt þú uppfylla allar vorar óſkir og eptirlánganir. Og þó ad vér færum varhluta af audlegd, metordum og ødrum tímanlegum ávinníngi, ſkal þó viſdómur og dygd vera hér vor óvidjafnandi audæfi og ávinníngur, og þá er einſkis framar ad óſka, þegar vér einúngis eignumſt þína nád og þína velþocknun.

## LX. Hugvekia.

Guds ótti med ánægiu er mikill ávinníngur. 1 Tim. 6.

Ad miklu leiti koma margar vorar hrellíngar af því, ad vér erum illa ánægdir med vor luckukior, einatt jøfnum vér ſaman áſtandi voru vid annara manna; því erum vér ecki, ſeginn vér opt vid ſiálfa oſs, ſvo ríkir, ſvo heidradir, ſvo luckulegir, ſvo ánægdir, ſem hinir, er ſídur ſýnaſt verdſkulda þad enn vér? vid þvílíkar hugleidíngar gleymum vér opt-




optast nær því góda, sem Gud hefir géfid oss og þacklæti því, er vér eigum honum ad lúka. Lítid munum vér til med hvørsu margfoldum velgiørníngum Gud hefir blessad oss; lítid hugleidum vér allann þann kiærleika, nád og lucku, sem vér mundum í voru giorvøllu lífi jafnan hafa þeckt, ef vér med eptirþánka hefdum gaumgæfa viliad vort ásigkomulag; lítid gætum vér medala þeirra, sem Gud brúkad hefir til ad géfa oss allt þad, sem vér vidþurfum; svo vér mættum ánægdir lifa, já, enn framar: vér konnumst lítid vid þánn mismún, sem er á oss og svo mørgum þúsundum annara, sem mættu lángtum midur ánægdir lifa heldurenn oss géfst orsøk til; vér lifum í landi þessu fríir og friálsir; en, hvørsu margir medbrædra vorra eru ecki innibyrgdir í þraung fángelsi og óhollt lopt, liggia á hørdum bálkum og sá ecki sól, og sumir enga dags skímu ad siá; vér sofum optast vært á nóttum, og rísum flestir heilbrigdir upp ad morgni dags, en hvørsu margir medbrædra vorra eyda ecki nóttum med qveini og veini, og døgum í sorg og siúkdómum; vér høfum þad, sem vér þurfum á ad halda til lífs-nær-

íngar



íngar vorrar, en hvørsu mørg þúsund manna leita þar á mót ástundum vída og forgéfins ad braudi og lífsnæríngu; vér niótum heilsu og heilla, en hvørsu marga beigir ei krøm og karar-sæng diúpt í eymdir og vanvirdu, og þó øfundum vér adra af þeirra lucku, þar sem enn þá fleiri hefdu orsøk til ad øfunda oss? skyldum vér vera illa ánægdir med þad hlutfall, sem Gud hefir oss veitt, og sem efalaust er oss hid besta eptir vorn ástandi? sannfær oss, o Gud! æ betur og betur um þad, ad hlutdeild sú, sem þú skamtad og útdeilt hefir sérhvørium af oss, sé hvøriun og einum hin hollasta og gagnlegasta. Og þared ánægt hiarta er hin dýrmætasta lucka í lífinu, svo géfdu oss nád til ad ødlast hana, ad vér ecki lengur vanvirdum þig med møgli og unnqvortunum. Minntú oss sífellt á vorn óverdugleika, sem ecki verdskuldar neitt af þeirri gædsku, sem þú í vorn umlidna lífi hefir oss audsýnt; láttú þetta leida oss til ad prísa þig fyrir sérhvørn velgiørning, hvørsu lítilsiorlegur, sem hann oss virdast kynni, og styrkia vort trúnadar-traust á þér; og hvørnig skyldum vér vantreysta þinni nádugu stiórnun, þar vér

vér saunfærdir erum um þína náð og þinn vísdóm! nei, eilíflega skal sú vera ástundan vor, að setia vora von til þín, að óttast og elska þig; þessar dygdir munu leida oss til sífellt að vidurkénna þá lucku, að vér standa-megum undir þinni stiórnun. Þinn ótti skal vardveita oss frá syndum og þinn kiærleiki hugga oss í hvoriu, sem að höndum kénur, og með þvílíku sinnislagi fáum vér með glødu gédi tekid sérhvoriu, sem adbera kann, já, gengið með diorfúng ámóti siálfum daudanum; því hvornig megum vér í daudanum vænta annars enn góðs af þeim Gudi, sem í lífinu lét oss einskiæra gædsku í té!

## LXI. Hugvekia.

Hvad, sem þú giorir hugsa ber, hvort þvílík ydia hæfdi þér, ef í því verki ættir þú, andast þá strax og dæmast nú.

Hin besta regla, eptir hvorri vér lagaegum allar vorar athafnir er sú: að vér tídum samanberum þann dóm, sem vér sídar meir fella munum yfir giørdir vorar, vid það álit, sem vér nú hofum á þeim; vér ættum ástundum að

 íminda



íminda oſs, ad vér lægium ſótt-veikir, vér ættum einatt ad renna þaunkunum, til þeſs óttalega augnabliks, þegar þeſſi nálæga tíd, ſkal enda taka, og eilífdin biria. Opt ættum vér ad ſpyria ſiálfa oſs: hvad mun eg líklega ſegia um þann líſernis-hátt, ſem eg nú færi; þegar þúngur ſiúkdómur yfirfellur mig, medöl fá ei líknad lengur, og Lækn irinn ſtendur úrrædalaus, en grátandi ættíngiar og vinir umkríngia ſæng mína, og allt þetta ſegir mér: ad eg ſtandi á yztu líſſins troppu og á ſiálfum grafar-barminum? hvad munum vér þá dæma um þad andvaraleyſa framferdi, í hvoriu vér nú daglega framgaungum og eydum meſtum hluta æſi vorrar, og um laſta-fullar lyſtiſemdir, ſem gledia oſs ſvo miog og ſvallá vorri tíd? hvorn dóm munum vér um allt þetta fella á hinum ſkélfilega degi, þá himnanna kraptar munu hræra ſig, jardarinnar grundvöllur tekur til ad ſkiálfa, og höfud-ſképnurnar brádna af hita, en dómſtóllinn verdur reiſtur upp og bækurnar opnaſt, í hvorium allar vorar giördir, ord og þánkar, uppteiknadir eru? ef ad vér athuga vildum ádurnefnda reglu, mundum vér alla hluti

álíta




ålíta med meira jafnadar-gédi; skélfast mundum vér þá vid þvílíkar athafnir, sem vér nú í andvaraleysi leikum oss ad; óttalegar háskasemdir mundum vér á þeim vegum finna, hvar vér hyggium nú hættulaust. Ef ad vér lifdum samqvæmt þvílíkn hugarfari, mundum vér á sérhvorium degi verda varfærnari, og engar dagsins athafnir biria, fyrr enn vér yfirvegad hefdum allt, sem vér tækium oss fyrir hendur; fyrr enn vér útgengum mundum vér spyria siálfa oss: hvørt gengur þú? hvada freistíngar munu þér mæta? hvada tækifæri munu þér biódast til ad giora gott? þegar vér þannig berum tídum oss saman vid siálfa oss mundum vér brádum framförum ná á dygdanna vegi, hvörsu sem vér ádur hefdum afvega gengid. O Gud! vort athvarf er því til adstodar þinnar; kénn oss ad leggia stund á þessa ydin, er vér siáum oss svo nytsama, svo heilsusamlega, og fyrst þú gafst oss skynsemdarfulla sálu, svo géfdu oss nád til svo ad lifa, sem skynsømum manneskium vel sómir. Já þú, sem hefir oss leidt fram á þessa vegferd í heiminum, vid hvørrar endir vér finna munum annad-

 hvørt



hvørt líf eda dauda, eilífa lucku ellegar eilífa ólucku, virdstu svo ad stiórna öll-um vorrar vegferdar fót-stigum, ad vér hreppa mættum þá sælu, sem á ad véra tilgángurinn allra vorra óska og athafna! géf oss enn nú tíma til ad hugleida vora vegu, og snúa oss til þinna réttinda, og svo ad vér innifelum þad allt, sem vér umbidia þurfum í eina einustu ósk, bid-ium vér nú, ad þú, o Gud! virdist ad géfa oss þann vísdóm náqvæmlega ad hugleida vora endalykt, og dóminn, sem á eptir fylgia mun, og svo ad lifa, ad vér vid þessar mikilvægu umbreytíngar, enga orsök fáum til ad gráta þá dagana, sem vér lifdum hér, heldur eilíflega fagna og glediast hiá siálfum þér í dírdinni.

## LXII. Hugvekia.

Sannlega, sannlega segi eg ydur: hvørs þér bid-jid Fødurinn í mínu nåfni, þad mun hann véita ydur. Jóh. 16.

Sé sús hefir þad afrekad oss, ad vér nú bidia þorum almáttugann Gud; hins skammarlegasta óþacklætis giordum vér oss seka, ef vér vanvirda vildum þenn-ann vorn Herra í vorri Guds þiónustu,

vorn




voru þakklæti og bænum vorum; aldrei vilium vér gleyma því, ad Jesús er sá, hvorium vér þakka egum allt þad hiálpræđi, sem oss er gésid í tíma og eilífd; einúngis fyrir hans verdskuldun erum vér Gudi þócknanlegir, og megum vænta oss bænheyrslu. Fyrir hann fáum vér fullvissu þá, ad Gud, sem máttugur er ad blessa oss, og svo vilji þad giora. O! ad vér ætíd, þegar vér framberum naud vora og þarfir fyrir Gud, minntunst þess dýrmæta sannleika: ad sá Gud, sem vér ákollum, er Fadir vors Drottins Jesú Krists! med því trúar-oruggara trausti, og med því meiri diorfúng munum vér þá voga ad snúa oss til hans, og fela honum á vald vorar egin og vorra medbrædra naudsyniar; þar vid mun og hiarta vort endurlífgast, ad vér fyrir krapt heilags Anda, kalla megum Jesúm Krist vorn Drottinn, og med trúndu hiarta eigna oss þad allt, sem þessi vor Endurlausnari hefir afrekad oss; þá mun vor trú vaxa, og vort traust á honum aukast. Til þín, eilífi Sonur Guds! nálægium vér oss á þessari qvold-stundu; bid þú einnim med og fyrir oss, vér vil-



inum ásamt frambera fyrir þig vort þacklæti fyrir svo margfalda náð og trúfesti, sem vér þegið höfum fyrir þína fyrirbón og forþénustu; þinni fyrirbón er það að þacka að vér enn nú lifum, og að vor náðar-tíð er ecki enn á enda; géfðu oss framvegis þína lífkröptugu náð, og lát oss brúka hana til vors frelsis og sáluhiálpar vorrar. Láttú öll vor fyrirtæki blessast, og sakir þinnar heilagu pínu allar vórar syndir bættar og gleymdar vera; yfirgéfi oss aldrei þín náðuga hiálp, því hvað værum vér án þinnar náðar annað enn aumar útskúfaðar sképnur? kasta oss ecki burt, þó vér vanvirdt höfum vora útvegudu endurlausn og þína náð, með gálausu líferni, og verdskuldað þína réttlátu reiði og hegníngu; hafðu enn þá umburdarlyndi og þolinmæði við oss, fyrir sakir þinnar miskunar; láttú það ávaxtarlausa tréð, enn þá standa óupprætt, enn þá óupphöggvið, þó það enga nema skadlega ávöxtu færi; auglýstu þína vegsamlegu náð, á þínum endurleystu; lát tölu þinna trúu tilbidienda sífellt aukast, og styrk þá æ meir og meir í trú og þínum kiærleika. Vér bidium ásamt fyrir smánarum þíns nafns, sem

set-

setia sig upp á móti þér, og þinnar nádar-lodunúm, fyrir þeim hardsvírudu, hvoria þinn Andi hefir híngad til forgéfins leida viliad til yfirbótar. Vér bidium fyrir øllum heiminum, láttu þitt dírdlega nafn æ meir og meir útbreidast og tignast, og loksins þá tíd koma, ad giorvallur heimurinn vidurkénni þitt nafn og lúti þínu veldi. Amen.

## LXIII. Hugvekia.

Leggid hug á hid himneska, en ecki á þad jardneska. Col. 3.

Allir hlutir sannfæra oss um þad, ad vor mikilvægasta tíd er fyrir høndum, þá lífid er á enda. Giorvallur heimurinn med øllum sínum umbreytíngum og óstødugleika sannar þad, vort egid ásigkomulag, óskir vorrar sálar, veikleiki vors líkama, sú stutta tíd, sem vér dvelium hér á jørdunni, lífsins vidstødulausi hradi, í einu ordi ad segia: allir hlutir prédika oss þann sannleika, ad vér séum áqvardadir til ad lifa eilíflega. Þó fáum vér hér um enn sterkari fullvissu, þegar vér adgætum siálfa oss, sem þá, er af Jesú Kristó erum endurleystir. Allar þær qvalir og píníngar, sem Jes-



ú s þolad hefir, allir þeir velgiorníngar, sem hann hefir oss afrekad med sinni verdskuldun, eru jafn-margar roksemdir fyrir því, ad sála vor sé áqvordud til eilífdarinnar. Oútmálanlega gledi-orsok høfum vér af þessari yfirvegun; en aumkunarverdir eru margir vorir medbrædur, sem framgánga eptir sínum tilhneigíngum, og gleyma þeirri eilífd, sem Gud hefir þeim fyrirhugad. Samt sem ádur, þó þessir oluckulegu villist af sønnum lucku vegi, og gleymi sinni farsæld, gleymdu þo ecki, sála mín! ad þú lifir hér í heimi til þess ad þú megir eilíflega lifa; þitt blindada hiarta giorir þér syndina girnilega, en gleymdu ecki ad lastanna háskasama ánægia, ætti ad vera þeim vidbiódsleg, sem þeckir eilífdarinnar yndisfullu gledi. Þegar þú stendur vid, þreytist ellegar ætlar ad horfa tilbaka á gudhrædslunnar vegi, æ! gleymdu þá ecki ad dygdanna vegur hefir lucku-sæl afdrif í eilífdinni; þegar þessa lífs þreyngíngar ætla ad giora þig huglausa og magnþrota, gleymdu þá ecki, ad þad er hin stærsta vanvirda og ólucka ad géfa eilífdarinnar farsæld vid þessa heims lucku, og þegar þú loksins skilur




vid þetta jardneska hreysi, gleymdu þá ecki ad eilífdin, til hvorrar daudinn færir þig, mun fullkomlega umbuna þenna lítilfiörlega missir, sem þó ecki má nefnast svo, heldur ávinníngur. Eilífdin til hvorrar vér erum áqvardadir, veri því vort stödugamark og mid, og tilhugsan hennar giöri oss hæfilega til ad brúka vel þá stuttu tíd, undir hvorri komin er vor giörvöll lucka eda ólucka í eilífdinni. Vér skulum því med varúd og gætni brúka vorar fáu lífs-stundir á jördunni. Vér skulum ítarlega athuga allar vorar giördir og dæmja um þær, eptir því endurgialdi þeirra, sem vér á sídan væntum í eilífdinni. Lángt sé frá oss ad láta vorar óskir og ástundun einúngis mida til þessa stutta og fallvalta lífs luckn og ánægiu. O! eilífdarinnar Fadir! kenn oss þennann vísdóm, og innrættu diúpt í vorum sálum, ad vér skapadir séum og endurleystir til þess ad lifa eilíflega. Hvad værum vér, ef þetta væri oss hulid? hvad væri vort líf og vor daudi, ef vér ei trýdum þessu? og þó giöra þessa heims stundleg gædi svo opt ad engu hiá oss þennann gudlega þánka, æ! virdstu því siálfur ó! Gud, ad vekia þenna þánka

 hiá



hiá oss og vidhalda honum í vorri sálu, og siálfur ad géfa oss nád til þess, ad vér ecki einúngis hofum eilífdarinnar unntaál á vorunum, heldur ad hennar tilhrygsun megi vera stöduglega innrætt voru hiarta; um þessa nád bidium vér þig, ástkiæri eilífi Fadir! kénndu oss ad hugleida þad á þessari stundu, ad vér egum kost á ad verda innbyggendur annars betra heims, og þín börn í eilífdinni. Og svo þessi dagur og sérhvörr hans tími er vor undirbúníngs-tíd undir þá sídustu umbreytíngu; þegar þú stiórnar oss, munum vér brúka sérhvöria stund til eblíngar vorri sonnu velferd, og vid sérhvöria tillockun til ens vonda, sem qviknar í hiartanu, vid sérhvöria þiáníngu, sem vér lídum, vid sérhvöria freistíngu, sem oss mæta kann, sífellt hughreystast vid þá íhugun med þeim, ad vér lifum hér til þess ad lifa sídar meir hiá siálfum þér eilíflega.

## LXIV. Hugvekia.

Vissu lífs eilífs lér, Lausnarans sigur mér,
megnar ei mig ad fæla, myrkur grafar né kiæla; um iord all-lítid géf eg, í Jesú lífs-von hef eg.

Svo

Svo myrk og hulin, sem oss er sû ókomna tíd, og þau tilfelli, sem fyrir oss liggia, er þad þó efalaust, ad ókomna tídin er oss mikilvæg, og ad vér egum fyrir höndum endalausa eilífd. Enganveginn kann veröld þessi ad vera sá stadur, hvar allt, sem mann-edli voru er ætlad, kynni ad mæta oss; væri hún vors sídasta takmarks og farsældar-land, mundi hún ecki, hvörsu girnileg, sem hún virdist, vera svo eymda og armædufull, sem hún opt er í raun og veru; þessi líkami hefdi þá ecki heldur svo márgar umbreytíngar og veikleika vid-ad strída, þá ætti og vorrar sálar ósedíanlega farsældar laungum hér, kunna ad mettast, enn í voru hérvistar ástandi, verdur tilgángur alls þess nálæga,, veraldarinnar, lífs vors og sálar og vorra giörvallra tilfella vera oss óskiliandi, ef vor sídasti samastadur ætti ad vera hér í heimi; nei, Guds forsiónar fyrirætlan med oss hlýtur ad ná miklu lengra enn til þessa stutta og mædusama lífs; vér erum víst áqvardadir til lángtum ædri hluta enn einúngis ad gráta hér í lífi og glediast, enn ad lifa stutta stund, og deyia svo aptur, og þó ad eckert í heiminum, gæfi oss hérum

nockra



nockra upplýsíngu, þá mætti þad þó vera daudi vors Jesú. Mun Sonur Guds hafa dáid einúngis til þess, ad vér yfrid stutta stund kynnum ad nióta fárra ánægiufullra augnablika og lystisemda þessa skammvinna lífs? mun hann hafa nidur af himnum stígid einúngis til ad giora oss svo skammvinna stundardvøl á jørdunni léttbæra og inndæla, og hvørsu þúng og sorgleg er hún þó ei allmørgum vorra medbrædra? mun hann hafa úthellt sínu blódi, til ad endurleysa oss, og vér þó valla varir verda vid nád og not þessarar endurlausnar, ellegar strax og vér hefdum þessa varir ordid, missa alla hennar nádar ávøxtu og not og huggun í daudanum, væri vort líf þá eilíflega þrotid? nei, vissulega sannfærir oss verdskuldan vors Frelsara þarum, ad vér áqvakdadir og ætladir sêum til lángtum ædri og lángvinnari farsældar. Efalaust mun annar og betri heimur oss geymdur, hvar vér nióta munum þeirrar lucku, ad vera á medal Jesú endurleystu, gæddir lángtum ædri fullkomnun enn hér í heimi er møguleg, med ødrum ordum: vér munum verda ódaudlegir; þegar vér þannig virdum fyrir oss vort líf

lif i heimi þessum, fær það í vorum aug-
um allt annað útlit. Hvørr einn part-
ur þess, hvørsu lítilfiorlegur, sem hann
er, verdur oss þá mikilvægur, svo sem
náqvæmlega samtengdur oss fyrirbún-
um ódaudlegleika; vér megum því ecki
reikna þetta nálæga líf eptir þeim fáu
døgum, sem það vara kann, heldur ept-
ir þeim tilgángi, hvørs vegna það er
oss géfið, og hvar til það miðar; þess-
vegna verdum vér ad lifa þannig, sem
vér óska mættum best ad búa oss undir þá
óendanlegu ára-tølu, sem vér egum fyr-
ir høndum ad lífa, og samqvæmt þeim á-
setníngi og þessu hugarfari, vilium vér-
med náð Guds leitast vid ad laga vort
líf þann tíma æfinnar, sem enn þá eptir
egum; veri sá þánki sífellt vakandi í
vorri sálu, ad vér ecki séum áqvardad-
ir fyrir heiminum, heldur himininum; því
stødugri, sem hann verdur í vorn hiarta,
því framar á vort líferni á jørdunni ad
líkiast voru komanda lífi í himninum;
þá skal himneskt ánægia fylla vort hiarta,
þá skulum vér keppast eptir ad ná eilíf-
um gædum; þá ber oss nú ad elska þá
hér, sem síðarmeir eins munu verda vor-
ir lagsbrædur í himninum. Innrættú oss
þetta



þetta hugar-far, gódi Gud! med kroptugri nádar-verkum þíns Anda; hvørsu blessud verdur oss þá ecki sú nálæga tíd, hvørsu mikil vor gledi, vor sálar rósemi, vor lucka, bædi í lísi og dauda!

## LXV. Hugvekia.

Þad, forsiónar þinnar skugga, þeckium vér ad sorga-frí, megum lifa utan ugga, eyrd og fridi gódum í. Gud! þín miskun eilíf er, en framvegis géf oss. hér, allt hvad þurfum og til þinnar, þénandi er dírdarinnar.

Vidhald vors lífs er eitthvort mesta dásemdar-verk Guds, á hvørin vér á sérhvørin augnabliki þreifa megum; þegar vér yfirvegum vors líkama veiku byggíngu, og skodum þær óteliandi háskasemdir, sem honum eru búnar; þegar vér adgætum vora vangætsni og hirduleysi um vidhald vors lífs, megum vér undrast ad vér fyrir laungu sídan ecki urdum daudanum ad herfángi; efalaust hlýtur einn Gud til ad vera, sem beri allt eins mikla umhyggiu fyrir hvørrar og einnar manneskiu lífi, og vidhaldi allrar náttúrunnar; væri hann ecki til, mætti vaggan verda vor grøf, ómálga aldurinn

inn vort enda-dægur, svefninn vor daudi, og sérhvørr dagur ólucku-dagur. Vér lifum þó enn, getum enn þá hrært limi vora, og erum velflestir heilir heilsu; allir þessir velgiorníngar, mega áþreifanlegar sannfæra oss, enn jafnvel skírustu røksemdir skynseminnar um það, ad einn Gud sé til, og ad þessi Gud sé vor Gud, vor Fadir og vidhaldari vors lífs. Værum vér ecki hérum sannfærdir, mættum vér vid uppruna sérhverrar morgunsólar, vid sérhvørrar nætur adkomu, óttafullir renna þanukunum til hvørs eins komandi tíma vors lífs, og ósialdan segia vid siálfa oss: þar sie eg fyrir háskasemdir þær, sem munu tortýna mér; þar munu mér óvinir mæta, sem framqvæma munu á mér vondann ásetníng sinn; þar sie eg einn ógudlegann, sem mér steypa mun í þá ólucku, sem hann hefir mér fyrirbúna; þar sie eg vetnin, sem munu dreckia mér, eldsvodann, sem mun mig uppbrenna; þar sie eg fyrir þad tilfelli, sem mun kollvarpa mér; med hvílíkum ørvhlnunar þaunkum mættum vér vænta sérhvørs ókomins tíma, ef vér ecki hefdum þá óruggustu fullvissu um vors Guds nádugu og vísu forsión og

stiórn



stiórn yfir voru lífi. Af öllu hiarta prísum vér þig, miskunsami nádugi fadir! ad þú ásamt trúnni um þína forsión géfur oss svo dýrmæta huggun og rósemi. O! hvörsu vanvirdum vér ecki þína gædsku, ef vér enn nú erum vantrúadir, sem höfum svo miklar roksemdir um þína forsión. Géf ad vér aldrei séum óþacklátir, heldur sífellt þacklátlega minnunst, hvörsu vér reynt höfum þína trúföstu gædsku, og ætíd meir og meir upphvetiunst til ad setia allt vort traust á þig, og þetta skal nú vort fyrirtæki og ásetningur á þessari stundu. Í trúnni til þinnar almáttugu gædsku tökum vér óqvídnir komandi tímunum. Svo veikur og vanmegna, sem vor líkami er, treystum vér þó þínum krapti, sem vidheldur oss og styrkir. Svo skammsýnir, sem vér erum til ad fyrirsiá þær háskasemdir, sem oss kynnu mæta, treystum vér þó á mátt þinn og vísdóm, sem sier þær allar og ert máttugur ad afvenda þeim. Vér vitum ecki siálfir hvörs vér egum ad óska oss, eda fyrir hvörju vér egum ad óttast; virdstú siálfur ad uppfylla allar vorar óskir, sem nytsamlegar eru, og frelsa oss frá öllu vondu, sem kynni ad tortýna

oss.




oss. Unn oss ætid ad lifa undir þinni umsión, undir Jesú náð, og undir stiórnun þess heilaga Anda, og nióta þeirrar sælu ad elskast og blessast af þér, þá gaungum vér óskélfdir á móti sérhvörinn lífsins hættulegasta tilfelli, sem oss mæta kann, þared vér hofum þann ad reida oss uppá, sem er almáttugur og ollu vill og kann ad snúa oss til besta.

## LXVI. Hugvekia.

Betri er einn þurr biti, láti madur sér nægia, enn fullt hús matar med þrætu, Ordsqvidab. 17.

Þau eru efalaust best og heilladriúgust luckukior, fyrir hvörn einn af oss, sem sérhvörium í sinn stad eru úthlutud; hvörsu ójofn, og þar hiá undarleg, sem oss allopt virdist útdeiling þessarar jardnesku heims lucku, yfir hvörri vort óánægda hiarta ósialdan heimuglega moglar, uinn þad þó reynast, efunarlaus sannleiki, ad sá alvaldi stiórnari allra hluta útbiti þessa lífs lucku-gædum med vísdómi og gædsku þanninn, sem hans alvitska sier ad hvörium einum best hentar. Ad vera um þetta í hiarta sínu



sannfærdur; er ecki lítil lucka, því þessi fullvissa vidheldur sannri sálar rósemi, vardveitir hiartad frá nagandi øfund, og eydir mátalausum unnqvørtunum; hvørsu ánægdir: birium vér ecki sérhvørn dag, og endunn hann eins rólega, þegar vér erum, hvørr í sinn stad, fulltrúa þarum, ad sú lucka, sem Gud útbitir oss, þad ástand, sem hann hefir sett oss í og þau tilfelli, sem hann áqvardar oss, séu besta hlutskiptid, sem í vort skáut gat fallid, og ad siálfir vér aldrei hefdum getad valid eda óskad oss annars betra! en máské þessi sinnis ánægia sé á þessari stundu fiarlæg voru hiarta, máské óskir þær hvarfli oss í hug: o! ad eg væri svó ríkur, svo luckusæll, sem margir adrir medbrædra minna, og máské þessi ósk og laungun verdi hiá oss enn sterkari, þegar vér náqvæmar gaumgæfum útbítingu þessara lucku-gæda, og vér þykiunst varir verda, hvørsu misjafnt þeim útbitt er medal þeirra, sem oss finnst midur enn vér hafa til þeirra unnid. En vitum vér þá siálfir hvørs vér óskum oss? máské vér verdum annars hugar þegar vér samjøfnum því vér høfum, vid hitt, sem oss vantar. Sén vor kior ad nockru lakari enn annára,

sra, eru þau ad morgn aptur miklu betri. Vér egum máské engann kost á ad nióta þessa heims gæda og hans lystisemda, med friálsu og hindrunarlaust, en undireins erum vér fríir frá svo morgu íllu; fyrir svo margfoldum freistingum til þess vonda erum vér óhultir; oss mæta þá lángtum færri tækifæri og ginníngar til ad styggia Gud, til ad meida samvitsku vora og lída skip-brot á vorri trú. Færri óvini egum vér þá vid ad strída, sem sækist eptir vorum fátækdóm. Margir medbrædra vorra, lifa máské í lystisemdum, og gledia sig á margann hátt, en mundum vér fyrir þad ógæfulegri, ef vér finnum því stærri laungun hiá oss eptir því himneska, og því meiri frid í vorri sálu? máské þad ásigkomulag, sem vér ofundum svo miog adra af, megi giora lífid inndælt og gedfellt, en þó vér fáum nú ecki lifad sældar-lífi, kunnum vér þó med því meiri hiartans gledi og rósemi, ad þenkia til daudans og lokfins skilia vid þetta líf, sem þeim luckulegu fellur opt svo þúngt ad yfirgéfa; þann jardneska ríkdóminn, er þeir einúngis leitudu sér ánægiu í, vildu þeir aldrei þurfa ad missa. Þad ástand, sem vér óskunt

 oss,

 

oſs, er máſké eptir vorri meiníngu og heimſins áliti betra og gédfeldara, en hitt, ſem Guds áqvardan hefir ſett oſs í, er þó efalauſt eptir hans víſuſtu og beſtu rádſtofun oſs lángtum betra. Géfdu oſs, o Gud! ad þeſſar hugleidíngar um vor luckukiør og áſigkomulag í líſi þeſſu, hafi þá kroptugu verkun í hiarta voru, ad róſemi vorrar ſálar megi þar vid rótfeſtaſt og aukaſt; géfdu oſs nád til ad ebla vora ſáluhiálp í því áſtandi, ſem þér hefir þócknaſt ad ſetia oſs, án nockurs vøls, óánægiu og óþolinmædi. Vardveittu oſs frá drambſemi, þó þér þóckniſt ad géfa oſs þeſſa líſs lucku, og frá orvølnun og efaſemi, þó þú létir ólucku tilfelli bera oſs ad hondum; géfdu oſs þarámót nád til ad auka vid upplýſíngu vorrar Skynſemi, og ætíd ad líta í huganum fram yfir takmørk þeſſa nærveranda líſs til annars betra heims, og vid þá ſkodun uppvetiaſt til ad afneita þeſſum heimi, og því, ſem í honum villa kann fyrir oſs ſiónir á því himneſka, en líſa gudrækilega, réttilega og hóflega ámedan vér lifum á jordunni, ánægdir med hvad helſt þín mildi úthlutar oſs. Amen.





# LXVII. Hugvekia.

Sú ætti ad vera vor kappsamleg á-stundan ámedan vér lifum í mann-legri sambúd í heimi þessum, ad vér ávinn-um oss svo elsku og gédþocka vorra med-brædra, ad vér giøra kynnum oss vissa von um, þegar vor hérvistar tíd er á enda, vinir vorir og kunníngiar hefdu orsök til ad sakna vor og syrgia vorn missir, og sér-hvørr rádvandur ad harma vorn vidskiln-ad; takist oss þannig ad hegda oss á-medan vér lifum, megum vér þegar álíta vort líf luckulegt á jørdunni, því aldrei verdur losflegra líkvers súngid yfir mold-um vorum, heldur enn þegar gudhrædd-ir og rádvandir úthella vid lík-kistur vor-ar þeirri hiartans ósk: Gud gæfi hans líki kæmi nú í hans stad, úr því ei vard lengur audid ad nióta hans samvistar! en þar á móti fær þad litla huggun og ánægiu veitt, þegar vér høgum þannig voru lífi, ad vér vitum oss hafa til einsk-is losstírs eda saknadar unnid ad oss øndudum, og eckert liggur losverdt ept-ir oss, því hvad eru: audur, yfirlæti eda lystisemdir? losstírs fyrir þvíumlíkt vil-ium vér eptirtalnalaust unna þeim fá-vísu, sem ákafast sækia eptir þessu, en



þannin vilium vér lifa, ad rádvandir sakni vor, og vinir syrgi vora missir. Vér skulum ástunda ad géfa þeim oss þeckia orsök til ad blessa vora minníngu, og ad álíta oss verduga lofstírs fyrir vort líferni, og einlægrar sorgar yfir vorum missir. Ef vér leggium kapp á ad lifa dygdugu lífi, ástundum vér gudrækni, mïskunsemi, rádvendni, hófsemi, svo munu jafnvel óvinir vorir verda ad leidast til ad lofa vorar dygdir, og hvörsu freklega, sem þeir öfunda oss, þó láta oss ástundum nióta sannmæla. En auk þessa má þad huggunar-ríkt vera ættíngium vorum og vinum, ad nióta gladværrar fullvissu, af voru dygduga líferni, um vorrar sálar eilífa fögnud og sælu, þar vér lifad höfum í Guds ótta, og deyiandi afhendt honum med öruggri trú sálu vora, sem hana gaf. Eckert fær betur aflétt þeirra sorg, eckert betur afþurkad þeirra harma-tár, og eckert framar gladt þá enn eptirlaungunin ad mæta oss innan skamms í sönnu sælu-höfn, og vér sigldum inní rétt á undan þeim. Nú þegar vilium vér taka fyrir oss ad lifa þannig, ad þó vér brádlega deyia ættum verdi vor dandi samt bædi loflegur og sáluhiálplegur. Til ad odlast

því-




þvílíka endalykt, þurfum vér ecki ad óska oss grá-hærds gamalmenna aldurs; þó vér skilia egum vid þetta líf midt í vorum blómstrandi aldri, hofum vér samt yfrid lengi lifad, þegar vér ad eins lifdum dygdugu og rádvondu líferni; því margur leggst sá gamall í grøf, hvors dygdugu athafnir í lífinu funduft færri teliandi enn árin, sem hann lifad hafdi, en þeim vísa funduft dagar sínir aldrei of-fáir, því allir vóru þeir prýddir loflegum dygdum. Þvílíkrar hrósunar skulum vér leita oss, þannig ber oss ad lifa, ad enginn sá rádvandur fylgi oss til hins sídasta legstadar, sem ecki blessi vor bein í grøfinni, og finni vort líferni verid hafa uppbyggilegt og gott. En margur má sá vera vor á medal, sem ókénndur af almenníngi gángi út frá þessu lífi, og verdi því fáum harmdaudur; en þad skal oss liggia í léttu rúmi, þegar vér ad eins getum áunnid oss vors Dómara velþóckun og niótum útvaldra vegsemdar. O! þegar vér einúngis ødlunst ad vera í þeirra sæla hóp, er oss þad fyrir minnstu, þó enginn grafskrift hrósi minníngu vorri, né vor vidskilnadur verdi af morgum harmadur. Eptir þessari hrósun fyrir Gudi



vilium vér einkanlega képpast; hans vel-þócknan mun endurnæra vora sálu; þegar vér eptir vorn dauda, máské enga hlut-deild fáum í manna losstír.

## LXVIII. Hugvekia.

Snú þér nú til Guds þins, vertú miskunsamur og réttlátur og treystú ætíd á þinn Gud. Hós. 12.

Þessi skal þá vera sú stund, á hvorri vér vilium snúa oss til Guds, yfirgéfa vora syndsamlega vegu, og képpast eptir sönnum Guds ótta. Einhvorntíma hlýtur þó ad því ad koma, ad vér tokum oss fyrir hendur þad verk, hvörs framqvæmd vér svo opt ad undanförnu hofum á frest slegid. Líf vort er stutt og daudans tími óviss, hvort augnablikid er dýrmætt, sönn ydran svo sialdgæf en þess dæmi svo mörg, ad manneskium verdur í skindíngu burtu kippt. Hvörnig mættum vér draga yfirbót vora undan til ókominna tíma? vitum vér þá, nema daudinn svipti oss lífinu midt á þeim árum, sem vér brúkum til þiónustu heiminum og syndinni? audveldlega géti þad adborid ad Herrann, sem vér væntum ecki koma mundi fyrr enn ad qvöldi dags,

dags, koma kunni ad morgni, eda um midiann dag, og krefia oss til reiknings; en jafnvel þó þetta yrdi ecki, þó ad daudinn yfirfélli oss ecki voveiflega, þó ad vér lifdum til elli-ára og yrdum saddir lífdaga, munum vér þá hafa fúsari tilhneigíngu og meiri krapta til betrunar og yfirbótar vorrar, heldur enn nú? nei, fiærri fer því; því lengur, sem vér lifum í andvaraleysi og syndum, því framar forherdist vort hiarta, því heldur uppræt-ist hiá oss øll tilfinníng til ills og góds, og því hugsunarlausari giørumst vér um frelsi vorrar sálar. Drottinn á rád á sérhvorium aldri, og sérhvørri stundu vors lífs, ecki er þad oflángt til þess, ad vér brúkum þad allt, hvort heldur þad verdur lángt eda stutt, til dýrdar honum, sem gaf oss þad og hét oss í umbun ódaudlegu lífi. Nú skulum vér því afhenda oss øldúngis þér á vald, almáttugi Fadir vors lífs! nú skulum vér hlýdnast þinni røddu, sem vér svo tídt høfum þverskallast vid! vér vilium nú velia oss þann veg, sem híngad til hefir verid oss svo qvídvænlegur; vér vilium nú afneita þeim lystíngum, sem verid hafa oss svo kiærar, og slíta oss frá heiminum, sem



híngad til hefir haldid oss fanngudum. En, o vor Gud! hvørsu opt hofum vér ecki haft sama ásetníng? optlega høfum vér svarid þér eilíflega ad elska þig, og eins opt brotid þetta sceri aptur. Fá eru þau augnablik, sem vér fengum stødugri stiórnum haldid yfir hiarta voru; þúsundsinnum høfum vér giørst þér óhlýdnir, eptir þad vér þó ad ollu leiti gáfum oss þér til þiónustu; hvørsu opt høfum vér ecki mátt sanna siálfir, hvørsu breiskir vér erum og ótrúir, þegar vér samstundis drýgdum þær syndirnar umhugsunarlaust, sem vér á næsta augnabliki ádur létumst hafa andstygd á! hvørsu marklaus eru þá øll vor heit, gódi Gud! fyrst allur vor ásetníngur, allt vort hiarta er svo hvikult og umbreytanlegt. O Drottinn! kom þú oss til hiálpar med þinni nád! vér høfum nú nockud hrærst vid þessa íhugun, æ! láttú þessa hrærtngu vidhaldast í vorri sálu. Vér høfum nú tekid fyrir oss gódann ásetníng, æ! styrktú oss til ad vidhalda og framfylgia honum! vér heitum þér enn á ný hollustu og trú um alla eilífd, æ! styrk oss til ad halda þetta heit, svo vér ei med ótrygd briótum af oss þína nád, og køllum yfir oss þína reidi, né tokum

um midt í heimsins solli, aptur þad off-
ur, sem vér nú færum þér, á medan vér
enn þá hugsum um þig, og sáluhiálp vora.
Láttú þá hlýdni, sem vér nú sverium þér,
þá elsku, sem vér nú lofum þér ad aud-
sýna, þann ótta, í hvorium vér heitum ad
framgánga, ecki verda eins skammvinnt
og þessa bæn vora. Styrk oss svo vér
mættum æ stødugri verda í þinni þión-
ustu, minna meta heimsins glis, og styrk-
iast gégn øllum freistíngum. Vardveittú
oss frá óstøduglyndi og þeim svikrádum,
sem heimur þessi hefir oss búid. Undir
þinni varatekt og adstod vonum vér ad
fá framgengid þér þócknanlegar hér ept-
ir enn hingad til, og vogum ad vænta
oss heitra verdlauna, sem þú hefir fyrir-
heitid þeim, sem eru þér trúir allt til
daudans.

## LXIX. Hugvekia.

Komid til mín allir þér, sem mæddir erud og þreytt-
ir, eg vil géfa ydur endurnæríngu. Matth. 11.

Vort giørvalla líf á jørdunni er fullt
af mædu og sorgum; eitt and-
streymid fylgir svo ad segia hinu á eptir;
hvorsu marga glada og luckulega tíma
fáum vér talid á móti hinum sorglegu?
færri



færri eru þeir dagar oss hugfastir á hvor-
ium vér nutum hreinnrar gledi án sorga,
þegar allt var þó samfara, sem gledia
mátti vort hiarta, svo sem heilbrygdi vor
og velgengni og vina og frænda vorra,
hugar-rósemd og andans fridur. Siald-
reynt mun, ad allar vorar óskir veitist oss
í einu; séum vér ríkir, vantar oss ástund-
um heilbrygdi, séum vér heilbrygdir, vant-
ar opt ríkdóm; høfum vér þetta hvort-
tveggia, vantar opt trúrra vina adstod
og yndi, já, opt hid allra markverdasta,
vantar samvitsku rósemi. Hvort vér høf-
um mikid eda lítid høfum vér þó aldrei
allt, sem vér óskum oss, stundum hrellir
oss eitthvort nálægt mótlæti, stundum
koma oss annar og vesælar manneskiur
fyrir siónir, hvorra eymdir uppvekia
vora medaumkun. Stundum gagntekur
oss skélfandi ángist, annadhvort út af
vaknadrar samvitsku áklogunum ellegar
allt of hastri blódsins hræringu. Stund-
um fyllumst vér óróa útaf óvæntum skada,
sem oss ber ad høndum, eda ad eitthvad
þad bráist oss, sem vér giordum oss vissa
von um, ellegar huld hønd Guds for-
siónar typtadi og audmýkti oss. Þegar
vér íhugum þá daga, á hvorium oss mætt

hafa

hafa einhvor þesshåttar óblíd tilfelli, þá daga, sem vér eydt hofum í sællífi edafvefni, ellegar í syndsamlegri dægra-stytt-íngu; þegar vér minnunst þeirra dag-anna, sem vér brúkudum til framqvæmd-ar einhvørin ósæmilegu áformi voru; þegar vér lokfins íhugum þá daga, sem vér vórum sjúkir, edur og midur ánægd-ir, þegar vér, segi eg, yfirvegum nú alla þessa daga vors umlidna lífs, hvøria vér hart nær álíta megum eins og þeir aldrei hefdu til verid, og berum þá saman vid hina, á hvørium vér í raun og veru høf-um nockru gódu af stad komid, ellegar vid þá daga, á hvørium vér í raun réttri luckn-sælir vórum, þá munum vér fá ad finna, ad miøg lítid edur eckert verdur líf-daga vorra, um hvøria ecki megi med full-um rétti adqveda med Jobs ordum: madurinn af qvinnunni fæddur, lifir stutta stund, og er fullur óróssemi. Hvørsu mundi oss þá farnast, ef vér lifa ættum þessu órósama og sorglega lífi, án þess ad ega þann ad, sem med vísdómi og gædsku vidheldur lífi voru? æ! þá hefdum vér med réttu nóg efni og orsok til ad vera óþol-inmódir, og óska oss daudans. En þared allt þetta mætir oss, undir stiórnum og

um-



umſión þeſs miſkunſama og almáttugá Guds, megum vér rólegir og ánægdir vera med hvad hellſt, ſem ad hondum ber; og þetta er ſú mikilvæga huggun, ſem gledur oſs þegar vér á ſérhvorium degi inngaungum ſvo ad ſegia nýtt líf; Trúnadar-trauſtid á almáttugum him-ins og jardar ſtiórnara, blandar huggun og gledi í allar vorar ſorgir í þeſſu nær-veranda lífi. Þær rokſemdir, ſem vér ad undanfornu fundum um hans nádarríku ſtiórnun, giorir vort ſinni róſamt og á-nægt. Hann mun ſtýra voru giorvalla lífi eptir ſinni alvíſu gædſku þanninn, ad oſs jafnvel í mótlætinu géfaſt mun nóg orſok til ad vegſama hann, og vér mun-um á nærverandi tíma finna nóg efni til þeſs; jafnvel naudir þær, undir hvorium margir medbrædra vorra verda ad and-varpa og qveina, fá oſs þarum ſannfært, ad Gud hondlar nádarſamlega vid oſs, þared hann giort hefir eymdir vorar oſs lángtum þolanlegri enn margra annara. Já í ollum tilfellum munum vér þarum ad raun komaſt, ef ad vér annars náqvæm-lega adgætum Guds undrunarlegu vegu, ad hann leggur oſs manneſkium ad ſonnu byrdi á herdar, en undir eins hiálpar oſs til ad þola og bera hana.

LXX.





# LXX. Hugvekia.

Mín sála gledur sig í Gudi, heilsugiafara mínum. Lúc. 1.

Hvørsu mædufullt, sem þetta líf er ástundum ad álíta, vantar oss þó ecki ámedan vér lifum gledi og sinnis ánægiu, ef vér sann-kristnir erum, þegar vér lyptum vorum augum í hædirnar til Guds, sem hefir oss skapad; þegar vér virdum fyrir oss hans óendanlegu og þar hiá svo gædsku- og gódgiorda-somu hátign; þegar vér setium oss lifandi fyrir siónir hans dírdlegu og elskuverdu eginlegleika, med hvørsu inndælli gledi má þá ecki vor sála verda uppfyld? og þessarar ánægiu og gledi megum vér daglega adnióta, ef ad vér taka vildum oss fyrir hendur ad skoda og hugleida dásemdarverk Guds bædi í náttúrunnar og nádarinnar ríki; daglega høfum vér þad fyrir augunum; ætíd er oss því unnt ad skémta oss vid þeirra prýdi; aldrei ættum vér ad letiast í því ad upphvørfa siálfa oss til elskunnar vid Gud med náqvæmri adgiætslu hans undrunarverdu dásemda, því ad vanrækia þad, er ad gleyma Gudi, sem med svo augliósum, svo addáanlegum hætti, hefir auð-

sýnt


sýnt oss svo mikinn kiærleika og látid oss reyna slíka undrunarlegu og gædskuríku vegleidslu þannig, ad vér ad minnsta kosti vid endalok lífdaganna munum vidurkénna mega: ad hann hafi alla hluti vel vid oss giört. Iá, þegar vér med rólegri adgætslu skodum þann veg, um hvørn hann hefir leidt oss, finnum vér yfrid stóra orsök til rósemi og ánægiu. Þegar vér skodum vort egid ásigkomulag, og minnunst þar hiá þess innilega kiærleika, sem Gud hefir audsýnt oss, fáum vér nóg efni til ad gledia oss af giørvøllu hiarta. Gud géfur oss luckn og blessun til alls, sem vér tokum oss fyrir hendur; hann géfur oss heilbrygdi, gladt sinni, krapta og lyst til ad erfida, hann síýr frá oss háskasemdum og óluckn tilfellum, útbítir oss þvílíkum luckn-kiorum ad vér enga orsök hofum til ad óska oss annara betri; hvad má oss upporfa til gledi og ánægiu, ef ecki þetta? og þad því heldur, þegar vér adgætum hvørsu mikid Gud hefir oss gott giort framyfir marga adra af medbrædrum vorum; en þegar vér rennum nú augunum til þeirra sæluffullu himinsins hýbýla, og íhugum þann yfirgnæfanda fognud, sem vér egum þar í vænd-

værdunn; hvad má þá af jardneskum heillum og lucku jafnast vid þvílíka gledi vorrar sálu? þad er því undir vorum vilia komid, hvort vér lifa munum framvegis í lucku og rósemi edur ei; séum vér midur ánægdir, þá er vantrú vors egin óstödugá hiarta orsökin, sem ecki velur þau medöl, sem ebli vora sonnu ánægiu. Skyldum vér þá vera miskunarlausir vid siálfa oss, og giöra oss siálfum lífid þúngt og mædusamt, þar sem vér gætum adnotid annars betra? enganveginn; þad skal æ gledia og hugbreysta oss, ad vér egum Gud ad, og ad hann er vor trúfasti vinur og hiálpari í allri neyd; af hans mildiríku nádar-hönd, viliumm vér med þacklátu hiarta medtaka þá ánægiufullu tíma, med hvörium hann gledur oss í þessu lífi, og hryndir burt allri sorg og qvída, þanninn prísum vér Gud med vorri gledi, og med vorri sinnis ánægiu, en giörum oss siálfir lífid þægilegt og inndælt.

## LXXI. Hugvekia.

Gledjid ydur og fagnid, þvíad ydar verdkaup er mikid á himnum, Lúc. 6.



Ad vísu má þad undrum sæta, ef vér á engann hátt látum oss leida til yfirbótar og finnis umbreytíngar, hvörsu margar og mikilvægar uppþvatníngar og ladanir, sem Gud þartil frambýdur oss; ordugleikinn, sem vér meinum oss mæti í voru ydrúnar-verki, sær því þó aldrei valdid, því siálfur Gud, en ecki vér, framqvæmir í oss bædi viliann og verkid, en þarámót vekur máské íhugan stærdar og fiolda vorra synda efasemd hiá oss. Sá qvídi ætti frá oss burtu ad hverfa, eda hvort mundi betra ad særast af vidvarandi samvitsku ángist og ótta vegna drýgdra mót-þróa synda, og daglega vakna upp vid þessa innvortis qvøl, ellegar ad hafa góda samvitsku, sem fridud og róleg er ordin med sannri yfirbót? ellegar, hvad kann ad olla því, ad vér erum svo tregir til ad snúa oss af alvöru til Guds? máské syndir þær, sem vér til egin ólucku vorrar alid høfum í voru brióśti, séu oss svo gédþeckar, og oss falli ordugt ad hata þær eins og óvini. En hvörsu lengi á þetta hættulega tál, sem svo optlega hefir oss blindad og stofnad til vorrar ólucku, ad hafa yfirrád yfir vorum besta ásetníngi, framar enn

enn bestu og heilsusamleguslu áminníngar, vidvaranir og upphvatníngar til egin lucku vorrar? vilium vér þá einskis meta vors elskuríka Frelsara nád og ástsemi þá, med hvorri hann á hérvistardøgum sínum tók svo ástúdlega ad sér ydrandi syndara, og tekur enn med sømu elsku þeim á móti? vilium vér þá giora ad engu med vorum mótþróa allt þad ómak, alla þá umhyggiu, sem vor gódi Gud ber fyrir því, ad fá oss leidda til apturhvarfs, og þarmed frelsa oss frá vorri egin fordiorfun? o! ad vér hugleida vildum hvørnig vér frelsast mættum úr hættu þeirri, sem vér stofnum oss í! efalaust er þad, ad sá sami miskunsami Gud, sem lætur sér svo annt vera um ad frelsa oss, og med sínum Anda verkar hid góda í vorum hiortum, hann, sem útbreidir sinn nádar-fadm ámóti oss allann daginn, ad þessi sami Gud mun þó eins efalaust álíta oss fyrir sína óvini, ef hans náqvæma umhyggia fyrir oss verdur af oss forsmád og þannin ad engu, ef ad vér ecki vilium láta oss leida til apturhvarfs vid hans mildiríku nád; loksins gaungum vér þá siálfrádir út í þá ólucku, sem vér képptumst eptir, og þá hlýtur straff-

 id

 

id, sem vér siálfir bokydum oss ad verda því miklu þýngra. Í þeim sama himni, sem gledi er yfir sérhvoriúm syndugum, sem ydrun giorir, eru hinna nofn, sem áfram ana í syndunum vidurstygd fyrir Gudi, englunum og hans heilogu, því med syndum og ydrunarleysi styggia menn Gud og hrella hans gódu Anda; og hvort vildi sá ad lokunum flýia, fyrir hvorn eckert athvarf edur hæli var lengur á jordunni! þegar ydrunarlaus sála med ótta og ángist hlýtur loks ad skilia vid þetta jardneska, og himininn, inní hvorn eckert óhreint eda almennilegt, eckert, sem elskad hefir ógudlegleika og lýgi, koma kann, er henni apturluktur, hvorr verdur þá hennar samastadur, hvílík hennar kior, onnur enn eilíft spott og vanvirda og hrelling? vegna egin velferdar vorrar, skal vor einlægasti ásetníngur sá, ámedan vér enn þá hofum tíma tilyfirbótar, ad leita af alvorn nádar hiá Gudi, og láta oss leida af hans kiærleiksfullu vidvorunum til ad forda oss háska þeim, sem hinum óhlutvondu búinn er, sem uppegna sér ámóti Guds réttlætis reidi; því hvornig fengium vér afborid hana? o! Herra Gud! virdstú ad leida

oss

oss á þeim vegum, um eydimørku þessa lífs, sem leida til þíns sælufulla himins. Vertú æ vor leidtogi í lífinu, svo ad vér fyrir þína nádar-rîku adstod ad lokunum lenda fáum í þeim farsældar héimkynnum, hvar útvaldir glediast af þeim sælufullu verdlaunum, sem þar eru fyrirbúin þeim, er þig elska. O! Herra Jesú! leidtú oss jafnan med ordi þínu og Anda, til þessarar farsældar. O Jesú! nun oss þann sóma! Amen.

## LXXII. Hugvekia.

Þú, hinn mikli og voldugi Gud! Drottinn Zebaoth er þitt nafn, þú ert mikill í rádum og máttugur í athofnum. Jer. 32.

Þared vér erum svo óframsýnir til ad siá víslega fyrir høgum vorum, og kraptar vorir reynast svo veikir til ad efla vora luckn, er þad ecki lítilvæg huggun fyrir oss, ad Gud, undir hvørs stiórnun vér stondum, og í hvørs valdi er ad bæta allar vorar þarfir, er svo mikill í rádum og máttugur í athofnum. Vér vitum ecki hvad oss mæta mun á næsta degi, jafnvel ecki á næsta tíma; en hann, sem nidurradad hefir, og áqvardad fyrir-

 fram



fram sérhvorrar manneskiu tilfelli, og fyrirhugad þeirra luckukiør, hann sier ecki einúngis fyrir hvad á næsta tíma og morgun-degi muni adbera, heldur er einnig auglióst og nakid fyrir hans alskigna auga allt, sem í voru giørvalla lísi mun oss mæta; og svo rád-þrota, sem vér einatt verdum, þegar vér vilium forsiállega siá fyrir lucku vorri, svo kroptug eru hans rád, sem hiálpa oss eins opt í vandrædum þeim, sem abla oss áhyggiu og ángistar qvída. Þared vér erum nú svo fullkomlega sannfærdir hér um, því erum vér þá svo fásinna ad láta vort blindada hugskot og hiartans tilhneigíngar ráda vorum fyrirtækium? því felum vér þá ecki allt vort rád og áform á vald Guds óendanlega vísdomi og stiórnun, þared ályktanir hans ráds einar eru vísar og sáluhiálplegar fyrir oss; ef ad vér ætíd breyttum þanninn og vendum oss á ad vera ánægdir med þessa Fødurs vors vísa og náduga vilia, mundum vér sídur orsok hafa til ad ángrast eptir á yfir vorum fyrirtækium. Qvídalausir mundum vér renna augunum fram til hinna ókomnu tímanna, ef vér med gaumgæfni íhugudum ad sá Gud, sem áqvard-

ad

ad hefir oss til handa allt þad, sem fram-koma mun á komandi tímanum, er mikill í rádum og máttugur í athøfnum. Þessi fullvissa leidi oss frá þeirri fásinnu, ad trúa betur vanvitsku vorri, enn Guds óendanlega vísdómi, frá því ad treysta framar vanmætti voru, enn almætti hans, sem øllu megnar. Oteliandi røksemdir sannfæra oss um þad, hvørsu vís, hvørsu máttugur og gædskurîkur Gud er, sem vidheldur lífi voru. Sîst skal vor fávitska giora lítid úr vísdómi hans, né treysta vanmegni voru jafnt og hans almætti, med verdugu þakklæti skulum vér vidurkénna hans gódgirni; fyrir Guds alvísa augliti, vilium vér lítilæcka oss, og géfa honum dírdina, fyrir allt þad góda, sem hann audsýnir oss. Þegar vér þannig forum ad rádi voru, vogum vér ad vænta oss blessunar Guds og lífsins ánægiu og farsældar; o Gud! géf þú oss þessa lucku, og kénn oss æ betur og betur ad þeckia vanmætti vort og fáfrædi. Láttú oss aldrei dirfast ad framkoma fyrir þitt alsiáanda auga med drambsømu og stærilátu hiarta, sem í nockru stóli uppá sig, heldur þeckia og vidurkénna ad vér æ séum veikar og

 hiálp-



hiálparlausar sképnur, sem í øllu kommar erum uppá þína miskun og náð. Hvorgi nema frá þér, voldugi Gud! væntum vér adstodar og hiálpar, þegar oss liggur á, en þegar vér þannig selum oss á þitt vald med audmiúku og einlægu hiarta, láttú oss þá ætíd finna hiá þér rád og krapt. Audsýn þig giørvallri kristni þinni, sem hennar trúfasta rádgiafa og hiálparmann, og frelsadu øll þín børn af þeim vandrædum, sem nú eda hédanaf kynnu ad mæta þeim. Giør ad engu ráda-brugg hinna ógudlegu, en heyrdu ósfir rádvandra; þegar vér erum esablandnir og ráð-þrota í voru áformi og fyrirtækium, géf oss þá vísdóm til ad þeckia og velia þad besta, og krapta til ad framqvæma þad. Lát oss í øllu, sem vér giørum, tølum eda hugsum, hafa þinn vilia oss fyrir augum og breyta eptir honum í øllu; þitt undarlega og dýrdlega ráð, leidi oss farsællega ígégnum alla mædu þessa lífs og mótlætíngar, og ad lokunum inní annars betra heimis vistar-veru, hvar vér med gledi-saung munum vegsama þig og sýngia: mikli og sterki Gud! Drottinn Zebaoth er þitt nafn, þú ert mikill í rádum og mektugur í athøfnum.

LXXIII.




# LXXIII. Hugvekia.

Þad port er þraungt og sá vegur er miór, sem til lífsins leidir, og þeir eru fáir, sem rata hann. Matth. 7.

Ecki verdur því neitad, ad mørg er mædan og margfaldur ørdugleikinn, sem oss mætir á fyrirsettum vegi ígégnum heim þenna til himinsins; vegurinn, sem vér gánga skulum er yfrid miór og portid þraungt, sem vér egum um ad fara, en hvørsu ørdug og mædusøm, sem gánga þessi mætti finnast oss, er þad þó skylda vor ad velia þenna veginn, og ecki láta þær þrautir, sem á honum kynnu mæta, fæla oss af honum! Þad er ad sonnu satt, væru þessar þrautir óyfirvinnanlegar, og ef vér búast hlytum vid ótelіandi þiáníngum og endalausri mædu, mætti þad verda efni til ørvæðlunar fyrir oss, en vér høfum, eptir nærverandi ástandi voru, nóg medøl í høndum til þess, ad vegurinn verdi oss greid-farnari, strídid gédfeldara, sem vér á hvnum heja hliótum, og heillafull von þess, er vidtekur, þegar veginn þrýtur, giørir allt léttbærara. Satt er þad ad vegur þessi er miøg ógreidur, en endir vegarins, ef vér til hans lítum, er

 því



því vegsamlegri. Öblugir eru óvinir þeir, sem vér egum hér vid ad strída, en hinn, sem med oss er, er lángtum öblugri; veikir eru vorir kraptar, enn Jesú mátt-ur yfirgnæfir vort vanmegni. Höfum vér höfum nú þvílíka upphvatníngu og hug-ar-styrkíngu, væri þad eckert afsökunar-mál fyrir oss ad klaga yfir kristinndóms-ins ördugleika; vér vilium því á oss taka þetta heilnæma ok, og bera þessa léttu byrdi. Allra Jesú sonnu strídsmanna dæmi skulu hér til upphvetia oss, þeir hafa margir mátt reyna alla þá mædu, sem kristinndómurinn olla kann, og þegar vér samanberum vorar léttu þiáníngar vid þrautir þær, sem þeir lída hlutu, hvörsu litid eru þá ecki vorar ad reikna ámóti þeirra? hvörki píslir né píntíngar höfum vér lidid fyrir Jesú sakir; hvörki höf-um vér hans vegna þurft ad afneita rík-dómi, metordum né velgengni; en allt þetta og þadan af meira hlutu fyrstu Evangelii játendur ad lída, skyldum vér þá ecki þola vilia litla mædu eda stutt og léttbært stríd, já, hvad enn þá er meira, hlaut ecki Jesús siálfur ad þola svo mik-id, ádur enn hann inngánga fékk í sína dýrd? allt frá fædíngu hans til däudans,




vàr hans líf fullt mædu, fullt erfidis og sorgar; ættum vér þá ecki ad vilia líkiast honum einnig í þessu? fiærri sé þad oss ad skora oss undan ad bergia á líkum kaleik og hann! vér hofum nú fyrir augsýn Guds tekid fyrir oss þann ásetníng ad umbera allann ordugleika, sem kristid líferni útheimta kann, ad krossfesta vort hold med þess girndum og lystíngum í ollu, ad eptirfylgia Jesú án moglunar, og fúsir ad taka þeim mótlætíngum, sem hann vill á oss leggia; ecki skal neitt ójafnt eda óþægilegt á vorri Pílagríms-reisu hræda oss frá ad framgánga á þeim vegi, sem oss er fyrirsettur; nóga endurnæríngu munum vér finna, þegar vér med rádvendni kostum kapps um ad vardveita skyldur vorar; vér felum oss því á hendur þinni styrkiandi og helgandi nád, miskunsami Gud! án hvorrar vort áforin mun ad engu verda; ebl þú oss í strídinu vid syndina, ad vér ecki látum oss locka af dæmum og adferd hinna ógudlegu: géf oss þann vísdóm ad vér ecki látum oss ginna af lastanna útvortis skini né vellystínganna tillockunum. Hiálpa oss ad gánga hugudum fram á gudhrædslunnar vegi, og loksíns



ins ad ná því takmarki, sem endar alla vora mædu, umbunar alla vora fyrirhøfn. Hvørsu rósamir munum vér þá ecki renna augunum til hins umlidna og skoda allann þann ørdugleika, sem vér høfum yfirunnid! hvørsu kroptuglega munum vér þá ecki sannfærast þarum, ad mjói stigurinn, sem vér framgaungum á, var sá besti og beinasti fyrir oss til ens eilífa lífsins! hvørsu ástúdlega munum vér þá ecki þacka þér, ad þú leiddir oss um hann til vorrar eilífu farsældar!

## LXXIV. Hugvekia.

Hvørr er eg? þad er sú spurníng, sem vér hvørr í sinn stad daglega giora ættum siálfum oss; því hvørr, sem aldrei gaumgæfir sitt ástand, eda hvørt hann taki framførum nockrum á dygdanna vegi, ellegar forherdist í løstum, er nærsta illa farinn. En ef vér stíngum nú hendinni í vorn eiginn barm, og rennum þanktunum til siálfra vor, má efalaust margur af oss játa, ad allt til þessa dags høfum vér aldrei med verdugri eptirtekt hugleidt þetta efni, eda sønnu svarad uppá spurníngu þessa; vér høfum svo lengi eydt lífs-stundum vorum í heimi þessum

ân þess ad hafa lagt alúd nockra á ad
lifa eins og vor áqvardan, Guds ord og
skynsemin baud oss; en látum þad nú næg
vera ad vér hingad til eydt hofum svo
morgum degi í vanvitsku þvílkri, rétt
eins og draumi; þessa stund skulum vér
þó til þess taka ad yfirvega med athygli,
tilveru vora, hvad vér séum og til hvors
skapadir. Af siálfum oss urdum vér ecki
til, Guds almætti mindadi oss í upphafi;
og gaf oss þá veru, sem vér hofum. Frá
honum komu allir þeir fullkomlegleikar,
sem vorri sálu og líkama veittust, og í
hans valdi er ad taka þá aptur, þegar
hann vill; vor líkami er af jordu mind-
adur, af jordunni nærist hann, og verd-
ur loksins rotnadur ad jordu aptur. Nem
því hér um eitt augnablik stadar, krist-
inn madur! og hugleid hvort þú hafir
orsok til ad stæra þig af líkama útliti
þínu ellegar upphrokast yfir adra. Sú
smeckbetri fæda, sem þú máské nýtur, og
þau státslegri klædi, sem þú máské bera
kannt framyfir adra, giora þig engu dýr-
mætari, enn þú í raun réttri ert. Vér
erum allir áþeckir því, sem vér undir fót-
um trodum daglega, dupt af dupti, og
jord af jordu, en vér erum þaradauk
andi,



ándi, og þó þeim óendanlega anda, hvørs eptirmind vér vera áttum, nærsta ólíkir ordnir; yfrid lítid hefir skynsemi vor til ad bera af vísdómi þeim, sem honum var í ondverdu meddeildur; viljinn hefir heldur eckert eptir af sakleysi því og heilagleika, sem hann var prýddur med; og tilhneigíngarnar gánga hiá oss svo frekt útyfir tilhlýdileg takmørk, ad þar vid eydist sálarinnar rósemi. Sá alvaldi Yfir-herra, sem skapadi manneskiurnar, setti oss til þess í heiminn ad framqvæma þad verk, sem hann áqvardad hafdi einum og sérhvørium af oss; þetta fyrirsetta verk verdur, því midur! af ofmørgum forsómad, edur ad minnsta kosti giort verr enn vera ætti. Þad mun loksins sérhvørr af oss samna mega, þegar ad reikníngskapar tímanum kémur, en Herrann á óvæntri stundu kallar oss burtu hédan, og sá alvísi dómari útbítir einum og sérhvørium umbun eda straff, eptir því, sem einn og sérhvørr ámedan hann lifdi hér í heimi, hafdi tilunnid, þá mun þad loksins auglýsast, ad vér engannveginn giordum þad, sem oss bar. Svo órólega, sem þessar hugleidíngar mættu nú giora oss, svo rólega og frid-

stillta giorir oss aptur sú yfirvegan, ad vér séum kristnir, sem egum von á, ad verda ecki dœmdir, eptir strángasta rétti, fyrst vér af Jesú erum endurleystir, sem ecki einúngis bætti fyrir vorn ófullkomlegleika og afbrot, heldur útvegadi oss hylli Guds og rétt til ad heita hans born, sem mega gledia sig hér í tímanum vid þá sælu-von, ad ødlast á sídan hlutdeild í eilífri farsæld, þegar vér ástundum ad lifa hér sem kristnir. Veri þarfyrir sú alvarlegasta ástundan vor, ad lifa svo sem kristnum sómir, efla Guds dírd og farsæld vorra medbrædra undir eins og vora egin, ad svo miklu leiti oss er møgulegt; med þvílíkum lifernis og þenkíngar hætti, mun sérhvorr af oss efalaust smacka þá lífs luckn og ánægiu, sem hann aldrei ádur þeckti. Med róssamri gledi skilium vér þá vid lífid, þegar ad lífsins enda-dægri kémur, því samvitskan ber oss þá vitni, ad vér af alvøru høfum lagt stund á ad framqvæma í lífinu vort fyrirsetta verk, og Guds Andi mun þá sálina gledia med von dýrmætustu umbuna. Í blessadri endurminníngu verdur þá vort nafn og minníng á jordunni, en vor føgnudur í eilífdinni óútmálanlegri enn nockrum hér hafdi í hug komid.

LXXV.



# LXXV. Hugvekia.

Dragdu ecki undan ad snúa þér til Drottins, og
slá því ecki á frest frá einum degi til annars,
því reidi Drottins mun hastarlega koma og
yfirfalla þig á hefndarinnar degi. Sir. 5.

Hengu efni er undandráttur hættulegri enn voru ydrunar-verki; margfold hofum vér dæmi haft, sem sannfæra um þad, og eilífdin mun á sídan sýna oss enn fleiri óttaleg þeirra, sem burtryktust ádur enn þeirra vildu yfirbót, þared þeir táldrógu siálfa sig, ad þeir enn mundu fyrir hondum eiga lánga líf-daga, en nádu þó ecki þeim tíma, sem brúka skyldi til betrunar; siáum vér þá ecki í huganum vora ímind á þessum ólucku legu? því er midur, vér megum vidurkénna, ad vér híngad til verid hofum allt eins hirdulausir um vora yfirbót; Guds lánglundargédi megum vér þacka, ad oss þegar ecki er burtu kippt midt í voru andvaraleysa og dofna ástandi; vér siáum þá háskasemd, sem vér stofnum oss í, med því ad draga undan vora yfirbót. Vidurkénna megum vér fásinnu vora í því ad giora oss vissa von um ár og daga, þar sem vér varla megum reida oss uppá

ad

ad lifa næsta augnablik. Vid svo márg-
ar upphvatníngar til umvendunar, hugs-
udum vér óstaldan líkt Felix: í annad
sinn, þegar eg fæ tóm, vil eg snúa mér;
en af hvorin vitum vér, ad oss í annad
sinn muni betur farnast? festa ecki lest-
irnir þess meir rætur, því lengur, sem þeir
æfdir eru? forherdunst vér ecki æ meir og
meir vid syndsamlegann vana í løstun-
um, og verdum um leid því meir frá-
bitnir því góda, og hvørr hefir sagt oss
ad vér lifad fáum þann tíma, ad vér tek-
id fáum sinna-skipti? mun ecki daudinn
géta ryckt oss óvorum í einu vetfángi
burtu? máské og ádur enn nockurr sjúk-
dómur bodi hans nálægd? hvad fullvissf-
ar oss um ad Gud enn vilji láta oss heyra
sína nádar-rødd, hvoria vér svo opt hof-
um forsmád? og hvørnig megum vér
vænta þess, ad heilagur Andi enn þá hér
eptir vilji klappa á dyr vors hiarta ept-
ir þad vér svo þráfáldlega hofum neit-
ad honum inngaungu? nei, aldrei skulum
vér framar vera svo fásinna ad treysta á
svo óvíst; þetta augnablik, um hvørt vér
med vissu sagt gétum, ad þad sé vort,
skulum vér endurkaupa; á qvøld-stundu
þessari viljum vér nú heyra þá røddu vors



Guds, sem kallar oss til apturhvarfs; hvørr veit neina vér í nótt eda med morgun-deginum fáum þá skélfandi roddu ad heyra: manneskia! þú skalt deyia og ecki lifa! æ! látum oss þá álíta oss svo sem þegar deyiandi, er vænta megum daudans á hvorri stundu og þad nú framqvæma, sem vér vildum láta oss hugfastast þegar vér í bana-sænginni liggium fyrir daudanum; látum oss audmýkia oss fyrir Gudi, undir eins og vér vogum ad tileinka oss Jesú réttlæti, sem í daudanum verda skal vor einka huggun og styrkur! látum oss fela vora sálu þeim Gudi á vald, í hvørs höndum vér óskum henni ad hvíla þegar hún skilst vid líkamann! látum oss strída á móti þeim girndum, sem giora mundu oss samvitskunnar áklaganir þúngbærar í helsóttinni, ef vér létum sigrast af þeim. O Gud! þú, sem nú vekur þessa þánka í hiarta voru, þú, sem nú minnir oss á þessa svo naudsynlegu forsiálni, géfdu oss krapta og stodugllyndi til ad framqvæma þetta, sem vér ásetium nú; kénn oss ad endur-kaupa tídina, og sífellt ad minnast þess, hvørsu dýrmætt, en þar hiá fallvallt og ódstugg vort líf er, svo ad vér verda mættum eilíflega sáluhólpnir.

LXXVI.





# LXXVI. Hugvekia.

Gángid í elſkunni eins og Jesús Kristur hefir oſs elſkad, og ſig ſiálfann útgéfid fyrir oſs, til fórnfæríngar og offurs Gudi. Eph. 5.

Ef ad vér hugleida vildum hvorſu óumrædileg ſú elſka var, med hvørri Jesús Guds eingétinn Sonur elſkadi oſs ſynduga menn, þá muudum vér finna þad, ad um eckert ætti oſs fremur annt ad vera enn ad hiá oſs mætti aptur ámót vekiaſt ſá heitaſti og hreinaſti kiærleiki til hans, því heldur, ſem þad er ecki einúngis vor ſkylda, ad elſka Jesúm af giørvøllu hiarta, heldur og vor ſamma lucka undir því komin, bædi í tíma og eilífd, ad vér lifum og deyium í Jesú kiærleika; og hvørſu mikid er þad ecki, ſem Jesús bædi med ſínu lífi og dauda hefir giørt fyrir oſs, ſvo ad vér ſkyldum elſka hann; eda hvad gétum vér ímyndad oſs, ad hann frekar giøra mætti fyrir vorar ſakir, enn hann giørt hefir til þeſs ad lada til ſín vora hiartans áſt? gat hann lidid meira enn þann ſmánarlegaſta og qvalafyllſta dauda til þeſs ad afreka oſs eilífa ſáluhiálp? hvøria óræckari ſannfæríngu mátti hann géfa oſs um



það hvorsu heitt hann oss elskaði, heldur enn þá, að hann oss til góða tók á sig forsmán í stað sinnar eilífu dýrðar; eymd og volæði, í stað guddómlegrar sælu, orbirgð fyrir ríkdóm, dauða fyrir líf! hvorsu hardt, grimmt og tilsinningarlaust er þá ecki þess hiarta, sem ecki vill elska þenna vörn Jesúm aptur ámóti fyrir þvílíkann kiærleika! o! vor elskuríki Jesú! styrk oss siálfur í elskunni til þín, að hún mætti verða svo sterk, að enginn hlutur megni að skilia oss við þinn kiærleika. O! vér hlióðum, vér viliúm elska þig, svo að bædi líf vort og dauði vitni um vorn kiærleika til þín, þér viliúm vér lifa; o Jesú! án þess að elska þig er alls enga sanna ánægiu að finna í þessu lífi; hvorgi er oss auðið huggun eður hæli að fá í þreyngingum, mædu og mótlæti þessa lífs, ef að oss ecki auðnast að vera í náð hiá þér, og vita oss undir þinni mildiríku stiórnum. Sannfær oss æ betur og betur um þá sælu, sem sérhvorr þinn trúr þión og barn á í vændum. Þegar vort hiarta vill leiða oss afvega til að hlýðnast heimsins tælandi girndum, lát oss þá hugleiða hvorsu viljugur þú hasir syniað siálfum þér jard-
neskr-

veſkrar gledi, og þar med ſkuldbundid oſs til ad afneita heiminum og eptirfylgia þér! ef ad vér rata ſkylduin í þá villu og olucku, ad lifa í ſyndunum, minntu oſs þá á þær yfſlir, ſem ſyndir vorar bökudu þér, ſvo þar vid leidaſt mættum til ad fordaſt ſyndina. Ef ad vér teliumſt undan ad bera þann litla mótlætis ſkérf, ſem þú hefir oſs útmælt, ſet þá hiarta voru kroptuglega fyrir ſiónir, þá pínu og ſiálfs-afneitun, þann kroſs og dauda, ſem þú undirgéckſt fyrir vorar ſakir! þinn kiærleiki uppfylli allt vort hiarta, ſtiórni voru liferni og veri lokſins vor huggun í daudanum! því hvørr daud-dagi er ſálu-hiálplegri enn ſá, þegar oſs audnaſt mætti ad deyia í þínum kiærleika o! Jeſú! í honum og þinni ſameiníngu, finnum vér óumrædilegann ſætleika, ſem lángt yfirgengur allann daudans biturleika. Þad ſkal þar fyrir vera vor ſtadfaſti áſetníngur ſvo ad lifa, ad vér og ſvo í daudanum mættum vera þínir; vér vilium því ſlíta oſs frá öllu, ſem taka má vort hiarta til fánga. Alla mátalauſa elſku til ens jardneſka, vilium vér úr hiarta voru uppræta, og eckert nema þig, kroſsfeſtt og upp aptur riſni Jeſú! af giørvallri

 ſálu



sálu elska; einnin þá, þegar vér ecki lengur í daudanum gétum um nockurn hlut framar þeinkt, skulu allar vorar hugrenníngar hiá þér sídast stadar nema, en þegar vér útgaungum frá heimi þessum med þeirri huggun ad vér deyium í þér, munum vér efalaust inngánga í betri heim, med þeirri øruggu von ad mega eilíflega med þér lifa. O! hvílíkur þánki er þetta: eilíflega ad lifa þér! Herra Jesú! hér í heimi fáum vér øldúngis ecki skilid, hvørsu mikils þetta er verdt, en þegar vér innfluttir erum í vort eptirþreyda fødurland, munum vér ad fullu reyna og skilia: hvørsu sæl sú sál er, sem lifir þér.

## LXXVII. Hugvekia.

Nád sé med øllum þeim, sem elska Drottinn vorn Jesúm Kristum einlæglega. Eph. 6.

Yfirvega þú, sála mín! med gaumgæfni og undrun kiærleika Frelsara þíns. Gacktú til Bethlehem, skodadu hann, sem er lióminn Guds dírdar í þénara mind, í eymdum og þreyngíngum. Fylgdu hønum fet fyrir fet ígégnum hans lærdóms-ríka líf hér á jørdunni. Siádu hans gódgiarna kiærleika, med hvørium hann

hann læknadi siúka, styrkti veika, huggreysti auma og tók syndarana til nádar. Siádu hvørnig hann, sem þó auglýsti svo mikinn mannkiærleika var af mønnum offsóktur, smádur, hæddur, og hvørsu saklaust og heilagt hans framferdi var, þó qvalinn og píndur. Gacktú á eptir honum inn í Gethsemane aldingard, og skodadu stridid, sem hann þar hlaut ad útstanda, siádu erfidid, sem hann þoldi, siádu tárin, sem hann felldi, teldu andvørpin, sem hann stundi fram, skodadu blódsveitann, sem hann úthellti, yfirvegadu þá bæn, sem hann þar giørdi til síns himneska fødurs, og hugleiddu med heilagri furdun þá hlýdni, med hvørri hann leggur sig undir vilia síns fødurs. Halltú enn lengra áfram og far med honum uppá fiallid Golgatha, stattú kyrr þar, á skódmar-plátsi allks þess mesta, sem Guddómurinn nockurn tíma giørt hefir, og siádu þad undrunarverdasta, sem kiærleiki nockurn tíma hefir framqvænit; siádu þennann Jesúm, síns fødurs sønnu ímind, siádu hvar hann héck nakinn á einu tré, á medal tveggia mordíngia, igégnum stúnginn med nøglum, og af bødlum umkríngdur


en siádu hvörnig hann styrkist af kiær-leikanum í svo mörgum píslum, hvörn-ig elskan þrýsti honum til ad leggia sig undir þessar qvalir og hrærdi hann til ad umbera þær þolinmodlega. Siádu hvörn-ig hann tæmdi qvalanna bitrasta kaleik, og var eins fús ad deyla fyrir sína óvini, og fyrir þá, ad taka á sig manndóm. Hvörnig er þad mögulegt, ad þú, sála mín! hræríst ecki vid sión þessa? hvörn-ig er þad mögulegt ad þér falli þad örd-ugt ad taka hann áſetníng fyrir þig ad elska þinn Jesúm aptur ámóti, þegar þú hugleidir hvílíkann kiærleika, og þad er þó allt, sem þinn píndi velgiörari kref-ur af þér, ad þú aptur á mót elskir sig. En hvörr kiærleiki gétur ordid nógu sterk-ur, nógu brennandi til þess, ad þú med honum fáir endurgoldid þad óútmálan-lega góda, sem hann hefir giört þér? ad sönnu er þad þér ecki mögulegt ad elska hann eins heitt, og hann hefir þig elskad, en hann krefur einúngis af þér einlægann kiærleika, jafnvel þó hann veikur sé. Kom þá, sála mín! og offra honum allri þinni eptirlaungun, allri þinni von og öllum þínum óskum! ad elska hann æ meir og meir med sífellt

var-

varandi öruggu trausti, ad trúa á hann, og med einlægu rádvöndu og audsveipu hiartalagi ad leggia þig æ viliugri og viliugri á hans vald. Þetta skal vera þín innileg ósk, sem þú leitist vid ad uppfylla. Sýndu því í daglegu framferdi þínu verkanir þess kiærleika, sem þú ber til Lausnara þíns. Hugsadu opt um þad hvörsu heit sú elska var, er hann til þín bar, spyr siálfa þig, hvört eitt edur annad fyritæki, sem þú áformar, ellegar synd, sem þér kémur í hug ad drýgia, standast megi med kiærleika þeim, sem þú ert þínum Frelsara skyldug ad sýna. Gleym því aldrei ad öll sú lucka og blessan, sem þú nýtur á sérhvörium degi þíns lífs, helgast af því dýrmæta offri, sem þinn Endurlausnari frambar þann dag, sem hann fyrir þig píndur var; og þetta uppveki og brýsti þér til á sérhvöriu augnabliki þíns lífs, ad renna augunum til Jesú kiærleika, og þacklátlega ad minnast hans pínu og dauda.

## LXXVIII. Hugvekia.

Allt mitt ráð til Guðs eg set, á mér sinn vilia verða lét, mér bið eg hans miskun hlífi, heilsa, vit, líf, sál, heiður, fé, hans vernd jafnan befalað sé, nú og í eilífu lífi!



Á medan vér erum á vegferdar-reis- unni, sem oss er áqvørdud ígégnum líf þetta, er vissulega enginn lucka meiri enn sú, ad vera þess fullviss ad vér sí- fellt framgaungum undir umsión og ná- gvæmri varatekt þess Guds, sem er ó- endanlega máttugur og miskunsamur; þad skal því vera vor eilíf gledi ad halda oss til hans og setia á hann vort giør- vallt trúnadar-traust; eda því skyldum vér hata svo' eigin velferd vora ad treysta á sképnurnar, sem eru eins vanmáttug- ar og vanvita og vér siálfir erum; nei, Drottinn er vor frelsari, hann er vor leidtogi, hann er vor verndari; hans óend- anlegi vísdómur sier og þeckir allar þær háskasemdir, sem lífi voru eru búnar, hans almætti gétur verndad oss í allri neyd og sérhvørri jafnvel mestu hættu. Gædska hans er sífellt reidubúin til ad- stodar, og synlar oss aldrei hiálpar í nock- urri naud. Þetta hofum vér siálfir svo margopt reynt á vorum umlidnu lífs- stundum, þegar enginn madur né nock- ur mannleg hiálp gat oss minnstu biorg veitt, var hans hiálp oss nálæg, og þegar enginn heyrdi þær sáru klaganir, sem vér í einrúmi leynilega frambárum af sorg-

bitnu




sorgbitnu hiarta, stód hans miskunar eyra opid fyrir vorum qveinstøfum, hann taldi vor tár, heyrdi vora grátbeidni; og því skyldum vér þá ecki trúa á hann, og vona til hans miskunar á vorum ókomnu æfi-døgum? Sífellt ámedan vér lifum í heimi þessum, erum vér umkríngdir af háskasemdum, og hvørr veit hvad oss í nótt eda á næsta degi mæta muni. Vér vilium engu qvída, en afhenda oss á vald vors Guds vísu og almáttugu forsión; hann mun fyrirsiá hættu þá, sem yfirvofir, og útryckia oss af neydinni med sínum volduga armi. Í vanvitsku vorri er vor huggun sú, ad Gud siálfur er vor frædari, sem kénnir oss þann mikilvægasta lærdóm, sem er ad óttast hann. Miskunar-ríki Gud! vér felum vort hiarta þér á vald, giør þad siálfum þér þocknanlegt, upplýs vorn skilníng, helga vorn vilia, og vardveit vora giørvalla sálu óstraffanlega til þíns opinberunar-dags; en vér veik og hrasandi børn þín siáum svo marga afvegu fyrir oss, sem leida kunna oss frá þér, margar villu-gøtur á hvøriar vér ráfa kunnum af réttum vegi; kénn oss því ad þeckia alla afvegu, allar tálsnørur, sem giøra kunna oss óluckulega,



lega, og vardveittú vora fótstigu ad vér ecki hrøsum; kom vorum veikleika til hiálpar og vidhaldtú oss á þeim sáluhiálplega vegi, sem leidir til himinsins. Þitt auga, o! Gud allrar gædsku! lítt i nád nidur til vor aumra, á þessari stundu; þú hefir leidt oss inni heim þenna, þín nádar-rík forsión leidi oss þvíl á réttum vegi um heiminn. Snú ecki augliti þínu frá oss, þegar vér bidium þig, en géf oss fyrir vors Frelsara Jesú sakir allt þad, sem þú sier oss nytsamlegt; jafnvel mótlætingum viljum vér gladir vel taka frá þinni hendi. Styrk oss med þinni hiálp, og gled vort hiarta med þinni huggun. Þinni nádugu stiórnun felum vér á hendur, o vor Gud! vort giorvalla líf; yfirgéfdu oss ecki, og tak ecki þína nádarhond frá oss, vor Gud og vor heilsugiafari!

## LXXIX. Hugvekia.

Ecki ad eg hafi þad þegar hondlad, edur sé þegar fullkominn, eg stunda þar eptir, hvort ad eg gæti þad einninn hondlad, líka svo sem eg er af Kristó hondladur. Philipp. 3.

Þegar vér eptir erfidi daganna hvílumst á nóttum og niótum svefnsins end-

endurnærtingar, erum vér eins og dauðir, án tilfinníngar og adgætslu þeirra háskasemda, sem þá audveldlega kynnu nálægiast og yfirfalla oss. Þetta ástand vort, er nærsta sorgleg afmálan þess tilfinníngar- og adgiorda-leysis, í hvorin sála vor eydir tíd sinni. Tilfinníngarlausir erum vér vid svo marga velgiorníngа, sem vor gódi Gud lætur oss nióta, svo ad hvorki hans typtanir né bendíngar fá oss vakid, af vorum andvaraleysis svefni; dofnir erum vér til ad giora þad góda, og afskiptalausir um þær háskasemdir og hindranir, sem tálma oss í gudhrædslunnar og dygdanna framförum. Vér gaungum fram líkt og hálfsofandi og í draumi, umhyggiulausir fyrir því, sem oss mæta kann, án þess ad gefa þess gætur hvad um vorrar ódaudlegu sálar velferd lída muni. Í þvílíku ástandi hefir máske margur af oss nú lengi lifad um æfi sína, og þannig svo ad segia sofid mörg ár burt. Mál er því fyrir oss ordid ad vakna loksins af þessum hættulega værdar-dúr, og láta Guds ord og skynsemi vora leida oss til ad gegna þessum gudlegu upphvatníngum til adgætslu velferdar vorrar. Láttu því, sála

mín!



mín! Guds roddu, sem til þín talar í hiarta þínu, hafa þá verkun, ad þú ecki einúngis heyrir, heldur framfylgir og þeim hræríngum, sem þú finnur Guds Anda hiá þér ad verka. Vaknadu því ecki ad eins um stund, heldur varastú ad falla aptur í sama andvaraleysis svefn, láttú þér nægia ad þú híngad til hefir sofid burt þín bestu ár. Vertú nú ár-vokur og tak vara á sérhvörri skyldu þeirri, sem Gud af þér krefur. Svo opt hefir Gud ad undanförnu til þín hrópad: vakna þú, sem sefur, og rís upp af dauda! heyr nú á þessari stundu þessa roddu, sem krefur af þér ad gefa gætur ad þinni velferd. Gættú ad, hvörsu margar háska-semdir þig umkríngia, í hvöriar leti þín og svefn kann audveldlega ad varpa þér. Sérhvörr dagur þinnar æfi, sérhvörr tími þíns lífs bioda þér út í nýia orustu; vak því og strid, svo þú missir ei þá kórónu, sem þér er heitin ad strídslokunum eptir unninn sigur; eda meinar þú ecki ad end-ur-minníng þinna í andvaraleysis svefni eyddu lífs-stunda, muni lokssins sárlega qvelia þig, ef þú lætur þig ecki vekia ádur enn sídasti daudans svefn apturlykur þín augu? hugsa æ til þessa á hvörium

qvöldi

qvøldi ádur enn út af sofnar, og lát þá tilhugsun þrýsta þér til ad bera umhygg-iu fyrir þinni eilífu velferd ádur enn þú lykur þínum augum. En hvørnig fáum vér þetta megnad, nema þú, vor Gud! hiálpir og styrkir oss! eins og vor líkami ad morgni dags verdur ad nióta þín ad, til þess ad géta borid sig og vidhaldist á hvørium degi, allteins og ecki midur þarf sála vor þinnar hiálpar, bædi til ad uppvakna af syndanna svefni, og til ad haldast sífellt vakandi. Æ! miskuna þig því yfir oss, miskunar-ríki Gud! þú þeck-ir og sier hvørsu daudir, latir, kaldsinna og óduglegir vér erum til alls góds. Upp-lífga því med þínum Anda vort hiarta og upphvet vora sálu til ad brúka for-siállega sérhvørn þann tíma, sem þú unn-ir oss. Giør oss adgætna um háskasemd-ir þær, sem sálu vorri eru búnar, og eptirtektasama um miskun þína vid oss, fúsa til ad giøra þad góda, og áhyggiu-sama ad forsóma engin þau tækifæri, sem þú gefur oss til ad taka vara á frelsi vorrar sálar. Leidi þá, o vor gódi Fad-ir! sálu vora til yfirbótar, þitt ord, þín-ir velgiørníngar, þínar typtanir, þín þolinmædi og þín vægd vid oss! aldrei

vil-



vilium vér hédan af stríd, gégn þvílíkum upphvatníngum, aldrei hédan af láta þína nád til forgéfins vid oss fráumkoma; og ef ad vér skyldum rata í þá ógæfu ad andvaraleysi og syndanna svefn sígi ad oss á ný, veki oss þá af honum þín máttuga fødur-hønd, ad vér ecki útaf sofnum til hins eilífa dauda, heldur ødlast mættum þad eilífa líf, sem er þín nádar-giøf fyrir Jesúm Krist vorn Frelsara! Amen.

## LXXX. Húgvekia.

Þegar þú kallar, mun Drottinn svara þér; þegar þú hrópar; mun hann ségia: siá hér em eg. Es. 58:

Vér værum vissulega hinir óþacklátustu af øllum sképnum Guds, ef ad vér framar þióna vildum syndinni, þar ed Jesús er fyrir hána dáinn; med þvílíkri adferd forsmádum vér Guds nád, afneitudum Gudi, og vanvirdtum vorn Frelsara, já, vér egndum þarmed á ný yfir oss Guds strangu reidi; eilíflega skal lángt frá oss þvílíkt óþacklæti, þvílík skélfileg vondska! á móti vors Jesú þægilegu upphvatníngum og ástúdlegu lodunum, skulum vér ecki lengur forherda vort




vort hiarta. Af allri sálu og med kiærleiksfullu hiarta skulum vér þacklátlega vidurkénna allt það góda hann hefir oss giort; med sífeldri æfíngu í dygdunum skulum vér leitast vid ad feta í hans fótspor, sem sitt dygda-dæmi hefir oss til eptirbreytíngar eptirlátid. Sína bitru pínu hefir hann ad sonnu fyrir oss lidid, svo sem straff vorra synda, en med henni hefir hann jafnframt géfid oss þvílíkt dæmi uppá þær ædstu dygdir, ad þess líki aldrei fyrr né sídar fundist hefir, og þetta Jesú dygda-dæmi í hans píslum skal æ vera oss munstur í voru líferni. Ad kappkosta ad líkiast honum æ meir og meir er því eins fullkomin skylda vor, og hitt er vor huggun og sáluhiálp, ad hann med því, sem hann leid vor vegna keypti oss med svo dýru verdi. Frá því ad eptirfylgia þessu vors Frelsara dæmi, ættum vér eckert ad láta oss fæla, hvørki heimsins óþacklæti, hád né forsmán; allt eins og hann, egum vér hógværd ad sýna vorum ossóknar-monnum, þogn og medaumkun þeim, sem hæda oss, þolinmædi þeim, sem giora oss órétt til; ástunda sakleysi þegar vér erum baktaladir, og bidia: fadir, fyrirgéf þeim, því þeir vita



ei hvad þeir giora; eins og hann egum vér vilingir ad leggia oss undir þad, sem vor himneski Fadir vill vera láta, og leitast vid ad verda brædrum vorum til upphvatníngar, gagns og nota; eins og hann, med liúfu gédi lída hvad medþarf til almenníngs gagnsemdar, og siái vor himneski fadir þørf á ad brúka sárar typtanir til undirbúníngs sálu vorri til hins eilífa lífsins, egum vér siálfum oss ad afneita, taka krossinn á oss og fylgia vorum Frelsara á eptir, eptir því, sem oss er fremst møgulegt. Ef ad vér eins og hann yrdum svo staddir, ad offra hlytum bænum og tárafølllum, egum vér eins og hann, ad géfa Gudi dírdina, og vissulega vænta þess, ad hann bænheyri oss og hiálpi til síns himneska ríkis, þó ad vér þola mættum óvina vorra baktal og ofsóknir, fyrir vor bestu verk og hreinasta tilgáng, þá látum oss ecki þarvid hindra frá ad giora gott. Þó ad ástvinir vorir yfirgéfi oss þegar vér erum í naudum staddir, þá umberum þann missir med gódu gédi, en styrkium oss því framar í trúnadar-trausti á lifanda Gudi. Ef ad því koma skyldi, ad sála vor yrdi yfirgéfin, svo vér sæum eckert liós, enga gledi





gledi né huggun, þá látum oss í þvílíkri vorri stærstu neyd hugsa til vors medalgángara qvala-hróps fyrir vora skuld: Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgéfid mig! og ecki sleppa traustinn til Guds, sem mun miskunna sig yfir oss á hagqvæmri tíd, og kroptuglega halda oss vid sinn kiærleika, þó vér í þann svipinn yrdum hans ecki varir. Og þegar loksins kémur ad vorum burtferdar tíma, látum oss þá afhenda í hans hendur vorn anda, sem hann hefir endurleyst, þá munnum vér í trúnni til hans sigra vorn sídasta óvin. Sælir erum vér þegar vér þannig færum oss Jesú endurlausn í nyt, þá munum vér midt í öllum þessa lífs umbreytíngum finna róseini, og í siálfum daudanum líf og krapt. O Jesú! þú, sem fyrir oss ert dáinn, gésdu oss náð til ad hafa þessi not af þínum dauda. Giordu oss allt af þér æ líkari, og styrk oss til ad fylgia þér eins fúslega eptir, hvørt, sem þú leidir oss á þeim vegum, sem þyrnifullir eru, eda hinum hvar blómstrum er strád á götuna. Þér vid hönd framgaungum vér óhultir, því þegar vér niótum þinnar leidsögn, mun enginn afvegur fá oss leidda af rétta veginum. Leid oss



elskulegasti Jesú! eptir þinu rádi, og medtaktú oss loksins til þinnar dírdar! Amen.

## LXXXI. Hugvekia.

Þér elskanlegir! hafi Gud elskad oss þannig, þá erum vér og skyldugir ad elska hvorr annann. 1 Jóh. 4.

Vér erum skyldugir ad bera bródurlegann kiærleika hvorr til annars, svo sem þeir, er Jesús hefir endurleyst, og hvorjir vera vilia hans læristveinar og eptirfylgiendur. Hvorsu hiartanlega hefir hann ecki elskad oss og miskunad sig yfir oss? skyldum vér þá ecki miskun audsýna medbrædrum vorum! fyrir vorar sakir fórnfærdi hann sinu lífi, fyrir oss úthellti hann sinu blódi; hvornig fáum vér þá endurgoldid þessum vorum sálarvin alla hans trúfesti, sem hann hefir oss audsýnt? o! eckert høfum vér, siálfir alls þurfandi, þad, sem vér fáum endurgoldid honum med. En þó vér af elsku til hans mettum vorn húngrada bródur, dryckium hann þyrsta, klædum hann nakta, komum heim undirokada til adstodar, vill hann þó meta þad eins og vid siálfann hann giørt væri. Med fúsu hiarta





hiarta skulum vér láta í lióst vid hann þetta merki og þenna vott vors þakkláta hiartalags. Hann giördist forlíkun fyrir vorar syndir, þó ei einúngis fyrir vorar heldur og fyrir allra manna syndir; munu þeir þá ecki allir, hvörium hann þvílíkann kiærleika audsýnt hefir, vera eins dýrmætir, eins mikils metnir af vorum Endurlausnara, og sérhvörr af oss, og því skyldum vér þá forsmá nockurn einn af þessum, sem hann hefir svo ástkiæra, og virdir svo mikils? eda skulum vér skammast vor ad kalla þá vora brædur, sem Jesús ecki blygdast ad kalla svo? nei, fiærri sé því; hvornig kynnum vér ad tilheyra Kristó, ef ad oss skortir þau kénniteikn, af hvörium hans lærisveinar þeckiast ega? ef ad vér ecki sífellt hofum oss fyrir augum hans dæmi til eptirbreytni? vér vilium því ástunda ad verda svo sinnadir, sem hann, og kappkosta ad láta hans kiærleika verda í oss kroptuganm, svo ad vér, ef Guds vilji krefur af oss þetta offur, fúsir láta kynnum lífid fyrir brædur vora. En vér grátbænum þig, o þú eilífi kiærleiki! ad þú siálfur viljir géfa oss og innræta hiarta voru þetta hugarfar; án þinnar

R 3 nád-



nádar yrdum vér sífellt allt eins kiærleikslausir, vanþacklátir og óstodugir, og vér híngad til verid hofum; en þegar þinn kiærleiki drottnar í voru hiarta, og þinn Andi stiórnar oss, þá leidumst vér framvegis til þvílíks sinnislags, sem hvorium kristnum vel somir. Gef oss nád ad efla þad, sem vidfrægia megi þína dírd, og gior hvorn af oss í sinn stad þér líkann í hógværd og mannelsku, ad vér ad þínu dæmi mættum þá leida á réttann veg, sem villir fara, vidrétta fallna, hughreysta auma, og snúa syndurum aptur til þín. Hvorsu morg tækifæri frambiódur oss ecki sérhvorr dagur vors lífs til ad vera þad í raun og veru, sem vér heitum: gódir kristnir menn! morgum veikum mundum vér hiálpad fá, marga villuráfandi leidrétt, marga hrasandi studt, og marga óluckulega giort luckusæla, ef vér legdum ástundun á þvílík kristileg gódverk. Morgum mundum vér med bænum vorum géta ordid ad notum, þó vér ecki med odru fengium þeim hiálpad. Æ! láttú, gódi Jesú! skyldu þessa verda vors lífs mikilvægasta fyrirtæki, sem vér ollu framar kappkosta mættum ad uppfylla! vér upplyptum til þín vorum hiortum

um, og bidium þig ad álíta allra þinna endurleystu naudþurftir. Þegar vér framgaungum med rádvendni fyrir þínu augliti, virdstu þá ad líta nidur til vor í nád, og géfa oss þá blessun, sem þú hefir afrekad og lofad ad veita oss; og þegar vér í naudum og vandrædum staddir felum þér á hendur vor efni og bidium þig um vorar naudþurftir, virdstu þá nádarsamlega ad bænheyra oss af himnum ofan, og veita eptirþreyda hiálp, þá mun þitt dírdarfulla nafn dýrkad og tilbedid verda af öllum þínum trúudu börnum nú og til eilífdar.

## LXXXII. Hugvekia.

Gud vill ad allir menn verdi sáluhólpnir og komist til sannleikssins vidurkenningar. 1. Tim. 2.

Svo eru þau hiálpar-medöl mörg og kroptug, sem nádar-ríkur Gud hefir oss í té látid, til frelsis sálum vorum, ad vor er eintóm skuldin, ef vér ei færum oss þessi medöl verduglega í nyt, og siálfa mættum vér sárlega naga oss og ásaka, ef vér færum þeirrar farsældar á mis, sem oss er géfid ad ega vissa von um ad ná: allt hefir Gud þad giort, sem



verda mátti til hiálpar oss, en siálfir hofum vér ecki byggia viliad hiálpina. Allir hans velgiorningar og rádstafanir um oss hafa til þess midad ad giora oss sáluholpna, en siálfir hofum vér unnid svo, ad vor fordæming aukast mátti. Allt hvad Jesús leid, hefir hann lidid til ad frelsa oss frá logmálsins bolvun, en hvorsu opt forsmádum vér ecki fríviliuglega þá blessun, sem hann afrekadi oss? hann lét eckert ógiort, er oss leida kynni til betrunar, en vér forherdtunst því framar; hann vildi vora sáluhiálp, en vér siálfir fordæmingu vora; hann vildi géfa oss himininn, en vér fáviísir dárar, vér voldum þann veg, er oss leida mátti í hinn óluckulegasta samastad; um þetta munu á sídan alltofmargir eilíflega ófarsælir bríxla mega siálfum sér, þad mun þá naga þá, og þad mun óaflátanlega þeirra píslir auka. Med þvílíkum áklogunum mun þeirra egin samvitska fordæma þá, og þeir siálfir vidurkénna þann Guds dóm réttvísann, sem yfir þeim gengur. Jesú blód, sem þeirra vegna einnig úthellt var, mun yfir þeim hefnd hrópa. Sá odrum hyggunar-ríki þánki ad þeir sén endurleystir, fær ad

eins

eins aukid á sorg þeirra, og eilíf en of
sein ydran mun þá sífellt qvelia. En
vér, vér lifum enn, og enn þá má yfir-
bót vor og ydran verda oss nytsamleg
og þó allsvaldanda Gudi þócknadist nú
ad burtryckia oss úr heimi þessum, mætt-
um vér þó játa, ad hann allt hefir til þess
giørt, ad vér verda mættum sáluhólpn-
ir, en þar hiá vidurkénna þverúd vora
og forakt vid hans náð; vér mættum
sanna dóminn réttvísann, sem hann yf-
ir oss uppsegir. En þú, þolinmódi misk-
unar-ríki Gud! þyrmdu oss enn, já géfdu
oss enn þá tíma til ad ydrast vors óþack-
lætis og þverúdar! vorar syndir, med
hvorium vér vanvirdt høfum Jesú for-
þénustu ógna oss; æ! lát vora særdu
samvitsku, finna rósemi, finna huggun
vegna þeirra písla, sem vor Jesús þol-
ad hefir. Lát oss eigi leidast til ørvænt-
íngar af áklogunum samvitsku vorrar,
heldur finna hugar-hægd í því forlíkun-
ar blódi, sem vor Endurlausnari hefir út-
hellt; og hafi sú qvøl, sem hann vor
vegna þoldi, híngad til verid ávaxtarlaus
á sálum vorum, æ! lát hana þó ecki
verda þad hédan af; alkrafíst þegar ad
því kémur, ad vér yfirgéfa skulum heim

 þenn-



þennann. Láttú þér ecki leidast med þinnar nádar sáluhiálplegu verkunum ad hræra vort hiarta, og gef ad þad hlýdid, vilíuglega fylgi þinni røddu; en þú, vor dýrmætasti Endurlausnari! virdstú óafslátanlega ad bidia fyrir oss, og med þínum Guddóms krapti ad beigia vor hiørtu. Þó oss syniad verdi allra heims heilla og gledi, vilium vér med rólegu gédi umbera þad, þegar ad eins þín pína ecki verdur á oss ávaxtarlaus; lát hana æ vera vora einustu huggun í lífinu, vorn styrk í lífsins þreyngíngum og mótlæti, og lokfsins vora endurnæríngu í daudanum, einkum þá, þegar umlidnar syndir hrella oss, þegar vor vaknada samviska ógnar oss, þegar grafarinnar og dómsins nálægd giørir oss óttafulla. Æ! vertú oss þá nádugur, o Jesú! og styrk oss med krapti þíns dauda, ad fá sigradann allann ótta, hrædslu, efasemd og ógnanir. Amen.

## LXXXIII. Hugvekia.

Eg held alla hluti skada ad vera ámóti ágæti þeckíngarinnar vors Drottins Jesú Krists. Philipp. 3.

Húng-

Hângad til høfum vér ſvo lengi hugſunarlauſt lifád um ſyndir vorar og ſtraffid, ſem vér høfum fyrir þær verdſkuldad, ad fáum ſinnum hefir oſs þad í hug hvarflad, er vekti hiá oſs minníngu vorra misgiørda, en hvørſu miøg mættum vér þó ecki óſka oſs ad framana ecki allt af í ſvo ſtrøffunarverdu þánkaleyſi, þar þó einhvørntíma mun ad því koma ad margfiøldi ſynda vorra verdi oſs berlega ſettur fyrir ſiónir; þegar ſamvitſkan lokſins vaknar af andvaraleyſiſins ſvefni, mun vort tilfinníngarlauſa hiarta þó loks finna til ſinnar eymdar og guddómlegrar reidi-þúngi leggiaſt ſvo ſem óbærileg byrdi á ſálu vora; og þó ad þetta beri nú ecki ſvo brádlega ad, munum vér þó ſíſt verda eins rólegir og umhyggiulauſir og nú um afdrif vor, þegar daudinn nálægiſt. O! þá mun allt þad ógnarlega, ſem flýtur af andvaraleyſinu, ſameinaſt, og ſú byrdi ſamvitſkunnar, ſem vér nú finnum ſvo lítid til, verda oſs tvøfaldt þýngri; þegar vér þá, ſiáum óteliandi fiølda ſynda, ſem vér drýgt høfum, þegar all-nálægur daudi, og dómur ógna oſs, þegar engin róſemi er framar í vorum beinum né huggun í hiarta

voru



voru, hvada vægdar, hvada hælis er þá ad leita eda vænta fyrir oss, nema í þinni dýrmætu pínu, o. Jesú! med hvorri þú forlíkad hefir fyrir vorar syndir. Einkísverdt munum vér þá finna þad, sem vér ádur brúkad høfdum til ad frida og svæfa med samvitsku vora; forgéfins munum vér þá leita allra medala til rósemdar sálu vorri; eckert, øldúngis eckert, munum vér þá reyna ad géti styrkt eda gladt oss deyiandi, nema daudi og pína vors Drottins Jesú Krists. Allt þetta vitum og þeckium vér nú fyrirfram, en því leitum vér nú ecki þegar, fyrr enn sótt og daudi ad kémur, þessarar kroptugu hugguuar? því látum vér hann ecki í lífinu vera vort einasta athvarf, sem í daudanum má einn vera vor einasta sáluhiálp, ef vér vilium klaklaust afkomast? því leitum vér oss ecki nú þegar á heilbrygdu døgunum rósemi fyrir sálu vora, ádur enn ángistarinnar tími ad kémur? nema þú siálfur, gódi Gud! hrærir og tilreidir vor hiørtu, munum vér til endaloka framana í voru andvaraleysi; séttú oss því skírlega fyrir siónir syndir vorar, svo ad vér skélfast megum fyrir þeirri bølvun, sem þitt løgmál hótar oss, og

þeirri

þeirri reidi, sem vér bokûm oss med somu yfirtrodslum; en hugga þar hiá vort hiarta med því ad afmála fyrir oss þá fridþægíngu, sem skén er fyrir þinn Son Jesúm; láttú oss í honum finna hreinsun vorra synda, og frelsun frá fordæmíngu. Þú hefir, o Gud! útgéfid hann til frelsis øllum syndurum, svo ad í engum ødrum er sáluhiálp ad finna nema honum einum: veri því hann, sem endurleysti oss af syndum og eymdum vorum øll vor huggun og von; allt vort traust setium vér til hans miskunar, sem forlíkadi fyrir allar þær misgiørdir, sem vér drýgt høfum og drýgia munum! þitt alskygna auga sier fyrir þær syndir, sem vér í qvøld eda á morgun munum styggia þig med; en þyrm oss vegna vors Frelsara Jesú Krists! med hans adstod vilium vér fordast allar syndir og ástunda ad framgánga med rádvendni fyrir þér. Styrk oss í þessum ásetníngi, svo ad vér lifa mættum þér til dírdar, þér, sem ert daudur og upprisinn fyrir oss, þá mun hvad hellst, sem ad høndum ber, verda oss ad lokunum heillasamt og gott, þegar vér fullvissir erum um þína vernd og þinn kiærleika bædi í tíma og eilífd.

LXXXIV.



# LXXXIV. Hugvekia.

En þér erud komnir til fiallsins Zíon, og til borgar Guds lifanda, til hinnar himnesku Jerúsalem, til Englanna mørgu þúsunda, og til safnadar og samkundu frumgetinna, hvorra nøfn skrifud eru á himnum, og til Guds, sem er allra dómari, og til medalgaungu manns hins nýia Testamentis Jesúm. Ebr. 12.

Vér, sem egum ecki hér í tímanum neina stutta stundar-dvøl, getum enganveginn giørt oss lióssa þánka um eilífdarinnar varanlegleika, þó vér margfalda vildum þá stærstu tølu, sem vér fáum nefnt; o! þó vér reikna vildum hvørt sand-kornid í siónum á móti þúsund árum, og mæla þar eptir eilífdina, getum vér fyrir þad enga greinilega ímindun giørt oss um hana, því eilífdarinnar ára-tala hefir engann enda; þessi oss óskilianlegi varanlegleiki eilífdarinnar, skal vera oss kroptug upphvatníng, ad haga þannig øllum vorum fyrirtækium og athøfnum á medan vér lifum í heimi þessum, ad vér gódri hlutdeild náum í eilífdinni, og lifa mættum þennann ókomna ára-fiølda fullsælir. Jafnvel þó vér fáum ecki med þessum líkamans augum sied sælu þá,

sem

sem hinir réttlátu hlotid hafa í bústodunum útvaldra, vilium vér því optar yfirvega þad, sem heilög ritníng hefir oss um þeirra ásigkomulag opinberad, og þar af leita oss fullkomnari vissu um þeirra sælu. Þó himininn sé oss enn þá, sem ókéndt land, vilium vér því ydugglegar virda fyrir oss vors Guds og Frelsara kiærleika, sem hefir heitid oss í honum eilífri sælu-vist. Vér vilium yfirvega þær mikilvægu útréttíngar, sem hann hefir giört til þess ad ávinna oss í himninum eignar-rétt; þá óútmælanlegu mædu, sem Jesús undirgéckst til þess ad fá oss verduglega tilreidt undir vistarveru þessa samastadar, sem þó kostadi hann svo margar andvarpanir, svo mörg tár og svo bitrann dauda, skulum vér setia oss fyrir siónir. Þar af fáum vér gétid nærri, hvörsu mikil sú sæla vera megi, sem vér nióta munum í eilífdinni. Finnist tídin oss laung, þángad til vér náum inngaungu í þenna sælu-stad, rennum á medan augunum þángad á undan oss og íhugum hvörsu lítill og ómerkilegur tíma-púnktur oss virdast muni, jafnvel hinn lengsti manns aldur á jördunni, þegar vér lifad höfum í þessari sælu þús-

und-



undsinnum þúsundir ára! en vér þurf-
um ecki ad renna þaunkunum svo lángt
til ókomnu tímanna til ad sannfærast um,
hvørsu stutt líf þetta er; látum oss ad
eins íhuga hvørsu ódum þau ár eru út-
runnin, sem vér lifad hofum híngad til;
hvørsu margir medbrædra vorra líf sitt
enda munu á þessari nóttu, og máské ein-
hvørr af oss, þegar vér minnst ætlum,
verdi í þeirra tølu, sem daudinn á henni
yfirfalla kann. Vor heilbrygdi líkami
géfur oss enga fullvissu um þad, ad vér
aflifad fáum þessa nóttu; margir af þeim,
sem eins heilbrygdir og vér, løgdu sig til
hvílu ad qvøldi, láu kaldur nár, ádur enn
morgun-sólin yfir þeim upprann; eda
má ecki margur af oss, sem erum til ára
komnir, einatt finna til umbreytingar og
veikleika í líkama sínum, sem þeigiandi
mætti vekia oss grun um þad, ad vér
høfum ecki ad stóla uppá lánga lífdaga?
og hvørnin fáum vér vidurkénnt þenna
sannleika, og þó undir eins framgengid
í sinnuleysi, og þó undir eins bundid vort
huga vid þad jardneska, og þó undir eins
verid umhyggiulausir fyrir eilífdinni?
en svo er þó varid voru blindada hiarta;
sérhvør sannfæring um daudans ná-
lægd

lægd giørir ad eins miøg litla verkun k sálu vorri. Vér framgaungum á með-al enna deyiandi; vér finnum siálfir, ad ver daudlegir erum, og þó lifum vér eins og vér alls engann mißir hefdum ad ótt-ast; vér metum vora stuttu tíd svo litils, eins og vér vænta mættum ad giørvøll eilífd væri hér vid jordu bundin; inn-prenta þú, o Gud! þann sannleika diúpt í vorar sálir, ad vor hérvistar tíd er stutt, svo vér mættum vitrir verda; kénn oss ad hugleida ad líf þetta er eckert, én ei-lífdin allt. Styrk vora trú, svo ad vér æ hlýdum þér, en ecki heimsins flárádu ginníngum, láttú vor hiørtu æ vera hiá þér, hvar vor fiársiódur er, og bera ad eins mognleguſtu umhyggiu og ástund-un fyrir því ad oss eilíflega megi vel vegna.

## LXXXV. Hugvekia.

—Auga þitt Drottinn á mig sier, allstadar ertu nærri mér.

Efalaust hlýtur sú íhugan ad vera þeim ógnarleg, sem elska lestina, ad Gud er alvís og allstadar nálægur; hvørsit óttafullur má hann ecki verda, þegar hann hugleidir ad Guds alsiáandi auga sier þær



andstyggilegu syndir, sem í leyndum drýgiast, og ad allar ránglætíngar eru honum augliósar, sem huldar vera kynnu fyrir manna siónum; hvørsu mætti honum ecki bregda vid, þegar hann hugsar um þad, ad þessi Gud þeckir alla þá ránglátu vegu, sem hann gengid hefir, øll þau smánarlegu medøl, sem hann brúkad hefir til framqvæmdar sínum fyrirtækium, ad hann sier hans leynilega hatur, hans girnda-bruna, hans hulduſtu lystíngar og alla hans hiartans þánka? og þegar hann þá yfirvegar, ad þessi Gud, fyrir hvørium øll vidurstygd hans lastafulla hiarta er opinber, hefir endalaust og ótakmarkad vald til ad giora sáluhólpinn og til ad fordæma, og ad engin manneskia fær umflúid hans straff, hvørsu má þá ecki syndarinn skélfast vid þessa umþenkíngu? en svó óttalegt, sem þad hlýtur ad vera fyrir þann mótviliuga syndara, ad virda fyrir sér Guds allstadar nálægd og alvitsku, svo huggùnar-ríkt er þad fyrir þig, sála mín! þegar þú med ótta og forsiálni framgengur rádvandlega fyrir augsýn Guds; hvørsu hughraust ertú þá ecki, þegar þau tilfelli bera ad hondum þér, sem giora kunna þig órólega, þó

menn

menn baktali þig eda dæmi med kiærleiksleysi, hvørsu gledilegt er þá ecki ad géta sagt med Job: mitt vitni er á himnum; þegar þú kémst í vandrædi þau, sem þú ecki treystist ad ráda fram úr, en allir þínir vinir yfirgéfa þig, og þú finnur hvørgi hiálp, hvílík huggun er þá ecki ad hugleida þad, ad Gud er þinn trúfasti ástvinur, sem aldrei mun yfirgéfa þig; þó ólucku tilfelli flycktust ad þér á allar sídur, hvørsu huggunar-rikt er þad ecki fyrir þig, fáir þú þig hughreysta med því, ad hann sé hiá þér, í hvørs höndum ad stendur þín lucka og ólucka, og ad hann stiórnar øllum tilfellum sinna barna þeim til velferdar. Þegar þú í leyndum ákallar Gud þinn, hvørsu styrkist þá ecki þín trú, þegar þú hugleidir, ad hann géfur gætur ad bænum þínum og skilur þíns hiarta heimuglegasta andvarp; þegar þú tekst á hendur umhyggiu þeirra yfirgéfnu, fátæku og naudstøddu, án þess þú giørir þad ødrum opinbert, hvørsu má þad ecki gledia þig, ad Gud adgiætir þitt gódgiørdasama hiartalag, og telur alla þá velgiørninga, hvørium þú í leyndum útbýtir. Þegar eittsinn ad því kémur, ad þú leggst í þína



sóttar-sæng, yfirgéfinn af allri mannlegri hiálp; o! hvørsu audveldt mun þér þá ecki veita vid ad skilia, þegar þú hugleidir, ad Gud og Jesús er þér nálægur, og sier þína daudans ángist, og er reidubúinn ad frelsa þig frá øllu vondu. O! Drottinn vor Gud! géf þína náð til þess ad þessar hugleidíngar aldrei hvarfli oss úr hiarta, géf ad heilagur ótti fyrir þinni allstadar nálægd, megi þreyngia sér inn í vora sálu, svo opt, sem syndarinnar táldragandi freistíngar vilia locka oss afvega, en þar hiá veri íhugun þinnar nálægdar, vor huggun og traust í øllum þessa lífs mótlætíngum. Sértú med oss, hvørr kann þá ad vera á móti oss, standir þú oss til hægri handar, erum vér øruggir og óqvídnir hvad sem ágengur

## LXXXVI. Hugvekia.

Vor borgar-réttur er á himnum. Philipp. 3.

Vér høfum enn þá á qvøldi þessu endad einn dag, vegferdar-reisu vorrar ígégnum líf þetta til eilífdarinnar, og einn dagur sømu reisu er oss fyrir høndum ad nærsta morgni, spari Gud þángad til lífs-stundir vorar, allt eins og Pílagrímar

grímar eda vegfarendur erum vér í heimi þessum, hvar vér egum ad tilreida oss undir annad betra líf. Ecki er því ad neita, ad ótti og skélfíng má hiarta vort uppfylla, þegar vér hugleidum ordugleika reisu þessarar og vegarins óþægilegleika, vors holds fyrdiorfun og vanmátt vorn; hvörsu audveldlega kunnum vér ecki á afvegu villast, og missa siónir á fodurlandinu, sem vér keppunst til. Hvörsu margir eru þeir ecki, sem gengid hafa þenna veg á undan oss, er látid hafa sig leida afvega af vegarins ordugleika og dæmum hinna ógudlegu, og megum vér fyrir því óttast, ad þared hold vort er veikt en tilloekanirnar til hins vonda miklar, ad vér víkia kunnum af þeim vegi, sem vér ættum ad gánga. En, o Jesú! þú, sem einninn giordist vegfarandi hér á jordunni, vertú hiá oss, og leid oss svo ad vér víkium ecki af þeim fyrirlagda veginum á fordiorfunarinnar villustiga! ef ad heimsins blindandi siónhverfíngar ættu ad locka oss, þá láttu oss skoda med upplýstum augum þá sonnu farsæld, sem þinum er vís, sem þér eptirfylgia. Þó ad svo margir verdi þér ótrúir, láttu oss þó ætíd finnast í tolu þinna sonnu læri-

 

sveina; ætli jafnvel vort egid hiarta ad leida oss afvega; þá vertu því jafnan máttkari med þínum bendíngum. Ef daudans dalur, um hvørn vér gánga egum, ógnar oss, þá láttu oss æ grilla lióma þess stadar, hvørs innbyggiarar vér eilíflega verda egum. Allt af verdum vér þó ecki Pílagrímar hér á jördu, vor vegferdar-reisa mun loks enda taka, vér munum ad lokunum komast til þess födurlands, sem oss er áqvardad á himnum. Lát oss þángad renna þaunkunum, þegar oss tekur ad finnast vor Pílagrímsgánga of lángvarandi, og hugga oss í sérhvörri þessa lífs mædu og motlæti vid þad, ad vér nú þegar med trúnni fáum hér í lífi tekid nockra hlutdeild í þeirri fullsælu, sem vér egum í vændum á himnum, já, þegar hér í lífi erum vér sælir. Vér verdum hér á jördunni þegar varir nockurs parts þeirrar farsældar, sem á sídan mun umbuna mædu vora og ervidi. Vors Födurs kiærleiki, Jesú Krists nád, og heilags Anda sameiníng styrkir oss; nú þegar finnum vér verkanir guddómlegrar velþócknunar og huggana þess komanda heims. Géfdu oss nád til ad styrkiast æ betur og betur vid þessar og

því-

hvílíkar heilsusamlegar hugvekiur þá stuttu tíd, sem vér enn egum fyrir höndum ad ráfa á þessum siálfs afneitunar og reynslu vegi. Hiálpadu oss siálfur sífellt ad taka vara á þeirri skyldu, sem verda á vor ydia og vor sáluhiálp á sídan í himninum, vor umgengni, vor laungun, vor von, vor lucka veri þar, hvar vér óskum oss lengst ad búa! láttú þá dírd, sem þú þar hefir afrekad oss, vera oss öllum hlutum dýrmætari, svo ad vér aldrei förum hennar á mis, vegna óvidurqvæmilegs framferdis. Géf oss nád til, þegar hér á jördunni, ad verda í hlýdninni, audmýktinni og kiærleikanum líkir þeim fullkomlega réttlátu, í hvörra umgengni vér á sídan fagna munum; og þegar vér loksins komnir erum vora Pílagríms-reisu til enda, þá leid oss, sem þína kiörnu himin-borgara, inn í þitt dírdarríki, til ad nióta þar ad fullu þeirrar sáluhiálpar, sem vér hér á jördunni í trúnni væntum oss.

## LXXXVII. Hugvekia.

Hvörnig skal eg endurgialda Drottni alla hans velgiörnínga, sem hann hefir audsýnt mér! Psálm. 116.



Ef ad vér íhugudum velgiörnínga Guds, med hvilíkri alvorugéfni, sem David, þá mundunn vér og vid sérhvörs umþenkíngu, jafnvel hiuns minnstu velgiörníngs skapara vors, finna yfrid nóg efni til ad taka undir med David: Drottinn! hvornig á eg ad endurgialda þér alla þá velgiörnínga, sem þú hefir audsýnt mér? vid lífs vors náqvæmari yfirvegun finnum vér yfirgnæfanlega orsök til ad kannast vid hans óþreytanlegu velgiördir. Ef ad vér verdum þeirra ecki svo optlega varir, er einúngis vor óadgætsla, vort tilfinníngarleysi og óþacklæti skuldin; því enginn tími lídur sá, ad egin reynsla vor láti oss ecki þreifa á gædsku Guds; og þó ad eckert væri annad enn vor andardráttur, þá verdskuldar þó þessi velgiörníngur, svo lítill, sem hann í fyrstu sýnist, óendanlegt þacklæti og hvornig fáum vér þá minnst einúngis eins tíma, án þess, undir eins ad minnast hans gódgirni? jafnvel nú á þessum tíma, sem vér brúkum til þessara heilögu hugleidínga, megum vér vidurkénna: hvornig fáum vér endurgoldid alla Drottins velgiörnínga, sem hann hefir oss audsýnt! og hvad megum vér þá ecki segia um þá

daga

daga og þau ár, sem vér aflifad hofum. Drottinn! vér kunnum ecki ad segia annad enn þetta: ad vér séum óverdugir allrar þeirrar trúfesti, sem þú þú hefir látid ofs í té, og aldrei kunnum endurgialda þér þína velgiorninga. Því hvarmed gætum vér goldid allt þad góda, sem þú hefir vid ofs giørt? máské med voru þacklæti? já, þó ad vort þacklæti væri svo óendanlegt, og svo heitt eins og hans kiærleiki, væri þad enginn bétalíngur. Kannské med voru framferdi? já, ef ad vér ecki værum svo syndugar sképnur, sem án hans adstodar ecki megnum ad lifa honum þóknanlega; máské þá, þegar vér í eilífdinni verdum Englunum samlíkir? en jafnvel eilífdin siálf, er ofstutt til ad prísa hans gædsku, og siálfra Englanna lofsaungvar of veikir til ad dírka hann verduglega. Allar sképnur, sem eru á himni og jørdu mega undir þá játníngu taka: hvornig skal eg endurgialda Drottni alla hans velgiorninga, sem hann hefir audsýnt mér? Vér viliúm þó, hvorr í sinn stad, vidurkénna þetta til dírdar þinni gædsku; og játa med David: Drottinn! minni er eg allri þeirri miskun og trúfesti, sem þú hefir audsýnt þínum



um þénara. Að sennu er vissulega enginn sannleik audsiáanlegri enn þessi, en þegar vér géfum gætur að flestra manna framferdi, þá mættum vér leidast til ad efa þetta satt ad vera. Fioldi þessara til nádar teknu skopudu sképna, láta hiarta síns drambsemi og óþacklæti þannig villa sig, ad þeir gleyma þeirri undirgéfni, sem þeir áttu Gudi ad sýna, og jafnframt sínum lítilsiorlegleika og vanmætti, já gleyma Drottni, sem þá skapad hefir. Hvorsu naudsynlegt er þad því ecki, ad vér sífellt innprentum hiarta voru hvorsu óverdugir vér erum Guds nádar og hans velgiorninga, og vanmegna til ad endurgialda þá; en innprenta þú siálfur, gódi Gud! þetta sinnislag sálu vorri, svo ad þín gædska og vor óverdugleiki, sé oss sífellt fyrir augum; lát oss, vid sérhvorn velgiorning, sem vér medtokum af þinni ástríku hendi, líta til þín, sem hofunds allrar vorrar lucku, med audmýkt og þacklæti niota þinna velgiorda, og því framar, sem vér lærum ad þeckia, hvorsu vanmegna vér séum til ad endurgialda þinn kiærleika, því ákafari láttu oss vera í því ad þióna þér, og því innilegar sýngia þínu nafni lof. Lát oss æ fúsa færa

þér

þér offrid, sem þú eitt krefur fyrir þína velgiörnínga, med gledi fórnfæra siálfa oss þér, med öllu því, sem vér höfum til, já, prísa þig med sálu og lísi, sem eru þín eign.

## LXXXVIII. Hugvekia.

Hvörr ert þú?

Hvad erum vér vesælar sképnur, þegar vér samlíkium oss vid þann ótelianlega fiölda Guds sköpudu sképna. Hvörsu lítid, já, öldúngis eckert verdur úr oss med öllum vorum hroka, þegar vér skodum oss siálfa grandgiæfilega? hvad erum vér? ormar, handfylli ösku, dupt-korn, sem ecki gétur stadist hæganu vindblæ, og þó svo vesælir dirfumst vér ei ad sídur, svo opt ad setia oss upp á móti vorum almáttuga Skápara, og þessi vor óendanlegi Skapari ber þó jafnmikla umsorgun fyrir oss, og hinum stærstu sinna handaverka. Hans almáttuga hönd, sem uppiheldur ótelianlegum veraldar hnettum, vidheldur og svo oss, hans vísdómur, sem áqvardar kóngaríkianna kior, stiórnar einneginn öllum vorum kiörum. O! hvörsu nádarsamlega lítilæckar Gud sig til vor, sem erum þó ecki



ecki nema ſkuggi. Því lætur hann ſér ſvo annt vera um ormſins luckú? hví leitar hann tídum ár eptir ár lítils verdra ſképna og þad ſvo fúſlega? hvad vinnur hann vid þad, þó ſála vor frelſiſt? hvorki kann hann fyrir þad verda ſælli né dírd-legri; og hvad miſſir hann þó vér yrdum fortapadir? öldúngis eckert, því þó ad vér og allir menn glötudumſt, er ſamt tala hans ríkis innbyggiara óendanlega ſtór til ad vegſama hans miklu verk og vld-frægia hans dírd um alla eilífd. Nem hér ſtadar, ſála mín! og líttú med lotn-íngu og undrun inn í Guds miſkunar-díup. Elſka, ógrípanleg elſka, er þad, ſem hrærir eilífann Gud til ad líta nidur til vor, og giora oſs hluttakara ſinnar ſælu. Hans Sonar pína, med hvorri vér erum forlíktir, géfur oſs fullviſſu-um þad, ad Gud elſkar oſs, og ad vér af hönum vænta megum himinſins farſældar. Lof-adur og tilbedinn ſértú af oſs, miſkunar-ríki Gud! Drottinn er mildur og gódur, hans vegir eru eintóm miſkun og ſann-leiki, þeim, ſem halda hans ſáttmála og hans vitnisburd, lofad veri nafnid Drott-ins fyrir þad ad hann ſtýrir oſs og efn-um vorum, ecki eptir vorum fáviſa hug-

þótta,

þótta heldur eptir sínum vísdómi; ad hann höndlar vid oss, ecki eptir vorum syndum, heldur eptir sinni miskunsemi! Vér undrum med audmýkt og gledi þínar heilögu ráds ályktanir til vorrar lucku, iá, undrum mikilleik þinna miskunsemda; þad yfirgengur voru skilníng ad þú, eilífi Gud! kallar oss, sem ecki erum nema hismi, og þó þínir óvinir, til sælu þinna díedlegu útvöldu, en hitt má þó samt vera oss ógripanlegra, ad vér öktum svo lítils þessa miskun og forsmáum þá himinsins sælu, sem þú frambýdur oss. O nei! svo skulum vér ecki lengur breyta, med hrærdu hiarta vidurkénnum vér þinn elskuríka tilgáng, og vilium ad voru leiti, svo framt oss er mögulegt stunda til hans framqvæmdar. Þú útbreidir þinn fadm á móti oss; vér viljum flýta oss til þín, og láta oss af þér umfadma. Þú giorir allt hid besta, til ad draga oss til þín, vilingir viljum vér koma og fylgia þinni ástudlegu tilladan. Þú frambýdur oss himnaríkis sælu, vér viljum eptir henni keppast og meta þvílítils hid iardneska. Þessi skal vor ásetníngur, þessi vor kappsamasta ástundan vors lífs alla vora daga hédan af. O Jesú, vor Drottinn og vor Gud! hiálpa



hjálpa þú oss sjálfur til að ødlast þessa sáluhjálp, hvøria þú hefir afrekad oss med þínu dýrmæta blódi; því hvad notar oss øll jardneſk vegſemd og velgengni, ef ad vér ødlunſt ecki á ſídan í himninum, þá eilífu arfleifd, ſem vér egum eptir ad keppaſt á medan vér lifum hér í heimi?

## LXXXIX. [Jóla]-Hugvekia.

Mikil eru verkin Drottins, hvad hann ſkickar, þad er loflegt og dírdlegt. Pſálm. 111.

Þessa játníngu meigum vér giøra um ſérhvøria rádſtofun og verk Guds, allt hvad hann vill og verkar, þad er allt saman mikid og dírdlegt. Allt eru þad verkanir hans óendanlega almættis, vísdóms og gædſku. Allt er þad meira enn vor veika ſkynſemi fái gripid. Mikid er þad verk Guds, ad géfa oss mønnunum lífid, en mikid er og þad, ad hann lætur orminn lifa í dupstinu. Lofleg eru þau undrunar-verk Drottins og dírdleg, med hvørium hann vidheldur øllum lifandi og líflauſum hlutum, er hann ſkóp, en allteins dírdlegt og loflegt er vidhald ſérhvørrar ſképnu fyrir ſig. Mikid var þad verk Drottins, ad hann faſtſetti og nid-

ur-

urradadi sólarinnar og stiarnanna vissa gángi, en mikid er og þad verk Drottins, ad áqvarda sérhvørri manneskiu í heiminum, sín vissu kiør og tilfelli. Loflegt og dírdlegt var þad verk Drottins; ad senda brand af himni og vatn af hellunni, enn allt eins dírdlegt sýnir sig hans almætti í því ad géfa ávøxt á jørdina og vatn í brunninn. Allt hvad Gud giørir er mikid loflegt og dírdlegt, hvort þad er í því stóra eda smáa á himni eda á jørdu; allt ber þad vitni um hans óendanlega vísdóm og almætti, allt stefnir til þess; ad hann prísast kunni fyrir þá farsæld og gledi, sem hann útbreidir yfir sitt giørvalla ríki. En øllu framar má þó þessi lofsaungur Davíds um verk Drottins, ega heima um holdtekiu Guds Sonar, sem er þvílíkt Guds verk, sem yfirgengur øll ønnur, og er oss þessvegna því ogrípanlegra; en því audsiáanlegri eru oss og í þessu dásemdarverki margir Guds eiginlegleikar. Hér lærum vér ad þeckia þá alvitsku Guds, sem med undrunarverdum vísdómi fann følnu mannkyni hiálpar-medalid, og framqvæmdi eins addáanlega þad, sem hans vísa rád hafdi ályktad, syndugum heimi til frelsis;

hann

 

hann géfur, í persónu síns eingétna Son-
ar mannkyninu Frelsara og endurlausn-
ara, er því á ný veiti mista farsæld, og
leidi þad til himinsins. Med því ad Guds
eilísi Sonur tók á sig mannlega náttúru,
og frambaud sig í mannanna stad, sem
þeirra fríviliugann borgunar-mann,
mátti hann þeirra vegna fullnægiu giöra
Guds réttlætis krøfum, og sameiníng gud-
dómsins vid Jesú manndómlegu nátt-
úru giörir þad, sem Jesús leid og giördi
til heimsins fridþægíngar, ómetanlega
dýrmætt í augum Guds; hvørsu megum
vér ecki dást ad því vísa rádi Guds, sem
fann þetta fullkomna frelsis medal, er
eins lióslega vottar náð hans og miskun
og heilagleika hans og réttlæti? o! hvørsu
lióslega sýnir sig einneginn almætti Guds
í holdtekiu hans Sonar? hann verdur
gétinn af heilögum Anda, og fædist af
meyiu; hann verdur hluttakandi mann-
legs holds og blóds, en þó ecki syndar-
innar, sem þó vill loda vid hold vort og
blód jafnan. Hann er, sem Sonur Guds,
svo náqvæmlega sameinadur mannlegri
náttúru, ad vér nú eptir ritníngarinnar
orda-tiltæki sagt gétum: Gud er í holdinu
opinberadur; hvørr fær sér í hug leidt,
ad

ad þessi undur Jesú holdtekiu, hefdu
skéd gétad, án þess ad guddómlegt al-
mætti hefdi þad verkad; já, hér megum
vér vidurkénna, ad Gud stiptad hafi end-
urminníngu sinna dásemdar-verka, sem
Englar og menn med heilagri undrun
mega tilbidia. Ecki sídur lærum vér ad
þeckia hér í holdtekiu Jesú trúfesti Guds
og sannsögli. Hans vísdómi þócknadist
ad opinbera monnum fyrirfram, þetta
sitt áqvardada ráð. Fiogur þúsund ára
lidu þángad til Messías kom, frá því
fyrst var géfid fedrunum fyrirheitid um
hann, og á hinum sídustu árunum virdt-
ist, sem heityrdi þessi mundu aldrei fram-
koma, þegar Guds fólk var herleidt í
framandi land, og Davíds ætt, af
hvørri Messías skyldi fædast, var kom-
in í fátækdóm og vanvirdu; en ei ad síd-
ur birtist loksins hin fyrirheitna Ísra-
els huggun. Frelsari þiódanna kom med
ollum þeim kénnimerkium, sem fyrirsøgd
vóru. Hann fæddist á medal þess sama
fólks, af sama ættlegg, og fyrirspád var,
ad hann koma mundi; hann birtist á
þeirri tíd, og med þvílíkum atburdum,
sem giordu hann audþeckta frá ollum
Adams nidium. Þannig sýndi Gud sig

 hér


hér í sannordann, hvörs lofanir ei bregdast, svo sannadi hann trúfesti sína, med hvörri hann á sérhvörium heims aldri annadist mannkynsins velferd. En einkanlega sýnir sig í Jesú holdtekiu sá gudómlegi kiærleiki og miskun, oss til allra bestu huggunar. Ihugan Guds vísdóms og almættis, sem er svo augliós þar vid, má maklega uppfylla vort hiarta heilagri undrun, en þegar vér undir eins rennum augunum til siálfra vor; skodum oss, svo syndugir, aumir og lítilsvérdir, sem vér erum, og samanberum vorn andvirdilegleika vid ómælilega hátign Guds, uppfyllist hiarta vort, sem vonlegt er, ótta og skélfingu; og rennum vér augunum til Guds elsku og miskunar, upplífgast vort hiarta aptur af fagnadarfullu þacklæti vid Gud; uppá þessa elsku Guds til syndaranna, uppá hans óumrædilegu miskunsemi vid mannkynid, opinberar Jesú holdtekia oss þad óræcksta dæmi; hér auglýsir Gud sig, sem Gud, ríkann af miskun vegna sinnar miklu elsku, med hvörri hann elskadi oss frá eilífd í sínum Syni Jesú Kristó, og himin og jörd kunngiöra oss kiærleika Guds. Skøpun og vidhald allrar ver-

ald-

aldar sannar, hvørsu hann elskar sin handa-verk, ad hans nádar-rík forsión lætur sig várda um hagi vora, sier oss fyrir lífsins naudsynium og lífsins lysti-semdum, þetta ber vitni um þad, hvørsu honum sé annt um mannsképnuna. Sú hiálp hann audsýnir oss, þegar vér erum í vandrædum, sú blessun med hvørri hann farsælir vor fyrirtæki, géfa oss um þad fullvissu, ad himnanna alvaldi Gud er vor elsku-ríkur fadir, og sú þolinmædi og umburdarlyndi, sem hann hefir med oss veikum, vottar nóglega hans vorkunnsama kiærleika til vor veikra manna; í einu ordi: allt hvad Gud frá fyrstu sköpun giort hefir á øllum øldum vid mannkynid er og vottur þess, hvørsu Gud hafi manneskiur kiærar; en sú elska hans, sem oss er opinberud í sendíngu hans Sonar í holdid, yfirgengur øll ønnur Guds miskunar og kiærleiks verk, hún gengur lángt yfir alla mannlega skynsemi. Hér er sá eingétni Sonur fødursins, sem útgéfinn er heiminum til frelsis; hér er sá heilagi og saklausi, sem áqvardadur er til synda forlíkunar, hér er sá alleina sæli, sem í holdinu uppá sig tekur fátækt, veikleika og eymdir, hér er himinsins
 Herra,



Herra, sem giorist gestur og framandi á jordunni, hvar hann á ecki hæli, hvar hann kynni hofdi sínu ad ad halla, og vegna hvorra lætur hann þvílík elskunnar undur í lióst? föllum í heilaga undrun og tilbidium Gud! þad er fyrir oss mennina, já, til sáluhiálpar syndugum heimi hefir Gud svo stórann kiærleika audsýnt, ad senda sinn Son í holdid, til þess ad leida oss frávillta til hans aptur, svo ad hann fengi tekid oss seka aptur til nádar, og svo ad hann fengi í tíma og eilífd veitt oss svo mikid gott, ad vér aldrei hætta skyldum ad prísa hans elsku; og til alls þessa sendi Gud oss sinn Son; o! mikil eru verkin Drottins! dírd sé því Gudi í hædum, fridur er á jordu, og því er hiá mønnum Guds velþócknan!

## XC. Hugvekia.

### Á sídasta dag ársins.

Sé nockurr sá dagur ársins, sem oss vekia ætti til alvarlegs eptirþánka, er þad víst þessi, sem endar þad, þegar vér ferdast høfum eins lángann spøl vegferdar vorrar, og heilt ár er, edur 365 dagar, er þá ei tilheyrilegt litla stund, vid




vid ad ſtaldra og lita tilbaka til vegarins, ſem farinn er: kannſké ſú adgætſla yrdi ei gagnlaus fyrir oſs í framtídinni á þeim vegi, ſem enn máſké ófarinn ſé, og og hvad er þad þá, ſem oſs kémur fyrir ſiónir á þeſſa aflidna árs vegi? efalauſt þad, ſem ſérhvörr af oſs nægaſt reynt hefir, hefdi hann veitt því eptirtekt, nefnilega: velgiörníngar Guds og hans óþreytt gædſka, ſem á ſérhvörium dags-morgni þeſs árs, ſem nú er nær því endad, var ný og ferſk yfir oſs. Farſæla finnur nú ſérhvörr af oſs vid árſins enda þá vegu, ſem forſión Guds leiddi hann um á umlidinni árs tíd; miſkun vóru þeir eintóm og nád. Þetta vidurkénna nú med verdugu þacklæti þeir af oſs, ſem allt árid út notid hafa lífſins ánægiu í húſi ſínu af unnnarſamri umgengni med ekta-maka og børnum, og hvörra lífs-næríngar útvegu forſión Guds hefir ſvo bleſſad, ad þeir nægtir hafa til ſíns og ſinna lífs vidurhalds; þetta vidurkénna nú þeir af oſs, ſem á þeſſu umlidna ári ratad hafa í hættur og háſkaſemdir, ellegar vandrædi þau, ſem þeir ſáu ſér engann biargar-veg frá ad komaſt, en urdu dáſamlega frelſadir, þegar naudin adþreyngdi ſem



meſt. Þetta vidurkénna jafnvel þeir ſiúku og ſáru, ſem ſtunid hafa undir þúngri líkamans vanheilſu á þeſſu ári, en fundu fridandi endurnæríngu og huggun í eymdum ſínum, einúngis í Jeſú lærdoma huggunar-ríku fyrirheitum; já, hvørr er ſá af oſs, ſem ecki finni þad og vidurkénni, þegar hann rekur med náqvæmri athugaſemd þenna ſinn nýfarna lífs-feril, og ſkodar hvørſu hulin hønd Guds hafdi náqvæm afſkipti af øllum vorum høgum, og ſtiórnadi þeim dáſamlega áſtundum! hvørr af oſs má ei, ſegi eg, vid endurminníngu mánada, vikna og daga þeſſa aflidna árs, taka undir med María Jeſú módur: Drottinn hefir mikla hluti vid mig giørt: hans nafn veri eilíflega vegſamad! en, ef ad oſs eru nú vid árs-endirinn ſvo audſiáanlegir allir þeir velgiorníngar og gædſka Guds, ſem vér notid høfum allt árid út, má oſs jafnframt reka minni til hins, hvørſu vér vórum óverdugir þeſſara velgiornínga. Hvørs ſamvitſka má nú ei blygdaſt, ſem uppriſia vildi fyrir ſér medhaldslauſt, allar þær ſyndir og misgiørdir, ſem hann ár lángt drýgt hefir gégn gódum Gudi, ſem giørdi oſs á

því




því svo mikið og margt gott? má ecki sérhvörr af oss í þessu registri finna syndir, drýgdar af ásetníngi eða ávana? syndir í giørdum, í orðum og hugrenníngum? syndir á móti boðorðum Guðs? og þó má sérhvörr þeirra synda einkum var verda við þessa eptirgrenslun, sem hellst á hann stríddu, og vaninn giørdi hann svo æfdann í, að hann traudlega féck af þeim látið. En hvað mikið er þá ecki og það góða, sem vér á þessu ári forsómad høfum af því, sem vér hefdum gétad giørt, og Guds nádar-rík forsjón gaf oss tækifæri til? þessi adferd vor og framferdi þetta giørvalla ár, má við ítarlega ransókn vora maklega fylla oss ótta og skélfíngu. Hvørnin mundi oss vegna, ef vér ættum við ársins enda að standa þann reiknfng, sem einusinni liggur fyrir oss fyrir dómstóli Guds fyrir brúkun nádar-tímans á þessu ári, sem Gud unnti oss til þess að vér á honum leidast mættum af nægd hans nádar-ríku velgiørda til að elska hann, og efla vora egin og vorra medbrædra farsæld? þetta ár, sem ber þó svo mørg áþreifanleg merki hans gædskuríka kiærleika, það høfum vér brúkad honum til móðgunar



en oss siálfum og ødrum tídum til óluckn, og hvørt mundi þá dóms-atqvædid, sem þvílíkir gædsku Guds og nádar-tímans foraktarar med øllum rétti mættu vidbúast? efalaust eilíf útskúfan frá Gudi. Ad þessi dómur er ecki þegar yfir oss uppqvedinn, er enganveginn dygdum vorum eda verdskuldum ad þacka, já, engu nema óþreytanlegri þolinmædi og lánglundar-gédi þess Guds, sem ecki vill syndarans dauda, sem oss syndugum til ómælilegrar gledi hefir gésid jafnvel mestu glæpa-mønnum þad huggunar-ríka fyrirheit: ad á hvørium þeim degi, sem sá ógudlegi snerí sér til hans, vilji hann miskunna honum; sem hefir unnid þad til vors frelsis ad útgésa sinn eingétinn Son í pínu og dauda. J hans nafni snúum vér oss nú til þín vid árstns enda, eilísi miskunsemdanna Gud! med sannri hiartans ydrun, fyrir þíns Sonar skuld, sem bætti saklaus fyrir oss seka. Virdstú ad fyrirgésa oss allar vorar syndir, sem fleiri eru á þessu ári drýgdar, enn oss sái rekid minni til. Lofadur vertú og blessadur fyrir alla þá náð og óverdskuldada velgiørnínga, sem þú hefir oss á þessu ári í té látid, og leyf oss, gódi fadir! ad

enda

enda þad med þeirri hugguuarríkuſtu fullviſſu og von, ad þín endalauſa gædſka muni med árſins enda, ſiſt á enda komin, heldur upprenna ný og ferſk yfir oſs med upprennandi næſtu Ný-árs Sól.

## XCI. [Ný-árs]-Hugvekia.

Gud! til þín var mér varpad allt frá módur-líſi, þú hefir borid umhyggiu fyrir mér.

Undir þeſſa Davíds medkénníngu tekur efalauſt á þeſſa Ný-árs-qvöldi, ſérhvörr af oſs, ſem minniſt þeſs, hvörſu nádarſamlega hann leiddur er af Forſión Guds, allt frá fædíngunni framm á þetta ár. Allar vorar aflidnu lífs-ſtundir bera minnisverd merki þeſs, hvörſu Gud á himnum hefir reynſt oſs ſannkalladur fadir; hvörr af oſs fær upptalid, þegar hann ſkodar ſitt umlidna líf, allt þad góda, ſem Gud hefir vid hann giört, einúngis á þeſſu ſeinaſt lidna ári, hvörſu hann ſtiórnadi vorum tilfellum med vísdómi og gædſku, hvörſu hann bætti vorar þarfir, bleſſadi vora atvinnu, farſældi vor fyrirtæki, vardveitti oſs í háſkanum, þyrmdi oſs vid allri ólucku, ſem jafnvel vor afbrot ſtofnudu oſs ſvo



tídum í; allt vottar ad hann hefir eckt slitid til þessa dags, umhyggiuna fyrir oss, sem hann tókst á hendur, strax og vér innkomum í heiminn. Frá eilífd hafdi hann ályktad, ad bera umønnun fyrir luck vorri. Hans alvitska þeckti fyrirfram tilveru vora, eins og allt þad, sem þéna mætti til vorrar lucku, því allir vorir dagar, vitnar Davíd, vóru í hans forsiónar-bók skrifadir, þeir ed enn verda skyldu. Hans alvísa rád, o þú manneskia! áqvardadi fyrirfram, fædíngar-stad þinn, og fædíngar-stund; hann sá fyrir uppheldi þínu, þannig, ad af því slaut þad lífs ásigkomulag og ástand, sem þú lifir nú í; hans verndar-auga vakti yfir þér í úngdæminu, svo ad þitt úngdóms giálífi vard þér ecki ad slísum; ad þú hefir sídan klaklaust og án nauda afkomist, þad áttú Guds mildu forsión ad þacka. Hann, sem er rádandi sérhvors tilfellum á jordunni, hann afstýrdi þeim hættulega siúkdómi, sem svipt hefir adra lífinu, svo hann eigi grandadi þér; hann gaf þér nægilegt lífs-uppheldi þegar adrir vesluduft upp af skorti og húngri; hann unnti þér allt umlidna árid ánægiusamra og rólegra daga í skauti þinna ástkiærustu

vina

vina og náfrænda, þegar adrir medbræd-
ur þínir á sömu tíd velkiast hlutu í siáf-
arins bylgium, edur lifa ángistarsömu
lífi fyrir strídsins eydileggíngum, og nú
hefir hann loksins látid þig útenda í sömu
rósemd, einn dag af þessu nýia ári; þessi,
eins og allir vorir ókomnu dagar, er í
hans bók skrifadir; þar fyrir einneginn
hinn sídasti lífdaga vorra. Þín mánada-
tala er hiá Drottni, segir Job, hann hef-
ir sett þér víst takmark, og yfir þad kémst
þú ecki. Efalaust mættum vér meiri qvíd-
boga bera fyrir adkomu þessa vors enda-
dægurs, ef vér væntum þess skyndilega;
en hvílík huggun fyrir þig, kristna mann-
eskia! ad daudi þinn er áqvardadur ad
rádi þíns Guds, þegar hann sier þér
hentugast vid ad skilia. Þú mátt trúa
því, og hugga þar vid, ad hann, sem
svo náqvæmia fodurlega tilhlutun hefir
audsýnt sig ad hafa med lífi þínu, mun
ei sídur vera þinn fadir í daudanum, med
öllum sínum atvikum er þinn andláts-
dagur af honum áqvardadur fyrirfram,
hvort hann skal adkoma seint eda snemma,
á sió eda á landi, á medal framandi eda
vina, á þessu byriada edur ödru ári, ept-
ir lángvarandi siúkdóm edur og hastar-
lega;

 

lega; þessi og óteliandi fleiri tilfelli, sem hér med eru sameinud, og þér mega á andláts-tíma verda mikilvæg, hefir þinn vísi og gódi fadir, svo fastsett, og þeim, þannig fyrirfram niðurradad, ad sem nytsamast verda kynni fyrir velferd þína, vini og vanda-menn, sem eptir lifa. Ecki kallar hann þig einu augnabliki fyrri í burtu enn hann sier ad besti tíminn fyrir þig, sem hann beid eptir, er kominn, ecki leggur hann á þig meira í helsóttinni, né lætur þig lengur lída, enn hann sier velferd þín útkrefur, allt hlýtur þad eptir hans vilia ad þéna þér til besta. Hvort þessi dagur, sem enda á líf vort, adkoma muni á þessu eda ødru ári, vitum vér ecki. Guds alvísu gædsku prísum vér fyrir þad, ad hann hulid hefir þennann dag fyrir oss; en, látum þá, án þess ad giøra oss um hans adkomu nockra ángistar þánka, þessa óvissu, sem vér sveymum kunn hann, géfa oss vid árs byriunina þá hugvekiu, sqvídnir fyrir daudanum daglega vid honum ad búast; en þessi vidbúnadur, er í því innifalinn, ad hvørr einn af oss leggi allt kapp á ad afleggia þá lostu, sem hann veit sig hneigdann til, en stundi eins alvarlega ad taka framførum í dygdum og mann-




mannkostum, sem láti sig í lióst í vorn daglega líferni, einkum med því ad ebla af mætti annara lucku og velgengni jafnt vorri egin, og giøra og studla til svo mikils góds á medal brædra vorra í heiminum, sem vér megnum, ad dæmi vors Guds, sem audsýnir sérhvøriûm af oss svo mikinn kiærleika; þegar vér ástundum ad brúka þannig sérhvørn dag þess ný-biriada árs, megum vér fyrirfram fullkomlega vona, ad þad verdi oss lucku-ár, því þá megum vér fyllilega reida oss med øruggu trúnadar-trausti uppá Gud, sem í sinni hendi hefir vor ókomnu tilfelli og stýrir þeim øllum oss til besta; hvørt sem oss mætir á því sorg eda gledi, medlæti eda mótlæti, sem vér aldrei med egin varúd eda vitsmunum vorum fáum hindrad, erum vér í hendi vors Guds, sem er vor fadir, og vér vitum og reynum ad hann aldrei lætur sín born til skammar verda, sem med hlýdnu hiarta fulltreysta honum; og þó daudinn mæti oss á þessu ári, erum vér þarum allteins sannfærdir, ad sá dagur, sem hann ákvardar ad enda skuli vort líf, sé af honum fyrirsiedur hæfilegastur tími til vorrar burtferdar. Vér afhendum oss þá í

hans



hans mildi-ríku fødur-hønd, óttalausir fyrir þessa sídasta óvinar adkomu, þared Gud vissulega bædi mun taka sér á hendur umhyggiu fyrir vorum eptirlifandi ástvinum, hvørt sem þad eru vinir eda náunustu vandamenn, og leida oss um daudans dymma dal, úr þessu útlegdarlandi inní vort eptirþreyda fødurland, þared øll vor afbrot eru oss fyrir Jesú dáuda fyrirgéfin. J hans nafni bidium vér þig, vor fadir á himnum! ad vardveita þessa trú stødúga í vorri sálu, allt þetta ár út, æ! lát því þessa vora audmiúku bæn í þessu sama Jesú nafni, verda oss Já og Amen!

## XCII. Hugvekia.

### A sídasta Vetrar-dag.

Hvørr hann situr undir skióli hins hærsta og undir skugga hins almáttugá, sá segir til Drottins, mitt traust og mitt slot, á hvørn ég vona. Psálm. 91.

Já undir skióli þess hærsta og skúgga þess almáttuga, má sérhvørr af oss vidurkénna, ad hann setid hafi þessa umlidnu Vetrar-tíd, sem nú lídur út; qvídandi máttum vér, sem vonlegt var, birja Vet-

Veturinn, þegar vér settum oss fyrir sjónir þau hættu-tilfelli mannlegs lífs, sem oss á honum búin vóru, þá hørdu veduráttu, sem venjulega fylgir Vetrar-tímanum í voru kalda landi, og ollir opt mønnum og sképnum tións og hættu á sió og landi. Med ángistarsonu auga leit efalaust margur fátæklíngur vid Vetrarins birinn, til tímans, sem þá fyrir høndum var, þegar hann hafdi þad ecki fyrir augum sér, sem nægia virdtist til atvinnu sér og sínum, né klædnad til skióls í vetrar-kuldanum. En eilíflega vegsamadur sé vor gædskuríki almáttugi fadir, sem enn þá þetta aflidna missiri hefir audsýnt oss sína trúfostu umhyggiu, já, látid oss sannfæraſt um sína Guddóms forsión, er leiddi oss svo dásamlega giørvallann Veturinn út til nákægs tíma, ad engin ólucka mætti oss, né nockur háskasemd grandadi; sú ørláta hønd, sem útbitir fædslu allri lifandi sképnu, og sier fyrir næringu þeim fuglum, er fliúga um í vetrar-kuldanum, var fyrir oss ecki apturlukt. Forsión vors Guds og umhyggiu megum vér miklu framar prísa, enn forsiálni vora, ad vér lidum enga naud, né þúngann atvinnu-

breſt,

 

breſt þennann afliðna Vetur, og ecki ein-aſta hefir vors Guds náqvæma umhygg-ia alid onn fyrir þörfum vorum um þeſſa vetrar-tíd, heldur einneginn fyrir ánægiu vorri og gledi. Lífſins luckn og unadſemd-ar høfum vér adnotid í áſtúdlegri um-gengni vina vorra og vandamanna, ſem gloddu oſs og hughreyſtu, þegar eitthvad mótdrægt eda ørdugt ad høndum bar; en þegar eitthvørt þad mótlæti eda næda hendti oſs, ſem hvørki ſiálfir vér né vinir vorir fengu rádid bót á, þegar þær naudir adbáru, úr hvørium vér ſá-um enga frelſis von, og vor úrrædi urdu þau ein, ad flýia med audmiúkri bæn á nádir vors Guds, hvørium aldrei verd-ur rádafátt í vandrædunum, né nockurn-tíma um megn ad hiálpa þeim naud-ſtoddu, þá fundum vér, iá, med ſannri hiartans tilfinníngu og þacklæti iátum vér þad, þá þreifudum vér á því, hvorſu eyru vors miſkunar-ríka fødurs ſtódu æ opin fyrir vorum qveinandi harma-kløg-umum, og hans almáttugi armleggur var þá útréttur til hiálpar og frelſis oſs, er vér vórum í naudum ſtaddir. Vitni þad hvørr af oſs í ſinn ſtad, hvørt hann, þeg-ar hann af trúudu hiarta bad Gud, fór nock-




nockurn tíma óbœnheyrdur frá honum, eda leitadi hans forgéfins, svo ad hann hvørki fengi rauna-léttir né endurnœríngu í eymd sinni! en segi oss þad nú einneginn samvitska vor og sú endurminníng umlidinnar vetrar-tídar, sem upprifiar fyrir oss gœdsku Guds og velgiornínga, er vér á henni medtókum, hvørt vér høfum verdskuldad þvílíka fødur-umhyggiu, sem vér reynt høfum ad Gud hefir fyrir oss borid, eda svo náqvœm afskipti af høgum vorum oss til lucku og blessunar? hvørr af oss þarf lángrar umþenkíngar til andsvara þessari spurníngu? Allir vér, hvørr med ødrum megum forstakslaust játa, ad vér á aflidinni vetrar-tíd, eins og á ødrum lífs-stundum vorum høfum til straffs og hegníngar unnid af Gudi en engra velgiornínga. Fyrir hvørsu margar syndir, drýgdar á aflidnum Vetri, hefdum vér nú ecki ydrun ad giøra vid Vetrarins enda, ef vér giætt um þess? syndir, sem því midur margur hvørr drýgdi af ásetníngi, syndir af vana og tilhneigíngu, sem vér þó þecktum ad stygdu vorn góda fødur, er vér, hvørsu sem syndgudum honum ámóti, fundum þó ad hiartanlega elskadi oss,

 

og ól fyrir oss trúfasta önn? og jafnvel þó nád Guds, sem kroptug hefir reynst í vanmætti vorum, hafi vardveitt suma af oss frá vísvitandi syndum, megum vér þó allir hvorr med ödrum játa, ad vér þrálega syndgudum af gáleysi og brádlyndi; en, hvorsu mikid gott höfum vér þar hiá forsómad af því, sem vér áttum ad giöra og gátum giört? þegar vér íhugum med verdugum eptirþánka framferdi vort á umlidnum Vetri og géfum undir eins gaum ad því, sem oss á honum mætt hefir, má oss ecki einúngis miklast lánglundargéd Guds og óþreytanleg þolinmædi vid mannanna vondsku, heldur enn framar hans ómmrædileg nád og miskun vid oss syndarana, sem erum hans nádar óverdugir. O! því framar, sem vér megum nú vera sannfærdir, bædi um vorn óverdugleika og um hans þolinmædi og nád vid oss, því framar ætti nú ríkdómur hans miskunar ad hafa hiá oss þá verkun, sem hann til ætlar; en, eptir engu ödru enn egin lucku vorri leitar hans trúfasti kiærleiki, þar til midar allt hans umburdar-lyndi, med syndum vorum; þar til midar hans nákvæma umhyggia fyrir vorum högum,

þar




þar til mida allir vors Guds óteliandi velgiørníngar, og allt, sem hann lætur oss mæta í þessu lífi; allt á þetta undir hans stiórnun ad leida oss til farsældar, en þessarar lucku fáum vér þó aldrei ordid adniótandi, nema vér séum í sátt vid Gud, því er einka medalid til ad komast í sátt vid hann, og ná aptur vinfengi hans fyrir syndara, sem af sér brutu hans náð, ad ydrast af hiarta syndanna og bæta sitt líferni; sú ydran er uppbiriun vorrar lucku, sem mildi Guds leidir oss til med nádar-ríkri medhøndlun sinni. O! látum þá ecki þvílíka náð vors Guds til vorra heiiía verda forgéfins. Nú þegar oss er í fersku minni vid Vetrarins enda bædi gædska hans, sem leiddi oss Veturinn út, og þær syndir, sem vér á honum drýgt høfum, sem svo eru margar og miklar, vogum vér ecki ad renna augunum til þess komanda Sumars, án þess ad leita fyrirgéfníngar á þeim med hreinni ydrun. Vér snúum því vid Vetrarins lok hiarta voru og munni til þín, miskunsami gódi Gud! lofadur, eilíflega lofadur og vegsamadur sértu fyrir þad, ad þú hefir lofad oss lifandi ad enda þenna Vetur; lofadur vertú fyrir alla þá náð,

 

náqvæma umhyggin, miſkun og trúfaſtann kiærleika, ſem þú hefir oſs á honum látid í té; lofadur vertú fyrir alla oſs á honum veitta óverdſkuldada velgiørnínga! en vér fáum þeirra ecki minnſt án þeſs ad ſú endurminníng vekji hiá oſs blygdun yfir þeim ſyndum, ſem giørdu oſs þeirra óverduga. Æ vor gódi fadir! vér høfum eckert veſælir ad bæta fyrir oſs med; uppá þína nád, ſem óendanleg reyniſt ſérhvørium, er til hennar flýr med ydranda hiarta og í trauſti vors Endurlauſnara Je ſú, er bætti fyrir vorar ſyndir, erum vér aumir ad øllu leiti komnir. J hans nafni vogum vér ad bidia þig, ad fyrirgéfa oſs allt þad, ſem vér á aflidinni Vetrar-tíd høfum brotid á móti þér, og vort trúnadar-trauſt til þín, hvørn vér reynt høfum ſvo gæſkuríkann fødur, er þeſs fullørugt, ad þú munir uppgéfa oſs alla vora miklu ſkuld, þegar þú ſier ad oſs af hiarta ángrar þad vonda, ſem vér drýgt høfum, og einſetium oſs einlæglega ad verda héreptir betri. En, þú þeckir vorn óſtødugleika beſt í því góda, þér er kunnugáſtur vanmáttur vor til ad framqvæma þad. Þinn kraptur, almáttugi Gud! giøri oſs ſtøduga, og efli

oſs

oſs veita í öllu gódu! med fulltrauſti um Þína nádugu bœnheyrſlu Þeſſa, endum vér Þennann bleſſada Vetur, og vœntum oſs af nád Þinni, farſœllra í hönd farandi Sumar-tíma, en Þegar vorrar hérviſtar Vetrar-tímar lokſins enda taka á jördunni, ſtyrki Þá hiarta vort örugg trú og von um Þad, ad vér egum Þá fyrir höndum umbreytíngalauſum gledi-tídum ad fagna í Þinni dírd, ſem aldrei mun enda taka!

## CXIII. Hugvekia.

### A fyrſta Sumar-dag.

Befala Þú Drottni Þína vegu og vona á hann, hann mun Því vel til vegar koma. Pſálm. 37.

Eptirlaungunina ad vita fyrirfram hvad á ókomnu tímunum mœta muni, finnur ſérhvörr af oſs í ſálu ſinni, og er Þeſſi eptirlángan ecki óſialdan blönd-ud ótta og qvída fyrir Þeim mœdu-til-fellum mannlegs lífs, ſem vér ſiáum fyr-ir möguleg edur og líkleg ad til bera kunni. Vid tímanna umbreytíngar vid ára og miſſira-ſkipti, verdum vér hvad hellſt varir hiá oſs Þeſſarar eptirlaungunar, Þegar vér rennum augunum fram á veg-

 

inn til þeirra tíma, sem fyrir hendum eru og vér egum út í ad gánga. Pad er því náttúrlegt, nú vid tímanna breytíngar og uppbirjun nýrrar Sumar-tídar med þessum degi, þó oss hvarfli í huga sú spurníng, hvad mun sérhverium af oss á þessu Sumri ad hendum bera? ad sönnu höfum vér á þessum degi óskad siálfum oss og hverr ødrum lucku-legs Sumars, en þegar vér rennum þaunkunum til hinna margvíslegu til-fella mannlegs lífs, má ecki undra, þó qvídi fyrir ógédfeldum, ásamt verda kunni vort hlutfall. Sá, sem gladur og ánægdur biriadi Sumarid í morgun, spyr því hvørt hann muni þad og í sama ásigkomulagi fá útendad? mun eg heilbrygdur fá Sumarid aflifad? mun eg ánægiu nióta af ástvina minna sambúdum þetta Sumar út? munu mín fyrirtæki luckast og mínir næríngar útvegir? mun eg eins frí vera Sumarid út, og nú í dag fyrir mædu og eymdum? sömuleidis spyr sá, sem vid lífsins mótlætíngar á ad strída: munu mínar eymdarstundir enn ecki enda taka á þessu Sumri? mun sama rauna-byrdi, sem nú tekur til ad verda óbærileg á mínum herdum, ecki

af





af þeim létta Sumarid út? uppá enga af þessum efasomu og óttablondudu spurníngum fær nockurr einn af oss med vissu svarad; en, svo órólegir og qvídandi, sem vér verda megum, vid umþenkíngu ókominna tilfella á þessu Sumri, svo megum vér þó þanninn andsvara siálfum oss, ad vér verda megum óqvídnir fyrir hvøriu helst tilfelli, sem oss géttur ad hondum borid, nefnilega: allir vorir dagar standa í hendi Guds, allir vorir ókomnu tímar og sérhvørt tilfelli, sem oss á þeim mæta mun er innilukt undir forsiónar-hønd þess almáttuga, hann hefir svo náqvæm afskipti af høgum vorum, ad eckert vort høfud-hár kann ad skérdast án hans vilia, og svo er hann máttugur ad móti hans makt fær enginn stadid; þessi almáttugi Gud, sem vakir yfir velferd vorri, hann er fyrir Kristum vor forlíkadi fadir og elskar oss med ónumrædilegum kiærleika, sem sín børn; hann hefir med vísdómi og gædsku áqvardad þad, sem á þessu Sumri á oss ad mæta, en hvad helst, sem þad verda kann, hlýtur þad undir hans stiórnun ad þéna til eblíngar lucku vorri og velferd. Þá er þess ecki ad vænta, ad

 þad



þad, sem Guds alvísa ráð áqvardad hef-
ir ad vid oss skuli framkoma á þessu
Sumri, svari ætíd til vorra óska, því vér,
fávísar mannsképnur, vitum sialdan hvad
oss er fyrir bestu, vér litum optast-nær
einúngis til þess nálæga, og óskum oss
þess, sem auka megi vora nærverandi
ánægiu og gledi, án þess ad ígrunda hitt,
hvörsu hollt oss muni þad verda fyrir
seinni tímana; en sá alvísi, sem lengra
sier framm enn vér, sem betur
sier hvad oss hentar enn vér, hann út-
bítir oss því einu, sem hann sier oss heilla-
driúgast bædi í lengd og í bráð. Oss
skal því ecki undra, þó luctu-óskir þær,
sem vér í dag giorum oss, rætist ecki ad
øllu leiti á þessu Sumri, þó ad sá harm-
andi fái ecki ætíd rañaléttir þannig og
á þeim tíma, sem hann æskir sér; þó
ad fyrirtæki vor heppnist ecki øll eptir
vorri tilstofnun, þó ad luckunnar um-
breytíngar mæti oss þær, sem oss kunna
ad vera óþægar; nægi oss hitt, ad vér
erum þess fulltrúa, ad hvad hellst, sem
vor gódi almáttugi fadir hefir áqvardad
vid oss framkoma skuli í Sumar, hlýtur
ad þéna oss til góds, ef ad vér tökum
því, sem hans rádstofun; mæti oss þá
eitt-

eitthvort mótlæti á Sumri þessu, sier hann oss þad hollara enn medlætid, hann sier oss þá siúkdóminn heilsusamlegri enn heilbrygdi, örbyrgd heldur enn nægtir, sorg heldur enn gledi, líf heldur enn dauda, láti hann þetta heldur enn annad verda vort hlutfall; og þessi trú til vors Guds um nidur-rodun og ákvördun ókominna tilfella vorra fær giort oss óqvídna og örugga fyrir hvöriu hellst, sem oss mæta kann á ný-biriudu Sumri. Med þessa trú, sem grundvallar sanna mannlega lucku, ánægiu og rósemi í lífi þessu, megum vér á þessum fyrsta Sumardegi óska hvörr ödrum til lucku, og vænta oss nægra heilla af henni Sumarid út og allar vorar ókomnu æfistundir. Mæti mér, segi þvi sérhvörr af oss styrktur vid þessa trú, á þessu Sumri hvad hellst mæta vill, allt mun þad adbera eptir rádi míns Guds; látum vera ad þad sé hulid fyrir mínum augum, látum vera ad þad strída kunni á móti áformi mínu og óskum, engrar skal þad abla mér áhyggiu, því eg veit ad allt hvad vid mig framkémur, skédur ad rádi þess alvísa og góda Guds, sem er minn elskulegur fadir, og siá mun betur fyrir rádi mínu



enn sjálfur eg. Hans rádstofun og vegleidslu vil eg rétt eins og barnid á hendur fela mig og allt mitt rád; eg vil fylgia honum, hvørt sem hann kallar mig, eg vil trúa honum til þess, sem hann hefir lofad mér; eg vil lída þad, sem hann leggur á mig; því eg er þess fulltrúa, ad hvør hellst lucku-kiör, sem mér mæta, þó mér finnast megi þau ógédfeld, munu undir hans stiórnun verda medal til minnar velferdar; á mótlætingunum, þó eg ætti ad lída þær þúngbærar, hefir hann heitid mér vegsamlegum enda; mína giörvalla jardnesku lucku þetta Sumar út, veit eg minn alvísa fødur hafa þannig fyrirhugad, sem mín eilífa velferd útkrefur; rólegur vil eg því og ógvídinn vænta þess, sem hann ályktad hefir ad vid mig skuli framkoma, og í trú til hans forsiónar halda áfram á mínum lífsvegi. En ef ad vér viljum nú vænta oss þess ad þvílíkt traust til Guds giöri líf vort luckulegt, í hvørium hellst tilfellum, sem á því mættu adbera, verdum vér ad ástunda af fremsta megni ad lifa eptir hans bodum; til þess ad innræta hiá oss þad áform, einsetium vér oss nú, á fyrsta Sumar-daginn eptirfylgiandi

tandi lífs-reglur, sem vér trúlega vil-
ium varveita Sumarid út:

1.) Eg vil med hreinu hiarta og rádvondu framferdi framgánga þetta Sumar, eins og fyrir augum alsiáanda Guds leynt og lióst; med ordum, giordum og hugreníngum, varast nockurntíma ad styggia hann, en af fremsta megni taka mér fram í því góda, engum vil eg giora skada, heldur studla til svo mikils góds, lucku og gledi ödrum, sem eg er megnugur um; þá mun samvitska mín hughreysta mig, og giora mig rósamann þó eg reyna ætti eitthvad mótdrægt, med því ad bera mér vitni ad eg ecki er valdur af egin mótlæti mínu.

2.) Öll leyfileg medöl vil eg á Sumri þessu brúka til ad ebla med lucku mína og velgengni. Med forsiálni, ydiusemi og trúskap í minni stétt, fæ eg marga hættu umflúid og mikid giort til eblíngar lucku minni og ánægiu; þegar eg giört hefi allt hvad

mér



mér er mögulegt, kann eg rólegur ad afhenda Gudi á vald útfall athafna minna, sem siá mun, fyrir því mér til besta.

3.) Samt sem ádur skal aldrei nagandi búksorg né ágirndar-ergia ná rætur ad festa í hiarta mínu; aldrei skal eg því á þessu Sumri né endrarnær leitast vid ad bæta mín luckukior med óleyfilegum hætti edur útvegum, optastnær verdur þvílík adferd og ómak til óluckn, og þó mér heppnast kynni ad fá þad, sem eg sækist eptir, veit eg mig samt ad engu luckusælli vid þad. Kannské sú lucka, er eg ákafast sæki eptir, olli mér á sídan hvad mestrar sorgar, og verdi tilefni til minnar egin fordiorfunar; eg vil því bidia Gud ad úthluta mér því einu, sem hann siálfur sier mér hentast, hvorki vil eg bidia um fátækt né ríkdóm, heldur um ánægt hiarta, med hvad hellst, sem hann géfur mér.





Þegar vér festum oss nú þegar í hiarta þessar lífs-reglur, og fylgium þeim trúlega, hofum vér þarum grundadá von, ad þetta Sumar muni oss farsælt og blessad verda; þér, vor eilífi miskunsami fadir! fulltreystum vér til þess ad leida oss lucku-sæla; þinni guddómlegu forsión og fødur-kiærleika, felum vér oss á vald, líf vort og sálu og øll vor efni á Sumri þessu; vardveittú oss frá allri ólucku, verndadu oss frá øllum háskasemdum á sió og landi, blessadu øll vor fyrirtæki, gefdu oss ánægt hiarta med alla þína rádstofun, og láttú allt þad góda, sem þú á Sumri þessu útbítir oss, hvetia oss til ad elska þig æ meir og meir og ástunda, sem vora ædstu lucku af øllum kroptum ad þócknast þér; þegar þú, vor Gud! vardveitir þessa þánka í sálu vorri, lifum vér gladir í

von-



voninni um þad, ad hvoriar hellst luck-
unnar umbiltíngar, sem oss mæta, mun-
ir þú leida oss í gégnum þær og øll
tíma-skipti, eptir þínu gædskuríka rádi,
og medtaka oss loksins á hæfilegri tíd
þángad, sem enginn tímanna umbreyt-
íng verdur framar.



